# HARMONIA EVANGELICA;

Það er:

# Sambljóðan Guðspjallanna,

Um vors Drottins Jesú Kristí Holdgan og Hingaðburð, hans Framferði, Lærdóm, Kenníngar og Kraptaverk, hans Pínu, Dauða, Uppprisu og Uppstigníng, svo sem þeir heilögu Guðspjallamenn, Mattheus, Markús, Lúkas og Jóhannes hafa um sérhvørt skrifað.

Samantekin af

**D. Martino Chemnitio. D. Polycarpo Lysero; og D. Johanne Gerhardo.**

III. Utgáfa.

Selst óinnbundin á Prentpappír 85 ß. Silfur=Mynt.

Viðeyar Klaustri, 1838.

Prentuð á Forlag Sekretéra O. M. Stephensens, af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

# Til Lesarans.

Pessi útgáfa Harmoniæ Evangelicæ, edur Sám-hljódanar Gudspjallanna, er prentud eptir hennar annari út-gáfu á Hólum 1749. Sú fyrsta útgáfa hennar útkom í Skálholti 1687; útløgd af Biskupi Skálholtsstiptis Pórdi Porláksyni Skúlasonar Hólastiptis, eptir þeirri Harmoniu er samid høfdu á latínumáli hinir há-lærdu menn og Lærifedur í heilagri Ritníngu, D. Martinus Chemnitius. D. Polycarpus Lyserus, og D. Johannes Gerhardus. Getur Biskupinn þess í formála þeirrar fyrstu útgáfu, ad D. Chemnitius hafi fyrst byrjad þetta verk og farid því fram allt til 13da Kapítula þridja parts; þá hafi Lyserus vid-tekid, og haldid fram til 12ta Kapítula, fimta parts; en þadan frá og til enda verksins D. Gerhardus. Í út-leggíngu Gudspjallsøgunnar hefir Biskupinn fylgt þeirri útgáfu Biblíunnar, sem Þorlákur Biskup fadir hans lét prenta 1644. Þegar svo ber vid, ad einn Gudspjalla-madur hefir þá grein, edur efni sem annar hefir ecki, eda þar fleiri ord, sem annar hefir færri í einu og sama efni; eda þá tveir eda fleiri Gudspjallamenn rétt sømu ord og meiníngar, þá hefir Biskupinn til þess vísad med litlum látínskum bókstøfum, sem settir eru inní textann. Á í lestrinum yfir þessa látínsku stafi ad hlaupa, því þeir gjøra ei annad, enn vísa til, hvad sérhvør Gudspjallamadur hefir skrifad eda vidbætt, og hvar tveir eda fleiri brúka rétt sømu ord, eda því nær. Merkíng þessara stafa sést af toflu

þeirri, sem fylgir þessum formála. Til betra skilníngs eru sumstadar fáein ord sett in Parenthesi.

Biskupinn hefir látid þrjá vidbætira fylgja Harmoníu: 1) um framgáng kristnibodsins eptir Krists himnaför, samqvæmt fyrsta og ødrum Kapítula Postulanna Gjørníngabókar; 2) stutt æfisøgu ágrip þeirra 12 Postula og Gudspjallamannanna Marci og Lúcæ; 3) um nídurbrot Jerúsalems borgar.

Fleira sýnist ei naudsýnlegt ad tilfæra úr tédum formála Biskupsins. Enn fremur er til upplýsíngar, samqvæmt ádurnefndri útgáfu á Hólum 1749. vidbætt 1) lítilli frásøgu um Abgarum Kóng, 2) um þrennslags dómsúrskurd yfir Herranum Kristó, 3) um Krossgaungu Krists, 4) Utskýríng um hvad Eptir-Sabbatsdagur merki.

---

## Merkíng þeirra litlu Latínsku bókstafa, er sumstadar framkoma í þessari Bók, in Parenthesi.

a) Mattheus. b) Markús. c) Lúkas. d) Jóhannes. e) Mattheus, Markús. f) Mattheus, Lúkas. g) Mattheus, Jóhannes. h) Markús, Lúkas. i) Markús, Jóhannes. k) Lúkas, Jóhannes. l) Mattheus, Markús, Lúkas. m) Mattheus, Markús, Jóhannes. n) Mattheus, Lúkas, Jóhannes. o) Markús, Lúkas, Jóhannes. p) Mattheus, Markús, Lúkas, Jóhannes. q) Acta Apostolorum (Postulanna Gjørníngar).

---

# Historía Vors Herra Jesú Kristí,

Um þann tíma er hann sýnilegà umgéckst hér á jørdu, samanskrifúd af þeim fjórúm Gudspjallamønnum, Mattheó, Markó, Lúka og Jóhanni.

Formáli hins heilaga Jóhannis Gudspjallamanns innihaldandi grundvøll, merg og meiníng gudspjallegrar historíu.

## Jóhannes i fyrsta Kapitula.

Í upphafi var Ord, og þad Ord var hjá Gudi, og Ordid var Gud. Þad sama var í upphafi hjá Gudi. Allir hlutir eru fyrir þad gjordir, og án þess er eckért gjort hvad gjort er. Í honum var lífid, og líf-

id var ljós mannanna. Og ljósid skein í myrkrunum, og myrkurin hafa þad eigi höndlad. Þar var einn madur af Gudi sendur, sá hét Jóhannes; hann kom til vitnisburdar, ad hann bæri vitnisburd af ljósinu, ad allir skyldu fyrir hann trúa. Eigi var hann ljósid, heldur ad hann bæri vitnisburd af ljósinu. Þad var þad sanna ljós, hvert ed upplýsir alla menn, sem koma í þennann heim. Þad var í heiminum, og heimurinn var fyrir þad gjördur, og heimurinn þeckti þad eigi. Hann kom til sinnar eignar, og hans eiginn medtóku hann eigi. En svo margir sem hann medtóku, þá gaf hann þeim makt Guds börnum ad verda, þeim er á hans nafn trúa. Þeim sem ecki af blódinu né af holdsins vild, né mannsins vilja, heldur þeim sem af Gudi eru bornir. Og Ordid vard hold, og bygdi med oss, og vér sáum hans dýrd, dýrd svo sem eingetins Sonar, af Fodurnum fullann nádar og sannleika.

---



# Fyrsti Partür,

Seigir frá gétnadi og fæding Jóhannis Skirará og háns prédikun; sømuleidis gétnadi og Fæding Herráns Kristi, med ødru fleira sem Gudspjallamennirnir skrifa; um hans úngdóm og uppvøxt þar til hann hóf sitt Prédikunar embætti.



## 1. Kapítuli.

### Um gétnad Jóhannis Skirara. Lúc. 1.

Jtíd Heródis Júda Kóngs, var einn Prestur er Zacharías hét af skipti Abía og hans húsfrú var af dætrum Arons, sú er hét Elísabeth. En þau voru bædi réttlát fyrir Gudi og gengu í øllum bodordum og setníngum Drottins óstraffanlega. Þau áttu eckért barn, þvíad Elísabeth var óbyrja, og bædi þau voru vel øldrud.

En svó bar til þá hann flutti prestlegt embætti fyrir Gudi, á tíma hans skiptis, eptir sídvenju Kénnimannsskaparins; og er honum hlotnad-

ist ad hann skyldi veifa reykelsinu, géck hann inn í Musteri Drottins, og allur fólksfjøldinn var fyrir utan og badst fyrir um reykelsis veifunar tímann.

En hónum byrtist Engill Drottins standandi á hægra veg reykelsis altarisins, og Zacharías varð hræddur er hann sá hann og ótti kom yfir hann. En Engillinn sagdi til hans: óttast þú eigi Zacharía, þvíad þín bæn er heyrd, og Elísabeth eiginkona þín mun þér Són fæda, og hanu skaltu Jóhannes ad nafni kalla, og hann mun verda mikill fyrir Drottni. Vín og áfengann dryck mun hann ei drecka, og þegar í módur=qvidi mun hann uppfylltur verda af heiløgum Anda, og møргum Ísraels børnum mun hann snúa til Guds Drottins þeirra; og hann mun fyrir hónum framgánga í anda og krapti Elíæ, svo ad hann snúi hjørtum fedranna til barnanna, og vantrúudum til kjænsku réttlátra, ad tilbúa svo Drottni reidubúid fólk.

Og Zacharías sagdi til Engilsins, af hvørju skal eg þad vita? Þvíad eg er gamall og húsfrú mín er komin til ára sinna, og Engillinn svaradi og og sagdi til hans: eg em Gabríel, sá er frammi fyrir Gudi stendur, og eg em sendur ad tala vid þig, ad eg bodi þér þetta, og sjá! ad þú munt mállaus verda og ei tálad géta, allt til þess dags, þá þetta mun framkoma, fyrir því ad þú trúdir eigi mínum ordum, þau er upp skulu fyllast á sínum tíma.

Og fólkid beid eptir Zacharías, og undradist þad hann dvaldi svo lengi í Musterinu. En er hann géck út, gat hann eigi talad vid þá, og þeir formerktu, ad hann mundi sýn sjed hafa í Musterinu, og hann bendti þeim og var mállaus. Þad

ſkèdi og, þá er lidnir voru dagar hans embættis, ad hann géck heim í ſitt hús. En eptir þá daga vard hans-húsfrú Eliſabeth þúngud og leindi ſér ſimm mánudi og ſagdi: þannig gjørdi Drottinn vid mig, á þeim døgum hann áleit mig, þá ed hann vildi burt taka mitt hneixli, þad eg bar á millum manna.

## 2. Kapituli.

Ættartala frá Abraham til Jóſephs feſtarmanns Maríu Meyar. Matth. 1.

Þeſsi er sú Bók um Fæding Jeſú Kriſtí, Sonar Davíds, Sonar Abrahams.

Abraham gat Iſaak; Iſaak gat Jacob; Jacob gat Júda og brædur hans; Juda gat Phares og Saram af Thamar; Phares gat Hezron; Hezron gat Ram; Ram gat Aminadab; Aminadab gat Nahasſon; Nahasſon gat Salma; Salma gat Bóas, af Rahab; Bóas gat Obed, af Rúth; Obed gat Jeſse; Jeſse gat Kónginn Davíd; Davíd Kóngur gat Salómon, af þeirri ſem var húsfrú Uriæ; Salómon gat Róbóam; Róbóam gat Abía; Abía gat Aſsa; Aſsa gat Jóſaphat; Jóſaphat gat Jóram; Jóram gat Oſía; Oſía gat Jótham; Jótham gat Achas; Achas gat Ezechía; Ezechía gat Manaſse; Manaſse gat Amon; Amon gat Jóſía; Jóſía gat Jechonía og brædur hans, um Babýlonískann herleidíngar tíma, og eptir Ba-

býlonífka herleidíng, gat Jechonia Sealthiel; Sealthiel gat Zóróbabel; Zóróbabel gat Abiud; Abiud gat Eliachim; Eliachim gat Asor; Asor gat Zadoch; Zadoch gat Achin; Achin gat Eliud; Eliud gat Eleasar; Eleasar gat Mathán; Mathan gat Jacob; Jacob gat Jóseph mann Maríu, af hvørri ed fæddur er Jesús sá er kallast Kristur.

Allir ættlidir frá Abraham allt ad Davíd eru fjórtán lidir; og frá Davíd allt til Babýlonískrar herleidíngar, eru fjórtán lidir; og frá Babýlonískri herleidíngu allt til Kristum, eru fjórtán lidir.

## 3. Kapítuli.

### Um getnadinn Kristi. Lúc. 1.

En á hinum sjøtta mánudi, (frá gétnadi Jóhannes skírara) var Gabríel Eingill sendur af Gudi, í eina borg í Galílæa, sem heitir Nazareth, til einnrar meyar, er trúlofud var einum manni, er Jóseph hét, af húsi Davíds, og heiti meyarinnar var María. Og Eingillinn kom inn til hennar, og sagdi: heil sértú Nádarfulla! Drottinn er med þér, blessud ertú á medal qvenna. En þá hún sá hann, vard hún hrædd af hans ordum, og þeinkti: hvílík qvedja er þetta? og Eingillinn sagdi til hennar: óttast þú eigi, María! þvíad þú fannst nád hjá Gudi. Sjá! þú munt gétnad fá í qvidi þínum, og þú munt Son fæda, og hans nafn skaltú Jesús kalla. Hann mun mikill verda, og kallast Sonur hins hæsta. Og Gud Drottinn mun géfa honum stól síns Fødurs Davíds. Og hann mun vera Kóngur yfir húsi

Jacobs ad eilífu, hans Kóngs-ríkis mun og einginn endir verda. Þá sagdi María til Eingilsins: hvernin skal þad gánga til, med því eg veit af eingum manni? Eingillinn svaradi og sagdi til hennar: heilagur Andi mun koma yfir þig, og kraptur hins hæsta mun yfirskyggja þig, af því, ad þad hid helga, sem af þér mun fædast, skal nefnast Sonur Guds. Og sjá þú! ad Elisabeth frændkona þín, geingur þúngud ad einum Syni í hennar elli, og þessi er hennar sjötti mánudur, sem haldin var óbyrja. Þvíad hjá Gudi er einginn hlutur ómáttugur. En María sagdi: sjá! eg em ambátt Drottins, verdi mér svo sem þú hefur sagt, og Eingillinn skildi vid hana.

## 4. Kapítuli.

### Um vitjan Maríú til Elísabethar.
### Lúc. 1.

En á þeim døgum stód María upp, og gécк med flýtir uppá fjallbygdir, til Júda borgar, og kom í hús Zachariæ, og heilsadi Elisabeth. Og þad skédi svo, þá ed Elisabeth heyrdi heilsun Maríu, ad barnid spratt upp í hennar qvidi. Og Elisabeth vard full af heiløgum Anda, kalladi upp hárri røddu og sagdi: blessud ertú á medal qvenna, og blessadur er ávøxtur qvidar þíns! Og hvadan kémur mér þetta, ad módir Drottins míns kémur til mín? sjá þú! þá ed rødd þinnar qvedju kom mér til eyrna, spratt barnid upp med føgnudi í mínum qvidi. Og sæl ertu sem trúdir, þvíad þad mun fullkomnast, hvad þér var sagt af Drottni. Og María sagdi:

sál mín upphefur Drottinn, og andi minn ígledst í Gudi Frelsara mínum, því ad hann leit á sína aumu ambátt. Sjá! hédanaf munu mig sæla prísa allar ættir. Þvíad hann gjørdi mikla hluti vid mig, sá er voldugur er, og hans nafn er heilagt, og hans miskunsemd varir án afláts, æ og alla tíma hjá þeim sem hann óttast. Hann fremur makt med sínum armlegg og sundurdreifir dramblátum í þanka-um þeirra hjarta. Voldugum hrindir hann af stóli og upphefur lítiláta. Húngrada fyllir hann gædum, og ríka lætur hann fáseinga. Hann minn-ist miskunar og hjálpar á fætur sínum þjón Ísrael. Svo sem hann taladi til fedra vorra, Abrahams, og hans sædis ad eilífu. Og María var hjá henni svo nær sem þrjá mánudi og fór þar eptir aptur til síns heimkinnis.

## 5. Kapítuli.

### Um fæding Jóhannis Skírara. Lúc. 1.

Og Elísabethar tíd kom ad hún skyldi fæda, og hún fæddi einn Son. Og er grannar hennar og náfrændur heyrdu, ad Drottinn hafdi gjørt mikla miskun á henni, samgløddust þeir med henni. Og þad skédi á áttunda degi, þá þeir komu ad um-skéra barnid, og nefndu hann eptir sínum fødur, Zacharíam. En módir hans svaradi og sagdi: eng-anveiginn, heldur skal hann Jóhannes heita. Þeir søgdu til hennar, þar er þó enginn í þinni ætt sem svo heitir. En þeir bendtu fødur hans, hvad hann vildi ad hann héti. Og hann beiddist knefaspjalds, skrifadi og sagdi: hann heitir Jóhannes, og þeir

undrudust allir. Og jafuskjótt laukst upp hans munnur og túnga, og hann taladi, lofandi Gud. Og ótti kom yfir alla hans nágranna, og allt þetta sem skéd var, vidfrægdist um allar fjallbygdir í Júdea. Og allir þeir er þad heyrdu, løgdu þad uppá hjartad og søgdu: hvor grunar þig ad þetta barn verdi? þvíad hønd Drottins var med honum. Og Zacharías fadir hans fylltist af heiløgum Anda spádi og sagdi: Lofadur sé Gud Drottinn Israels! þvíad hann vitjadi og frelsan gjørdi sínu fólki. Og hann uppreisti oss sáluhjálpar horn, í húsi síns þjóns Davíds, svo sem hann taladi fordum fyrir munn sinna heiløgu Spámanna: Ad hann frelsadi oss í frá vorum óvinum, og af hendi allra þeirra sem oss hata. Og gjørdi miskunsemd vid fedur vora, og minntist á sinn heilagann sáttmála, og á þad særi er hann sór fødur vorum Abraham, ad hann gæfi oss þad, ad vér leystir af hendi vorra óvina þjónudum honum án ótta, alla vora lífdaga, í heilagleika og réttlæti sem honum þóknast. Og þú, barnkorn! munt kalladur verda Spámadur hins hæsta, því ad þú munt fyrir renna augliti Drottins, ad tilbúa hans vegu, og ad géfa hans fólki skilníng sáluhjálparinnar, sem er í fyrirgéfníngu synda þeirra, fyrir þá hjartgróna miskun Guds vors, í hvørri hann vitjadi vor, upprunninn af hædum, ad lýsa þeim í myrkrum og í daudans skugga sitja, til ad greida fætur vora á veg fridarins.

En barnid vóx upp, og styrktist í anda og var á eydimørkum, allt til þess er hann skyldi gánga fram fyrir Israels fólk.

6. Kap.

## 6. Kapítuli.

### Vitran Jósephs um leyndar-dóm gétnadarins Krísti. Matth. 1.

En Jesú Kristí Fæding géck til á þennann hátt: Nær ed María hans módir var trúlofud Jóseph, ádur enn þau komu saman, fannst hún ólétt af heilögum Anda. En Jóseph madur hennar var réttvís og vildi því eigi ófrægja hana, en þeinkti þó leynilega ad skilja vid hana. En sem hann hugsadi þetta, siá! þá vitradist honum Engill Drottins í draumi og sagdi: Jóseph sonur Davíds! þú skalt eigi óttast ad taka Maríam þína qvinnu til þín, þvíad hvad med henni fædt er, þad er af heilögum Anda, og hún mun Son fæda, og hans nafn skaltu Jesús kalla, þvíad hann mun frelsa sitt fólk af þeirra syndum. En allt þetta skédi, svo ad uppfylltist hvad sagt er af Drottni fyrir Spámanninn, er seigir: sjáid! ein mey mun þúngud verda og Son fæda, og hans nafn skal kallast Emanúel, hvad ed þýdist, Gud med osß. En þá Jóseph vaknadi af svefni, gjordi hann svo sem Engill Drottins hafdi honum bodid, og tók sína ektakonu til sín, og kéndi hennar eigi, þar til hún fæddi Son sinn frumgétinn, og kalladi hans nafn Jesús.

## 7. Kapítuli.

### Um fæding og umskurn Kristi. Lúk. 2.

Og þad bar til í þann tíma, ad þad bod géck út frá Keisaranum Augústó, þad heimurinn allur skyldi skattskrifast. Og þessi skattskrift var hin

allra fyrsta, og skéði í þann tíma, þá Cýreníus var Landstjórnari í Sýría. Og allir fóru að láta skrifa sig niður til skatts, hver til sinnar borgar. Þá fór Jósef af Galilea úr borginni Nazareth, upp í Júdeam til Davíðs borgar, sú er kallast Bethlehem, af því að hann var af húsi og kyni Davíðs, að hann léti skattskrifa sig, með Maríu sinni trúlofaðri qvinnu, sem var ólétt.

Og er þau voru þar, þá kom tíminn að hún skyldi fæða. Og hún fæddi sinn frumgétinn Son, og vafði hann í reifum, og lagði hann niður í jötuna, því að þau höfðu ekkért rúm í Gésta-herberginu. Og fjárhirðarar voru þar í sama byggðarlagi um grandana vakandi, sem vöktuðu hjörð sína um nóttina. Og sjá! að Eingill Drottins kom til þeirra, og Drottins byrta ljómaði í kríngum þá, og þeir urðu nærsta mjög óttaslegnir. Og Engillinn sagði til þeirra: hræðist ekki; sjáið! eg boða yður mikinn fögnuð, þann er ské skal öllu fólki. Því að í dag er yður Frelsarinn fæddur, sá að er Kristur Drottinn í borg Davíðs. Og hafið það til merkis, þér munuð finna barnið reifum vafið, og lagt í jötuna. Og jafnskjótt þá var þar hjá Einglinum margfjöldi himneskra hersveita, sem lofuðu Guð og sögðu: dýrð sé Guði í upphæðum, og friður á jörðu, og mönnum góður vilji!

Og þá er Einglarnir fóru frá þeim til himins, töluðu hyrðararnir hver við annann, gaungum vær til Bethlehem, og sjáum það verk er þar er skéð, sem Drottinn hefur opinberað oss. Og þeir komu með skunda, og fundu bæði Maríam og Jósef, og þar að auk barnið liggja í jötunni, en þá þeir

høfdu þad sjed, vidfrægdu þeir þad ord út, sem til þeirra var sagt af þessu barni. Og allir þeir er þad heyrdu, undrudust af þeim ordum, sem þeim var sagt af hyrdurunum. En María vardveitti øll þessi ord og ysirvo þau í sínu hjarta. Og fjárhyrdararnir snéru aptur, dýrkandi og lofandi Gud, fyrir allt þad, hvad þeir høfdu heyrt og sjed, eptir því sem þad var sagt til þeirra.

Og þá átta dagar vóru lidnir, ad barnid skyldi umskérast, var hans nafn kallad Jesús, hvad er kallad var af Englinum, ádur enn hann var géttinn í módur = qvidi.

## 8. Kapítuli.

### Um Vitríngana af Austurvegi, Matth. 2.

Nú er Jesús var fæddur í Bethlehem á Gydínga-landi, í tíd Heródis Kóngs, sjá! þá komu Vitríngar af Austurlandi til Jerúsalem og sögdu: hvar er sá nýfæddi Kóngingur Gydínga? Vér høfum sjed hans stjørnu í Austurlandi, og erum komnir ad tilbidja hann.

En er Heródes heyrdi þad, skélfdist hann og øll Jerúsalem med honum, og lét samansafna øllum Kénnimannahøfdíngum og Skiftlærdum lýdsins, og spurdist fyrir af þeim, hvar Kristur skyldi fædast. En þeir sögdu honum til Bethlehem í Júdea, þvíad svo er skrifad fyrir Spámanninn: Og þú Bethlehem á Júdalandi, ert enganveiginn hin minnsta á medal høfdíngja Júda, þvíad af þér mun koma Hertugi, sá er Herra skal vera yfir mitt fólk Jsrael. Þá kalladi Heródes Vitríngana til sín heimuglega

og innilega adspurdi þá, á hvørjum tíma að stjarnan hefdi látid sjá sig, og vísadi þeim til Betlehem og sagdi: fatid þér og spyrjid innilega að barninu, og nær þér fimid það, þá kunngjørid mér það aptur, svo eg komi einninn ad tilbidja það.

Sem þeir høfdu nú Konunginum heyrt, fóru þeir af stað, og sjá! að stjarnan sem þeir høfdu sjed í Austurlandi gékk frammi fyrir þeim allt þar til hún kom og stód þar uppyfir hvar barnid var. En er þeir sáu stjørnuna, glødduft þeir harla mjøg, og gengu í húsid inn, og fundu þar barnid með María módur sinni, féllu fram og tilbádu það, og að opnudum sínum fjársjódum, gáfu þeir því gull, reykelsi og myrru. Og Guð skipadi þeim í draumi, að þeir færi ei aptur til Heródem, og fóru svo annann veg aptur í sitt land.

## 9 Kapítuli.

### Um hreinsun Maríu. Lúk. 2.

Og þá dagar hennar hreinsunar komu eptir Móysis Løgum, høfdu þau hann til Jerúsalem, uppá það þau létu hann koma fyrir Drottinn, svo sem skrifað stendur í Løgmáli Drottins, að allt kallkyns, það er fyrst opnadi sínnar módurqvid, þá skyldi kallast Drottni helgad, og að þau gjæfi offrid, eptir því sem seigist í Løgmáli Drottins, tvær turtildúfur, edur tvær úngar dúfur.

Og sjá! að einn madur var í Jerúsalem, sá er Símeon hét, og þessi sami madur var réttlátur og gudhræddur, væntandi eptir huggun Ísraels, og heilagur Andi var með honum. Og hann

hafdi andsvar feingid af heilögum Anda, ad hann skyldi eigi daudann sjá, nema hann sæi ádur fyrri Krist Drottins. Og hann kom af Andans tilladan í Musterid. Og þá er foreldrarnir höfdu barnid Jesúm í Musterid, ad þau gjørdu fyrir honum eptir sidvenju Løgmálsins, þá tók hann Hann uppá sína armleggi, lofadi Gud og sagdi:

Nú láttu Drottinn þjón þinn, eptir ordum þínum í fridi fara. Þvíad mín augu hafa sjed þitt hjálpræd, þad þú tilreiddir fyrir øllum þjódum, ljós til uppbyrtíngar heidnum þjódum og til dýrdar þíns fólks Israels.

Og Jósepþ og hans módir undrudust þad hvad af honum sagdist, og Símeon blessadi þau og sagdi til Maríu hans módur, sjá! þessi mun setjast til falls og uppríssu margra í Israel, og til merkis hvørjum í móti mun mælast. Og eitt sverd mun þreingja sér í gégnum þína sál, svo ad augljósir verdi hugskots þánkar margra. Og þar var Anna spákona, dóttir Phamíels af kyni Asser, hún var komin til sinna ára, og hafdi lifad í sjø ár med sínum eignarmanni, eptir sinn meydóm. Og hún var einekkja, hafandi fjóra vetur um áttrædt, hvør ed eigi gékk úr Musterinu þjónandi Gudi nótt og dag med føstum og bænahaldi. Þessi gékk og samstundis þar ad, og prísadi Drottinn, og sagdi af honum til allra þeirra sem lausnarinnar vonudu til Jerúsalem. Og er þau høfdu allt fullkomnad eptir Løgmáli Drottins, snéru þau aptur í Galíleam, til borgar sinnar Nazareth.

10. Kap.

## 10. Kapítuli.

Um flótta Kristi í Egyptaland, og barnamord Heródis Kóngs. Matth. 2.

En þá þeir (austurvegs Vitríngarnir) voru í burt farnir, sjá! ad Eingill Drottins vitradist Jóseph í draumi, og sagdi: statt upp! og tak barnid og módur þess til þín, og flý til Egyptalands, og ver þar allt þángad til eg segi þér, þvíad þad er eptirkomandi, ad Heródes mun leita barnsins ad fyrirfara því. Og hann stód upp, tók barnid og módur þess til sín um nótt, og fór í Egyptaland, og var þar allt til dauda Heródis, svo þad uppfylltist hvad sagt er af Drottni fyrir Spámanninn, er segir: af Egyptalandi kalladi eg Son minn.

Þá Heródes sá nú, ad hann var gabbadur af Vitríngunum, vard hann æfareidur, og sendi út og lét drepa öll börn til Bethlehem, og í öllum hennar endimörkum, tvævetur og þadanaf yngri, eptir þeim tíma, sem hann hafdi spurt af Vitríngunum. Þá uppfylltist hvad sagt er fyrir Jeremíam Spámann, sem segir: í Rama hefur heyrst kall mikillrar qveinunar, óps og ylfranar, Rachel æpti born sín og vildi ei huggast láta, þvíad þad var útgjört um þau.

En þá Heródes var daudur, sjá! ad Engill Drottins birtist Jóseph í draumi á Egyptalandi, og sagdi: stattu upp! og tak barnid og módur þess til þín, og far til Israels jardar, þvíad þeir eru daudir sem leitudu eptir lífi barnsins. Hann stód upp, tók barnid og módur þess til sín, og kom í Israelsland.

En þá hann heyrdi, þad Archelaus ríkti í Júdea í stadinn fødur síns Heródis, óttadist hann þángad ad fara, og í draumi fékk hann bífalníng af Gudi, og fór í álfur Galílealands, og kom og bygdi í þeirri borg, sem hét Nazareth; svo ad uppfylltist hvad sagt er fyrir Spámennina, ad hann skyldi Nazareus kallast.

## 11. Kapítuli.

### Um úngdóm og uppvøxt Jesú Kristi, frá því hann var fimm ára til þrítugs alldurs. Lúc. 2.

Barnid Jesús vóx upp, og styrktist í Andá, fullur vísdóms og Guds nád var med honum.

Og hans foreldrar geingu árlega árs til Jerúsalem á Páska-hátídinni. Og þá hann var tólf ára gamall, fóru þau upp til Jerúsalem, eptir sidvenju hátídarinnar. Og er þeir dagar voru lidnir, og þau fóru heimleidis aptur, bleif barnid Jesús í Jerúsalem, og Jósoph og hans módir vissu þad eigi, og meintu þad hann væri hjá selskapnum, og þau voru komin eina dag-ferd; og leitudu hans á medal frænda og kunníngá. Og þá er þau fundu hann ei, gengu þau aptur til Jerúsalem, og leitudu ad honum. Og þad skédi svo eptir þrjá daga, ad þau fundu hann í Musterinu, sitjandi midt á millum Lærifedranna, heyrandi þeim og adspyrjandi þá. En allir þeir er honn heyrdu, undrudust yfir hans skilníngi og andsvørum. Og er þau sáu hann, brá þeim vid og, hans módir taladi til hans: Son

minn! því breittir þú svo við ockur? sjá þú! fadir þinn og eg leitudum harmþrúngin að þér. Og hann sagði til þeirra: hvað er það, að þið leitið að mér? vitið þið eigi að mér byrjar að vera í því sem míns Foðurs er? Og þau undirstóðu eigi það orð, sem hann mælti til þeirra. Og hann fór með þeim ofan og kom til Nazareth og var þeim undirgéfinn. Og hans móðir geymdi øll þessi orð í sínu hjarta. Og Jesú jókst aldur og vitska, og náð hjá Guði og mønnum.

## 12. Kapítuli.

### Um uppbyrjan og framfør prédikunar Jóhannis Skírara. Matth. 3. Marc. 1. Lúc .3.

Þetta er (b) upphaf Evangelíi um Jesúm Kristum Guðs Son, svo sem skrifað er hjá Spámønnunum: sjá! eg sendi minn Eingil fyrir þínu auglití, sá eð tilreiði þinn veg fyrir þér; það er eins hrópanda rødd í eiðimørku, greiði þér veg Drottins, og gjørið hans stígu rétta.

(a) Á fimtánda ári keysaradóms Tíberíí Keisara, þá eð Pontíus Pílatus var Landstjórnari í Júdea; en Heródes fjórdúngs høfdíngi í Galílea, og bróðir hans Philippus fjórdúngs høfdíngi í Iturea, og um Trachonítidis héröð; og Lisanías fjórdúngs høfdíngi til Abílene, þá þeir Annas og Caiphas vóru Høfuð-Prestar, skéði Guðs bífalníng til Jóhannem son Zacharíæ í eiðimørku; (c) og hann kom í allt bygðar-land hjá Jórdan, (b) prédikandi

ydranar=skírn, til syndanna fyrirgéfníngar. (a) og segandi: gjörid ydran, því himnaríki er nálægt.

(a) Þessi er sá, um hvern ad sagdi Esaías Spámadur, og (c) skrifad stendur í hans mála=bók, þar er eins prédikára rødd í eidimørku, tilbúid þér veg Drottins, og gjörid hans stigu rétta. (c) Allir dalir munu fyllast, og øll fjøll og hálsar munu lægjast, og þad bogjid er mun réttast, og hvad óslétt er mun snúast í rétta vega, og allt hold mun sjá Guds hjálpräd.

(a) En Jóhannes hafdi klædnad af Ulfbalds=hárum, og ólar=belti um sínar lendar, hans matur voru eingisprettur og skógar=hunáng.

(e) Þá géck út til hans stadurinn Jerúsalem, og allt Gydínga land, (a) og øll lønd hjá Jórdan, (c) og létu sig skíra af honum í ánni Jórdan, játandi sínar syndir.

(a) En þá hann sá nú marga Phariseos og Saduceos koma til sinnar skírnar, sagdi hann til þeirra, (c) og til fólksins, þess er útgéck ad skírast af honum: (f) þér nødru kyn! hver kénndi ydur ad flýja fyrir tilkomandi reidi? af því gjörid verduga ávøxtu ydranar, og (a) þeinkid ecki ad þér vildud seigja med sjálfum ydur: ad Abraham høfum vér fyrir Fødur; eg segi ydur: mektugur er Gud ad vekja Abraham børn af steinum þessum. Af því nú er øxin allareidu sett til rótar trjánna, þvi mun hvert þad tré, sem ecki gjørir gódann ávøxt, upphøggvast, og í eld kastast.

(c) Og fólkid spurdi hann ad og sagdi: hvad skulum vér þá gjøra? en hann svaradi og sagdi til þeirra: hver sem hefur tvo kirtla, hann géfi þeim er eing=

ann hefur, og sá er vistir hefur, gjöri hann slíkt hid sama. Tollheimtu-menn komu og til hans ad láta skíra sig, og sögdu til hans: Meistari! hvad skulum vér þá gjöra? en hann sagdi til þeirra: krefjid ei meira enn ydur er fyrirsett. Þá spurdu hann strídsmenn ad og sögdu: hvad skulum vér þá gjöra? hann sagdi til þeirra: kúgjid eingann né gjörid óréttt, og látid ydur nægja ydar kaupgjald.

En þá fólkid grunadi og allir þeinktu í sínum hjörtum, ef verda mætti þad Jóhannes væri Kristur, svaradi Jóhannes og sagdi til allra: (f) eg skíri ydur med vatni, til ydrunar, en sá sem eptir mig kémur, er sterkari, hvers skó eg em ei verdugur ad bera, né (b) frammfallandi (h) hans skó-þveingi ad uppleysa, (f) hann mun skíra ydur med heilögum Anda og eldi. Hvers vind-skufla er í hans hendi, og hann mun hreinsa sinn láfa, og hveitinu safna í sína kornhlödu, en agnirnar brenna í ósløckvanlegum eldi. (c) Og margt annad meira undirvísadi hann og bodadi fólkinu.

---



# Annar Partur,

Um þá adburdi er skédu á fyrsta ári prédikunar embættis vors Drottins Jesú Kristí.

## 1 Kapítuli.

Ættar-tala til Adams af módur-ætt Kristí. Lúc. 3.

Og Jesús hóf upp ad vera nær þriátigir ára, og var haldinn Sonur Jósephs,
Sá ed var Sonur Eli,
Sá ed var Sonur Mathath,
Sá ed var Sonur Levi,
Sá ed var Sonur Melchi,
Sá ed var Sonur Janna,
Sá ed var Sonur Jósephs,
Sá ed var Sonur Mathathias,
Sá ed var Sonur Amos,
Sá ed var Sonur Nahum,
Sá ed var Sonur Esi,
Sá ed var Sonur Nagge,
Sá ed var Sonur Maathz,
Sá ed var Sonur Mathathias,

Sá ed var Sonur Semei,
Sá ed var Sonur Jóseph,
Sá ed var Sonur Júda,
Sá ed var Sonur Jóhanna,
Sá ed var Sonur Resa,
Sá ed var Sonur Zóróbabel,
Sá ed var Sonur Salathiel,
Sá ed var Sonur Neri,
Sá ed var Sonur Melchi,
Sá ed var Sonur Addi,
Sá ed var Sonur Kósam,
Sá ed var Sonur Elmadam,
Sá ed var Sonur Her,
Sá ed var Sonur Jesse,
Sá ed var Sonur Eliezer,
Sá ed var Sonur Jórem,
Sá ed var Sonur Mattha,
Sá ed var Sonur Levi,
Sá ed var Sonur Simeon,
Sá ed var Sonur Júda,
Sá ed var Sonur Jósephs,
Sá ed var Sonur Jónam,
Sá ed var Sonur Eliachim,
Sá ed var Sonur Melea,
Sá ed var Sonur Menam,
Sá ed var Sonur Mathathan,
Sá ed var Sonur Nathan,
Sá ed var Sonur Davíds,
Sá ed var Sonur Jesse,
Sá ed var Sonur Obed,
Sá ed var Sonur Boos,
Sá ed var Sonur Salmon,

Sá ed var Sonur Nahasson,
Sá ed var Sonur Aminadab,
Sá ed var Sonur Aram,
Sá ed var Sonur Esrom,
Sá ed var Sonur Phares,
Sá ed var Sonur Júda,
Sá ed var Sonur Jacobs,
Sá ed var Sonur Isaachs,
Sá ed var Sonur Abrahams,
Sá ed var Sonur Thara,
Sá ed var Sonur Nachor,
Sá ed var Sonur Saruch,
Sá ed var Sonur Ragahu,
Sá ed var Sonur Phaleg,
Sá ed var Sonur Eber,
Sá ed var Sonur Sala,
Sá ed var Sonur Cainan,
Sá ed var Sonur Arphaxad,
Sá ed var Sonur Sem,
Sá ed var Sonur Nóe,
Sá ed var Sonur Lamech,
Sá ed var Sonur Mathúsalah,
Sá ed var Sonur Enoch,
Sá ed var Sonur Jared,
Sá ed var Sonur Maleleel,
Sá ed var Sonur Cainan,
Sá ed var Sonur Enos,
Sá ed var Sonur Seth,
Sá ed var Sonur Adams,
Sá ed var Guds.

# 2. Kapítuli.

Um skírn Jesú Kristi og freisting á eidimörkunni. Matth. 3. og 4. Marc. 1. Lúc. 3: og 4.

Og þad skédi (b) á þeim dögum, ad Jesús kom af Galílea frá Nazareth (a) ad Jórdan, til Jóhannem, ad hann skírdist af honum, en Jóhannes varnadi honum þess, og sagdi: mér er þörf ad eg skírist af þér, og þú kémur til mín? Jesús sagdi til hans: lát þú nú svo vera, þvíad svo hæfir oss allt réttlæti upp ad fylla, og þá lét hann þad eptir honum. (b) Og hann skírdist af Jóhanni í Jórdan. (a) En er Jesús var skírdur, sté hann jafnskjótt upp úr vatninu. (c) Og þad skédi þá ed Jesús var skírdur, og badst fyrir, ad himininn opnadist (a) yfir honum, (c) og heilagur Andi sté ofan, í líkamlegri mynd, sem dúfa; og ein rödd kom af himni, og sagdi: (b) þessi er Sonur minn elskulegur! ad hverjum mér velþóknast.

(c) En Jesús fullur af heilögum Anda, kom aptur frá Jórdan, og (b) þá strax (a) var hann leiddur af Anda á eydimörku, uppá þad, hann freistadur yrdi af Djöflinum, (a) þar var hann í fjörutígir daga í eidimörku. (b) Og freystadist af Sathan, (b) og var med villudýrum, (c) og neytti einkis á þeim dögum. Og ad þeim lidnum, (a) þá hann hafdi fastad fjörutígir daga og fjörutígir nátta, hingradi hann um sídir. Og Freistarinn gékk til hans, og sagdi: ef ad þú ert Sonur Guds, seig ad steinar þessir verdi ad braudum. En hann svaradi og sagdi: (f) skrifad stendur, madurinn lifir eigi af einu saman braudi, held-

ur af sérhverju ordi, sem framgengur af Guds munni.

(a) Pá tók Djøfullinn hann med sér í borgina helgu, (c) Jerúsalem, (f) og setti hann upp á bust Musterisins, og sagdi til hans: ef þú ert Guds Sonur, fleig þér hér ofan af, því ad skrifad er, hann mun bjóda sínum Einglum um þig, (c) ad þeir vardveiti þig, (f) og á høndum beri þeir þig, svo þú steitir ei fót þinn vid nockrum steini. Jesús svaradi og sagdi til hans: enn aptur stendur skrifad, eigi skaltú freista Drottins Guds þíns. Og enn aptur flutti Djøfullinn hann med sér uppá eitt ofurhátt fjall, og sýndi honum (e) á augabragdi øll ríki varaldarinnar, svo og þeirra dýrd, (f) og sagdi til hans: (c) allt þetta veldi og þess dýrd mun eg géfa þér, því ad þau eru mér í hendur fengin, og hverjum eg vil, honum géf eg þau. (f) Ef þú framfallandi tilbidur mig, skulu þau øll þín vera. Pá sagdi Jesús til hans: far burtu frá mér Satan! því skrifad er, Drottinn Gud þinn skaltú tilbidja, og honum einum þjóna. Og þá (e) ad endudum øllum þessum freistíngum (a) forlét Djøfullinn hann, (c) og veik frá honum um stundar sakir, (a) og sjá! ad Einglar komu, (c) og þjónudu honum.

## 3. Kapítuli.

### Tvennir vitnisburdir Jóhannis af Kristó, á medan hann dvaldist í eydimørkunni. Jóhannis 1.

Jóhannes vitnadi af honum, kalladi og sagdi, þessi var sá, um hvørn eg sagdi, ad eptir mig skyldi koma, sá sem fyrir mig var, þvíad hann var fyrr enn

eg, og af hans fyllíngu, høfum vær allir tekid nád fyrir nád. Þvíad løgmálid er fyrir Móysen útgéfid, en nád og sannleikur er fyrir Jesúm Kristum vordinn. Einginn hefur nockurn tíma Gud sjenann, sá eingétni Sonurinn sem í Fødursins skauti er, hann hefur oss þetta kunngjørt.

Og þetta er vitnisburdur Jóhannis, þá þeir Judar sendu af Jerúsalem Presta og Levíta, ad þeir skyldu spyrja hann, hvør ert þú? og hann kénndist, og neitadi eigi. Og hann kénndist eigi em eg Kristur. Þeir spurdu hann ad, hvad þá? ertu Elías? Hann sagdi: eigi em eg, ertu þá Spámadur? enn hann ansadi, nei. Þá søgdu þeir vid hann, hvad ertú þá? svo ad vér meigum andsvar géfa þeim er oss útsendu, hvad segir þú af sjálfum þér? hann sagdi: eg em eins predikara rødd í eydimørku, greidid þér vegu Drottins, svo sem sagdi Elías Spámadur. Og þeir sem útsendust, vóru af Phariseis, þeir ad spurdu hann og søgdu honum: því skírir þú þá, ef þú ert eigi Kristur, eigi Elías, og eigi Spámadur? Jóhannes svaradi þeim og sagdi: eg skíri med vatni, en hann er geinginn mitt á medal ydar, hvørn þér þeckid eigi. Hann er sá sem eptir mig mun koma, sá ed fyrir mig hefur verid, hvørs eg em ei verdur ad uppleysa skóþveingi. Þetta skédi í Bethabara hinumeiginn Jórdanar, þar Jóhannes skírdi.

## 4. Kapítuli.

Udrir tveir vitnisburdir Jóhannis, af Kristó, þegar hann var apturkominn úr eydimørkunni, til Jórdanar. Item um køllun Philippi. Jóhannis 1.

En annars dags þar eptir, sjer Jóhannes Jesúm komandi til sín, og mælti: sjáid! þar er þad Lamb-id Guds, hvert ed ber heimsins syndir. Sá er af hverjum eg sagdi ydur, eptir mig kémur madur, sá fyrir mig var, þvíad hann var fyrr enn eg, og eg þeckti hann eigi, heldur ad hann yrdi opinnber í Is-rael, fyrir því kom eg ad skíra med vatni. Og Jó-hannes vitnadi, og sagdi: eg sá Andann ofan stíga af himnum í dúfu líki, og hann stadnæmdist yfir honum, og eg þeckti hann ei; en sá mig sendi ad skíra med vatni, hann sagdi mér: yfir hvern þú sjer Andann nidur-stíga og yfir honum vera, hann er sá sem skírir med heiløgum Anda. Og eg sá þad, og vitnadi, ad sá er Guds Sonur.

En annars dags eptir, stód Jóhannes enn og tveir af hans Lærisveinum. Og sem hann leit Jesúm gánga, segir hann: sjáid! þad er Lamb Guds. Og þeir tveir Lærisveinar heyrdu hann tala, og fylgdu Jesú eptir. En Jesús snéri aptur, og leit þá sér fylg-jandi og sagdi þeim: ad hverjum leitid þér? þeir søgdu honum: Rabbí, (hvad ad þýdist Meistari) hvar áttú heima? hann sagdi þeim: komid og sjáid! þeir komu og sáu þad, og vóru hjá honum þann dag, en þad var nær tíundu stundu. Einn af þessum tveimur, sem heyrdi af Jóhanni, og Jesú eptirfylgdi, var Andreas bródir Símonar Petrí. Hann fann þá ádur sinn bródur Símon, og sagdi til hans: vér høfum fundid Messíam (hvad útleggst, Smurdur) og fylgdi honum til Jesú. Þá Jesús leit hann, mælti hann: þú ert Símon sonur Jónas, þú skalt kallast Cephas, þad útleggst Hellu-steinn.

Annars dags þar eptir, vildi Jesús ferdast til Galí-

leam, og finnur Philippum, og sagdi til hans: fylg þú mér eptir. En Philippus var af Bethsaida, úr þeirri borg Andresar og Peturs. Philippus fann Nathanael, og sagdi honum: vér høfum þann fundid, um hvern Móyses í Løgmálinu og Spámennirnir hafa skrifad: Jesúm Jóseph's son af Nazareth. Nathanael sagdi til hans: hvad má af Nazareth gott koma? Philippus sagdi honum: kom og sjá þad! Jesús sá Nathanael koma til sín, og sagdi af honum: sjáid einn sannann Ísraelíta! í hverjum engin svik eru. Nathanael sagdi vid hann: hvar af þekkir þú mig? Jesús svaradi og sagdi til hans: ádur enn Philippus kalladi á þig, þá þú varst undir fíkju-trénu sá eg þig. Nathanael svaradi og sagdi til hans: Rabbí, þú ert Guds Sonur. Þú ert Kóngur Ísraels. Jesús svaradi og sagdi vid hann: þú trúdir af því eg sagdi þér, ad eg hefdi sjed þig undir fíkju-trénu, þá muntú enn þessu meira. Og hann sagdi honum: sannlega, sannlega segi eg ydur: upp frá þessu munud þér sjá himininn opinn, og Eingla Guds stíga upp og ofan yfir Mannsins Son.

## 5. Kapítuli.

Um fyrsta krapta-verk Jesú Krísti sem hann gjørdi í Cana Galileæ, umsnúandi vatni í vín, hvad merkja er sked hafi á þridja degi eptir þad hann apturkominn var frá Jórdan í Galíleam. Jóhannes. 2.

Og á þridja degi, vard brúdkaup til Cana í Galílea, og þar var módir Jesú. En Jesús

var bodinn og hans Lærisveinar til brúdkaupsins. Og er þá þraut vínid, sagdi módir Jesú til hans, þeir hafa eigi vín. Jesús sagdi til hennar: þú kona! hvad hef eg med þig ad gjøra? mín stund er ei enn komin. Módir hans sagdi til þénaranna: hvad helst hann seigir ydur, þad gjørid. En þar vóru sex vatnskér af steini, sett eptir venju Gydínganna hreinsunar, og hvørt þeirra tók tvo eda þrjá mælira. Jesús taladi til þeirra: fyllid upp vatnskérin af vatni, og þeir fylltu þau allt á barma. Og hann sagdi þeim, ausid nú upp, og færid Kjæmeistaranum, og þeir færdu honum. En þá Kjæmeistarinn smackadi vínid, þad vatn hafdi verid, og vissi ecki hvadan þad kom, en þjónustumennirnir sem vatnid jusu vissu þad, þá kallar Kjæmeistarinn á brúdgumann og seigir honum: allir menn géfa í fyrstu þad góda vínid, og nær þeir gjørast ølvadir, þá þad hid léttara. En þú hefir geymt hid góda vínid allt til þessa. Þetta er hid fyrsta jardteikn þad Jesús gjørdi sem skédi í Cana í Galílea, og hann opinberadi sína dýrd, og hans Lærisveinar trúdu á hann.

## 6. Kapítuli.

Um þá fyrstu Páska sem Jesús hélt í Jerúsalem, eptir þad hann auglýstur var, og uppbyrjad hafdi sitt prédikunar embætti, og hvad þar gjørdist.
Jóhannes 2.

Þar eptir fór hann ofan til Capernaum, hann og módir hans, brædur hans og Lærisveinar, og

voru þar ecki leingi. Þá voru nálægir Páskar Gydínga.

Og Jesús fór upp til Jerúsalem, og fann í Musterinu sitjandi, þá sem høfdu til kaups, Naut, Saudi, Dúfur, og þá sem umskipti gjørdu á peníngum. Þá gjørdi hann sér svipu af streingjum, og rak þá alla út af Musterinu, med Nautum og Saudum, og hratt nidur peníngum og bordum þeirra er umskiptin gjørdu, og sagdi vid þá sem Dúfurnar seldu: beri þér þetta burt hédan, og gjørid eigi míns Födurs hús ad sølubúsi. Hans Lærisveinar hugsudu þá um, hvad skrifad er: vandlætíng húss þíns át mig. Þá ønsudu Judar og søgdu honum: hvørt teikn sýnir þú oss ad þú meigir þetta gjøra? Jesús svaradi og sagdi þeim: brjótid þetta Musteri, en eg vil á þridja deigi þad uppreisa. Þá søgdu Gydíngar: þetta Musteri er uppbyggt í sex og fjørutígi ár, en þú villt uppreisa þad á þremur døgum? En hann taladi um Musteri síns líkama. Og þá hann var af dauda upprisinn, hugleiddu hans Lærisveinar, ad hann hafdi þetta mælt, og trúdu Ritníngunni, og þeim ordum er Jesús hafdi talad.

En sem hann var í Jerúsalem, á Páska-hátídinni, þá trúdu margir á hans nafn, þá þeir sáu þau tákn er hann gjørdi. En Jesús trúdi þeim eigi til sín, af því hann þeckti þá alla, og þurfti ei vid ad nockur bæri af manninum vitni, þvíad hann sjálfur vissi hvad med manninum var.

7. Kap.

# 7. Kapítuli.

## Um samtal Krísti við Nicódemum.

### Jóhannes. 3.

Þar var einn mann meðal Pharíseanna, Nicódemus að nafni, hann var einn af Höfðíngjum Gyðínga. Hann kom til Jesú um nótt, og sagði til hans: Meistari! vér vitum að þú ert einn Lærifaðir af Guði kominn, þvíað einginn gétur gjört þau tákn, sem þú gjörir, nema Guð sé með honum. Jesús svaraði og sagði til hans: sannlega sannlega seigi eg þér: nema svo sé að nockur verði að nýu fæddur, hann kann eigi að sjá Guðs ríki. Þá sagði Nicódemus til hans: hvernin kann maðurinn að fæðast þá hann er gamall? eða fær hann stígið aptur í sinnar móður-qvið, og fæðst svo? Jesús svaraði: sannlega, sannlega segi eg þér, nema svo sé að nockur verdi fæddur af vatni og af Anda, þá gétur hann ei inngengið í Guðs ríki. Hvað af holdinu er fætt, það er hold, og hvað af Andanum er fætt, það er Andi. Undrast þú eigi, þó eg segi þér, að yður byrjaði að nýu að fæðast. Vindurinn blæs hvar hann vill, og þú heyrir hans þit, en ei veitstú hvaðan hann kémur, eða hvert hann fer; svo er hver sá sem af Andanum er fæddur. Nicódemus svaraði og sagði til hans: hvernin má slíkt ské? Jesús svaraði og sagði til hans: ertú Meistari í Israel og veitst ecki þetta? sannlega, sannlega segi eg þér, að vér segjum það vér vitum, og vitnum það vér séð hofum, og vort vitni meðtakið þér eigi. Og ef þér trúið eigi, þá eg segi yður af jarðneskum

hlutum, hvernin munuð þér trúa mega, ef eg feigi yður af himneskum hlutum? og eirginn mun fara til himna, nema sá sem ofan af himni híngað er kominn, sem er Mannsins Sonur, sá sem er á himni. Og svo sem Móyses upphafði Höggorminn í eyðimörku, líka byrjar Mannsins Syni að upphefjast. Að allir þeir á hann trúa fortapist eigi, heldur að þeir hafi eilíft líf.

Svo elskaði Guð heiminn, að hann gaf út sinn eingétinn Son til þess, að allir þeir sem á hann trúa, fyrirfarist eigi, heldur að þeir hafi eilíft líf. Því eigi sendi Guð sinn Son í heiminn, að hann dæmdi heiminn, heldur að heimurinn frelsist fyrir hann. Hver á hann trúir, dæmist eigi, en hver hann trúir eigi, hann er nú þegar dæmdur, þvíað hann trúði eigi á nafn eingétins Guðs Sonar. En þessi er dómurinn, ljósið kom í heiminn, og menn-irnir elskuðu meir myrkrið enn ljósið, því þeirra verk voru vond. Hverr illa gjörir, sá hatar ljósið, hann kémur og eigi til ljóssins, að eigi straffist hans verk. En hverr sannleikann gjörir, hann kémur til ljóssins, svo að hans gjörðir verði augljósar, þvíað þær eru í Guði gjörðar.

## 8. Kapítuli.

### Um það viðbar, eptir það Jesús fór frá Jerúsalem til Júdeam, og síðasti vitnisburður Jóhannis um hann.

Jóhannes. 3.

Eptir þetta kom Jesús og hans Lærisveinar til Gyðíngalands, og hafði sitt aðsetur þar hjá

þeim og skírdi. En Jóhannes skírdi og svo vid Enon nærri Salim, þvíad þar voru vøtn merg, þeir komu þángad og létu skíra sig. Þvíad Jóhannes var eigi þá innlátinn í myrkvastofu. En þá hófst ein spurníng af Lærisveinum Jóhannis vid Gydínga, um hreinsunina.

Og þeir komu til Jóhannem, og søgdu honum: Meistari! sá sem hjá þér var hinumeigin Jórdanar, af hvorjum þú barst vitni, sé! hann skírir, og hvør madur kémur til hans.

Jóhannes svaradi og sagdi: madur fær ei medtekid nockud, nema honum verdi þad af himnum gésid. Þér erud sjálsir mín vitni, þad eg sagdi, ad eg væri ei Kristur, heldur þad eg væri fyrir honum sendur. Hvør ed brúdina hefur, sá er brúdguminn, en vinur brúdgumans er sá, sem stendur og hlýdir honum, og gledur sig ysir brúdgumans rødd, sá sami minn føgnudur er nú uppfylltur. Honum ber ad vaxa, en mér ad minka. Sá sem ad ofan kémur, hann er ysir øllum: hvør hann er af jørdu, hann er af jørdu, og um jørdina talar hann. En sá sem kémur af himni, hann er ysir øllum. Og hvad hann sá og heyrdi, þad vitnar hann, og einginn tekur hans vitnisburd. En hvør hann medtekur, sá innsiglar þad ad Gud sé sannur. Því hann sem Gud sendir, sá talar Guds ord, þvíad eigi gésur Gud Anda af skamti. Fadirinn elskar Soninn, og allt gaf hann í hans hendur. Hver hann trúir á Soninn, sá hefur eilíft líf. En hver hann trúir ecki á Soninn hann mun eigi sjá lífid, heldur blífur Guds reidi ysir honum.

9. Kap.

## 9. Kapítuli.

### Um fángelsi Jóhannis Skírará.

Matth. 14. Mark. 6. Lúk. 3.

En (c) er Heródes Fjórdúngs-høfdíngi straffadist af Jóhanni fyrir Heródíadem bródurkonu sína, og fyrir allt annad íllt er Heródes gjørdi, þá lagdi hann þad ofan á þetta allt (b) ad hann sendi út ad grípa Jóhannem, (a) batt hann og setti í fángelsi, (c) fyrir sakir Heródías húsfrúr Philippí bródur síns, (b) því hann hafdi giptst henni. (c) En Jóhannes hafdi sagt til Heródem, ei er þad rétt ad þú hafir bródurkonu þína. (b) Því veitti Heródías honum umsát, og vildi láta aflífa hann, en gat þó eigi. Því Heródes óttadist Jóhannem, því hann vissi hann ad vera réttlátann og helgann mann, og vardveitti hann og hlýddi honum í mørgum greinum, og heyrdi honum gjarnan. (a) Og hann hefdi gjarnan aflífad hann, en óttadist fólkid, þvíad þad héldt hann fyrir einn Spámann.

## 10. Kapítuli.

### Um reisu Kristi frá Júdea í Galileam í gégnum Samariam, og hans samtal vid Samverska konuna.

Matth. 4. Jóh. 4.

En (a) er Jesús heyrdi, ad Jóhannes var gripinn (d) og hann fornam ad Pharísei høfdu heyrt, þad hann gjørdi fleiri Lærisveina enn Jóhannes, og skírdi (þótt Jesús skírdi ei sjálfur, heldur hans Lærisveinar) þá forlét hann Gydíngaland,

og fór aptur í Galíleam. En hann átti ad reisa um Samaríam.

Þá kom hann í eina Samverska borg, þá Sichar heitir, nærri því akurlendi, er Jacob gaf syni sínum Jóseph, og þar var brunnur Jacobs. Sem Jesús var nú ordinn vegmódur, þá sat hann á brunninum, þad var nærri um sjøtu stundu; þá kom ein kona út af Samaría vatn ad ausa. Jesús sagdi til hennar: géf þú mér ad drecka; því hans Lærisveinar voru gengnir inn í borgina, fædslu ad kaupa. Þá segir sú Samverska konan til hans: hvernin beidir þú mig dryckjar, þar þú ert einn Júdi, en eg em ein Samversk kona? því ad ecki hafa Júdar neina umgeingni med Samverskum mønnum. Jesús svaradi og sagdi til hennar: ef þú þecktir Guds gjøf, og (vissir) hver hann væri, sá þér segir: géf mér ad drecka, þá beiddir þú hann, og hann gæfi þér lifandi vatn. Þá sagdi konan til hans: Herra! þú hefur eigi þad sem þú gétur ausid med; en hátt er ofan í brunninn, eda hvadan hefur þú lifanda vatn? edur ertu meiri fødur vorum Jacob, sá ed gaf oss þennann brunn? hann drack af honum og børn hans, og hans fénadur. Jesús svaradi og sagdi henni: hver sem dreckur af þessu vatni, hann þyrstir aptur. En hver hann dreckur af því vatni sem eg mun géfa honum, hann skal ei þyrsta eilíflega, heldur þad vatn sem eg géf honum, mun verda í honum vatnsbrunnur sem flýtur til eilífs lífs. Konan sagdi til hans: Herra! géf mér þetta vatn, svo mig þyrsti ei, og ad eg skuli ei koma híngad til vatns-austrar. Jesús sagdi til hennar: far þú og kalla á mann þinn, og kom híngad. Konan svaradi og sagdi:

eigi hef eg mann, Jesús sagdi til hennar: þú segir rétt, eigi hef eg mann. Því ad þú hefur fimm menn haft, og þann þú hefur nú, er eigi þinn madur, þetta sagdir þú satt. Konan sagdi til hans: Herra! eg sje ad þú ert einn Spámadur. Fedur vorir hafa á þessu fjalli tilbedid, en þér segid: til Jerúsalem sé sá stadur, þar menn eigi ad tilbidja. Jesús sagdi henni: kona! trú mér, sú stund kémur, ad hverki á þessu fjalli, né til Jerúsalem, munud þér tilbidja Fødurinn. Þér tilbidjid þad þér vitid ei, en vér vitum hvad vér tilbidjum, þvíad heillin er af Júdum. En sá tími kémur, og er nú þegar, ad sannir tilbidjendur munu tilbidja Fødurinn í anda og sannleika, af því ad Fadirinn vill hafa þá, er hann svo tilbidja. Gud er Andi, og hverjir hann tilbidja, þeir skulu tilbidja hann í Anda og sannleika. Konan sagdi til hans: eg veit ad Messías kémur, sá sem Kristur kallast, og nær hann kémur þá mun hann undirvísa oss allt. Jesús sagdi henni: eg em hann, sá sem vid þig talar. Og í því bili komu hans Lærisveinar ad, og undrudust því hann taladi vid eina qvinnu. Þó sagdi enginn; ad hverju spyr þú, edur hvad mælir þú vid hana. En konan skildist þar vid sína krús, og géck inn í stadinn; og sagdi til fólksins: komid og sjáid einn mann! er mér sagdi allt þad eg hefi gjørt, hvert ad hann er eigi Kristur. Þá géingu þeir út af stadnum og komu til hans.

En þess á milli minntu hans Lærisveinar hann á og søgdu: Rabbí! neyt þú, en hann sagdi til þeirra: eg hefi þá fædu til ad neyta, af hverri þér vitid eigi. Þá søgdu Lærisveinarnir sín á milli: eda hefur

nockur fært honum ad etá? Jesús sagdi til þeirra: minn matur er sá ad eg gjöri hans vilja þess er mig hefur sendt, og fullkomni hans verk. Seigid þér eigi sjálfir, ad þad eru enn fjórir mánudir, þá kémur kornskéru tíminn? sje! eg segi ydur: lítid upp augum ydar, og sjáid akurlöndin, þad þau eru nú þegar hvít til kornskurdarins. Og hver sem uppvinnur, sá tekur laun, og safnar ávexti til eilífs lífs, svo ad þar gledji sig hver med ödrum, sá sem sáir, og sá sem uppvinnur. Þvísannast hér þad ordtak, ad annar sé sá sem sáir, en annar sá sem uppvinnur. Eg sendi ydur upp ad vinna, þad þér erfidudud ecki, adrir hafa erfidad, og þér erud komnir inn í þeirra erfidi.

Margir Samverskir menn af þeim sama stad trúdu á hann, fyrir konunnar ord, er svo vitnadi: hann sagdi mér allt hvad eg gjört hafdi. En þá hinir Samverska voru til hans komnir, bádu þeir hann, ad hann væri hjá þeim, og hann var þar tvo daga. Og miklu fleiri trúdu fyrir hans ord, og sögdu til konunnar: ei trúum vér nú framar fyrir þín ord, þvíad vér sjálfir heyrdum og vitum ad þessi er sannarlega Kristur, Lausnari heimsins.

## 11. Kapítuli.

### Um apturkomu Kristi í Galíleam, hvar hann læknadi son Konúngsmannsins.

Jóhannes. 4.

En tveimur dögum þar eptir fór hann þadan, og reisti til Galíleam. Þvíad Jesús vitnadi þad sjálfur, ad einn Spámadur er í eingu gyldi á sínu

egin føðurlandi; þá hann kom í Galíleam, meðtóku hann galíleiskir menn, sem sjeð höfðu allt það hann gjörði til Jerúsalem á hátíðinni, því þeir höfðu og komið til hátíðardagsins. Og Jesús kom aptur til Cana í Galílea, þar hann hafði gjört vatn að víni.

Og þar var einn konúnglegur maður, hvers sonur að lá sjúkur til Capernaum. Þessi heyrði, að Jesús var kominn af Gyðíngalandi, í Galíleam, og fór til hans, og bað hann að hann færi ofan og hjálpaði syni hans, því að hann væri dauðsjúkur. Og Jesús sagði til hans: þegar þér sjáið ekki teikn og stórmerki, þá trúið þér ei. Þá sagði sá konúnglegi maður til hans: Herrá! far ofan áður enn mitt barn andast. Jesús sagði honum: far þú! sonur þinn lifir, og maðurinn trúði því orði, er Jesús sagði honum, og gékk þaðan. En í því hann fór ofaneptir, mættu hans þénarar honum, og kunngjörðu honum segjandi: þitt barn lifir. Þá spurði hann upp þann tíma af þeim, á hverjum honum hefði batnað. Og þeir sögðu honum: í gjær um sjöundu stund, yfirgaf kaldan hann. Þá formerkti faðirinn að það var um þann tíma, á hverjum Jesús sagði honum: sonur þinn lifir. Og hann trúði, og allt hans hús. Þetta er nú það annað jarðteikn, er Jesús gjörði, þá hann kom af Gyðíngalandi til Galíleam.

# Þridji Partur,

Um þad vidbar á ødru ári prédikunar embættisins Herrans Kristí.

## 1. Kapituli.

Um upphaf opinberrar prédikunar Kristí í samkundu-húsum Galíleæ, og hvørninn hann færdi bústad sinn frá Nazareth til Capernaum.
Matth. 4. Marc. 1. Lúc. 4.

Eptir þad (d) Jóhannes var gripinn, (e) kom Jesús aptur í andákrapti (f) til Galíleam (h) og predikadi Evángelíum Guds ríkis (e) og riktid um hann géck út í alla kríngumliggjandi stadi. og hann kéndi í þeirra samkunduhúsum, og af hvørjum manni var hann prísadur.

Og hann kom til Nazareth, þar hann var uppalinn, og géck inn eptir vana sínum, á sabbaths deigi í samkunduhúsid, stód upp og vildi lesa. Þá var honum fengin bók Esaíæ Spámanns, og er hann fletti um bókinni, fann hann þann stad hvar skrifad var:

Andi Drottins er hjá mér, og af því smurdi hann mig, og sendi mig ad boda Evangelíum voludum

og að græða þau sundurknosuðu hjörtu. Að predika þeim herteknu, að þeir skulu verða lausir, og þeim blindu sýn, og þeim fanguðu að þeir skulu vera frí og lausir, og að predika þacknæmilegt ár Drottins.

Og þá hann lét saman bókina, fékk hann hana þénaranum, og setti sig, og allir þeir sem í samkunduhúsinu voru, horfðu á hann. En hann hóf að segja til þeirra: í dag er þessi ritníng uppfylld fyrir yðrum eyrum. Og allir gáfu vitnisburð af honum, og undruðust þau náðarsamlegu orð, sem geingu fram af hans munni, og sögðu: er þessi eigi sonur Jósephs? hann sagði til þeirra: þér munuð fullkomlega til mín segja þennann orðsqvið: læknir bjarga sjálfum þér, því hvað mikið höfum vér heyrt að gjört var til Capernaum, gjör þú og eins hér á þinni fósturjörðu. En hann sagði: sannlega segi eg yður, að eínginn Spámaður er þacknæmur á sinni fósturjörðu. En í sannleik segi eg yður, margar ekkjur vóru í tíð Elíæ, í Ísrael, þá himininn var lucktur í þrjú ár, og sex mánuði, þá eð gjörðist mikil dýrtíð um allt landið. Og til engra þeirra var Elías sendur, nema í Sarepta þeirra Sídona til einnrar ekkju. Og margir líkþráir vóru í Ísrael í tíð Elísei Spámans, og enginn þeirra varð hreinsaður, nema alleina Naaman af Syrja. Og allir fylltust þeir reiði sem í samkunduhúsinu vóru, er þeir heyrðu það, stóðu upp og hnepptu hann út af borginni, og leiddu hann allt uppá fjallsgnípuna, þar eð þeirra borg var ysübygð, að þeir hrindi honum þar affram. En hann gékk burt mitt á millum þeirra.

(a) Og Jesús forlét borgina Nazareth, kom og bjó í Capernaum, hvør eð liggur við sjáfarsíðu í

eydimørku Zabúlon og Nepthalim, svo þad uppfylltist hvad sagt er fyrir Esaíam Spámann, sem segir: landid Zabúlon og landid Nepthalim vid sjáfar gøtu hinumegin Jórdanar, og Galilea hin heidna, lýdur sá er sat í myrkrunum, hann sá ljós mikid, og þeir sem sátu í daudans stad og skugga, þeim er eitt ljós upprunnid. Þadan í frá tók Jesús ad predika (b) Evangelium Guds ríkis, (a) og seigja: (b) sá tími er nú uppfylltur og Guds ríki nálægist, (c) ydrist því, (b) og trúid Evangelió.

## 2. Kapítuli.

### Um þann furdanlega fiskidrátt, og køllun Péturs, Andresar Jacobs og Jóhannis.

Matth. 4. Marc: 1. Luc. 5.

En (c) er Jesús gékk med sjónum í Galilea, leit hann (a) tvo brædur Símon sá er kallast Petrus, og Andream bródur hans, hvørjir ad vóru ad varpa néti í sjóinn, þvíad þeir vóru fiskimenn.

(c) En þad skédi þá fólkid þreingdi fram til hans ad heyra Guds ord, og hann stód vid sjóinn Genezareth, ad hann sá tvø skip standa vid sjóinn, en fiskimennirnir vóru stignir af skipi og þvodu net sín. Þá sté hann á eitt skipid, sem Símonar var, og bad hann ad leggja lítid frá landi, og hann settist nidur og kénndi fólkinu af skipinu. Og sem hann gaf upp ad tala, sagdi hann til Símonar: far þú út á djúpid, og kastid neti ydar út, svo ad þér dragid einn drátt. Símon svaradi og sagdi til hans: Meistari! í alla nótt høfum vær ervidad, og feingum eckért, en uppá þitt ord vil eg netinu útkasta. Og þá þeir

høfdu þad gjørt, inniluktu þeir mikla mergd fiska, og þeirra net rifnadi. Og þeir bendtu sínum féløgum sem vóru á ødru skipi, þad þeir kjæmi og hjálpudu þeim ad draga, og þeir komu og hlódu bædi skipin full, svo þau suku ad mestu.

Þá Símon Petrus sá þad, féll hann til knjánna Jesú og sagdi: gack frá mér, Herra! því eg em madur syndugur. Af því ad felmtur var yfir hann komínn, og yfir þá alla sem med honum voru, af þeim fiskidrætti er þeir fengu til samans, líka yfir Jacobum og Jóhannem sonu Zebedeí, lagsmenn Símonar. Og Jesús sagdi til Símonar: óttast þú eigi, þvíad hédan af skaltú menn veida. Og þeir drógu sín skip ad landi. (o) Og Jesús sagdi til þeirra (Símonar og Andresar:) fylgid mér eptir, og eg vil gjøra ydur ad fiskurum manna, þeir forlétu jafnsnart sín net og (c) alla hluti, (l) og fylgdu honum eptir. (e) Og þá hann var skamt burt þadan genginn, sá hann (a) adra tvo brædur, (e) Jacob son Zebedeí, og Jóhannem bródur hans, og þeir voru á skipi (a) med fødur sínum Zebedeó, (e) ad bæta net sín, og (b) strax (e) kalladi hann þá, (a) en þeir forlétu strax skipid, (e) og fødur sinn (b) Zebedeum í skipinu, hjá leigulidunum, (e) og fylgdu honum eptir.

## 3. Kapítuli.

### Um útrekning óhreins anda í samkunduhúsinu í Capernaum, item um lækning módur-konu Peturs, og annara fleiri sjúkra, er ad qvoldi þess sama Sabb-

athø = dags læknadir voru.
Matth. 8. Marc. 1. Lúc. 4.

Þeir (b) geingu þá í Capernaum (c) borg í Galílea, (b) og. strax um Sabbaths=daginn gékk hann inn í samkundu húsid og kénndi, (h) og þeir undrudust hans kénníng, (b) þvíad hann kénndi þeim (c) sem af valdi myndugleika, (b) en eigi sem hinir skriptlærdu.

(h) Og einn madur var þar í þeirra samkundu=húsi, (b) haldinn af óhreinum (c) Djøfuls (b) anda, (h) sá kalladi (c) hárri røddu (h) og sagdi: hei, hvad høfum vær med þig ad gjøra Jesús af Nazareth? komstú ad glata oss? eg veit hver þú ert, sem er hinn heilagi Guds, Jesús straffadi hann og sagdi: þegi þú, og far út af honum, (c) og Djøfullinn fleygdi honum midt fram í millum þeirra, (b) og sá óhreini andi hreif hann og kalladi upp hárri røddu, (h) fór út af honum, (c) og grandadi honum eingu. (h) Og ótta sló yfir alla, svo þeir spurdu ad og toludu sín á milli, segjandi: (b) hvad er þetta? edur hver er þessi hin nýa kénníng? því af (h) valdi og myndugleika skipar hann óhreinum øndum, (b) og þeir hlýda honum, (c) og fara út. (b) Og hans rikti gékk strax út um Galileæ hérud, (c) og allstadar í því umliggjandi landi.

(c) Og hann stód upp af samkundunni, og kom í hús Símonar (b) og Andreæ, med Jacobó og Jóhanni, (h) en módir húsfreyu Símonar (b) lá þar krønk, (c) og var haldin af mikilli køldu, (b) og strax þá søgdu þeir honum til hennar, (c) og bádu hann fyrir henni, (b) hann gékk þá til hennar (c)

tók um hønd hennar (b) og reysti hana upp (c) hastadi á køldu-sóttina, (l) og kaldan forlét hana (b) strax (f) og hún stód upp (l) og þjónadi þeim.

(a) En um qvøldid (b) þá sólsett var, (c) fluttu allir þeir sem høfdu sjúka af allskyns sjúkdómi þá til hans, (a) og færdu marga djøful-óda til hans, og allr Stadurinn safnadist fyrir dyrunum, (c) en hann (a) rak andana út med ordi (b) og hjálpadi morgum sjúkum sem þjádir vóru af ýmsum sóttum (c) og lagdi hendur yfir sérhvørn þeirra. (a) Svo ad uppfylltist hvad sagt er fyrir Esajam Spámann, sem seigir: hann tók vorn veikleika uppá sig, og vora sjúkdóma bar hann. (c) Djøflar fóru og út af morgum, kallandi upp og søgdu: þú ert Kristur Sonur Guds, og hann hastadi á þá, og lét þá ecki mæla, þvíad þeir vissu þad hann var Kristur.

(b) Og ad morgni fyrir døgun stód hann upp, (h) géck út og fór burt í einn eydi-stad (b) og badst þar fyrir, en Símon og þeir med honum voru, skundudu eptir honum, og þá þeir fundu hann, søgdu þeir honum: hvør madur leitar ad þér; hann sagdi til þeirra: gaungum vær í þessar næstu borgir, svo eg prédiki og þar, því til þess kom eg. (c) Og fólkid leitadi ad hónum og kom til hans, og þeir héldu honum, ad hann færi ei frá þeim, hvørjum hann sagdi: mér byrjar og í ødrum borgum ad boda Evangelium út af Guds ríki; þvíad til þess er eg sendur.

4. Kap.

## 4. Kapítuli.

### Yfirferd Kristí um Galileam og lækning þess líkþráa manns.
Matth. 4. Mark. 1. Lúk. 4.

Og Jesús (a) fór í kríngum allt Galílea land, kénnandi í þeirra samkundu húsum, og prédikadi Evangelíum ríkisins, og læknadi oll sóttarferli, og oll kránkdæmi med fólkinu, (h) útrekandi djøfla, (a) og hans ricktí barst út um allt Sýrland, og þeir færdu honum alla þá, sem kránkir voru af margvíslegum sóttarferlum og píslum, og þá er djøful høfdu, túngla=mein eda icktsjúkir voru, og hann læknadi þá alla, og margt fólk fylgdi honum eptir úr Galílea, úr þeim tíu borgum frá Jerúsalem úr Júdea; og úr þeim hérudum er voru hinumegin Jórdanar.

(c) Pad skédi þá hann var í einnri borg, sjá! þar var madur fullur af spitelsku (b) er kom til hans (c) og er hann sá Jesúm féll hann fram á sína ásjónu, bad hann og sagdi: Drottinn! (h) ef þú vilt þá kanntú ad hreinsa mig, (b) en Jesús sá aumur á honum, (h) rétti út sína hønd, áhrærdi hann og sagdi til hans: eg vil vertú hreinn. (h) Og er hann sagdi svo: hvarf strax líkþráin af honum, og hann vard hreinn. Jesús hastadi á hann, lét hann strax frá sér og sagdi honum: (h) sjá þú! ad þú seigir þad eingum, heldur far þú og sýn þig Prestinum, og fórna fyrir þína hreinsun, (b) því, (h) sem Móyses baud til vitnisburdar fyrir þeim. (b) En þá hann kom út, hóf hann upp og kunngjørdi margt þar út af, og vídfrægdi

þessa' rædu, (c) og víktid um hann kom æ leingra út, (b) svo hann mátti ei sídan opinberlega inngánga í borgína, heldur var hann þar fyrir utan í eydistødum, og þár kom til hans úr øllum álfum (c) margt fólk, hønum ad heyra, og ad læknast fyrir hann, af sínum sóttum, en hann veik sér burt í eydimørk og badst fyrir.

## 5. Kapítuli.

### Um þann Icktsjúka manninn og køllun Matthei. Matth. 9. Mark. 2. Lúk. 5.

Og (b) nockrum døgum þar eptir géck hann aptur til Capernaum, og þad heyrdist, ad hann var í húsinu, strax søfnudust margir saman, svó þeir høfdu ecki rúm, og einninn fyrir utan dyrnar.

(c) Og þad bar til á einum deigi er hann kénndi og þar sátu Pharísei og Skriftlærdir, sem kómnir voru af øllum kauptúnum úr Galílea og Júdea og frá Jerúsalem, (b) og hann taladi ordid fyrir þeim. (c) Og kraptur Dróttins géck út frá hønum ad lækna þá. Og sjá! (b) ad nockrir kómu til hans, færandi einn icktsjúkann (c) mann á sæng, (b) hvør ed borinn var af fjórum, (c) og þeir leitudust vid ad koma hønum inn, og leggja hann fram fyrir hann, (b) og þá þeir gátu ei komist til hans fyrir fólkinu, (c) né fundid hvar þeir skyldu flytja hann inn, fóru þeir uppá húsid, (b) opnudu þekjuna upp yfir hønum, og grófu þar í gégn, létu svó sængina nidur síga sem hinn icktsjúki lá í, (c) og undu hann í gégnum þakid med sænginni midt á millum þeirra, fram fyrir Jesúm. (b) En er Jesús leit þeirra trú,

ſagdi hann til hins icktſiúka: (a) vertú hughrauſt-
ur (c) Sonur! (l) þínar ſyndir eru þér fyrirgéfnar.
(a) Og ſjá! (b) þar voru nockrir Skiftlærdir (c)
og Pharíſeí (b) er ſátu þar og hugſudu í ſínum
hjørtum, (a) og ſøgdu med ſjálfum ſér: þeſsi gud-
laſtar, (b) því talar þeſsi gudlaſtan? (b) hvør má
ſyndirnar fyrirgéfa nema Gud einn? (b) en Jeſús
fann ſtrax í ſínum Anda (a) og ſá þeirra hugrenníngar,
(b) ad þeir þeinktu ſvo med ſér, (c) ſvaradi og ſagdi
til þeirra: hvad hugſi þér? (b) því þeinki þér þetta
(a) íllt (l) í ydrum hjørtum? Því hvørt er aud-
veldara ad ſeigja (b) til hins icktſiúka, (l) þér eru
þínar ſyndir fyrirgéfnar? edá ad ſeigja, ſtatt upp
(b) tak ſæng þína (l) og gack? En ad þér vitid
ad Mannsins Sónur hefur vald til á jørdu ad fyr-
irgéfa ſyndirnar, þá ſagdi hann til hins icktſiúka:
(h) Ég ſeigi þér (l) ſtatt upp, tak þína ſæng og
gack heim. Og ſtrax ſtód hann upp (c) þeim á-
ſjáandi, (b) tók upp ſængina (c) þá er hann hafdi
áleigid, (b) géck út þadan í allra augſýn, (h) ſvo
ed allir óttuduſt, (l) og fór heim í ſitt hús (c)
lofandi Gud. Þá fólkid ſá þetta undradiſt
þad, (l) og príſadi Gud (a) þann er þvílíka makt
hefdi mønnunum géfid. (c) Og þeir fylltuſt af ótta
ſeigjandi: í dag høfum vér ſjed undarléga hluti, (b)
aldrei høfum vér ſlíkt ſjed.

(e) Eptir þad (a) géck Jeſús þadan, (b)
og út aptur ad ſjónum, og allt fólk kom til hans,
og hann kéndi því, en þá er Jeſús géck fram
hjá, (l) leit hann (e) einn Tollheimtumann er
Leví var ad nafni, (a) ſá er kallađ Mattheus (b)
ſon Alphei, (l) ſitjandi hjá Tollbúdinni og ſagdi

til hans: fylg þú mér eptir, (e) og hann forlét allt, (l) stód upp og fylgdi honum eptir.

## 6. Kapítuli.

Um þá adra Páska er innféllu á ødru ári prédikunar embættisins Herrans Kristí, Item um díkid Bethesda, og þann mann þar var læknadur af Jesú. Jóhannes 5.

Eptir þad var ein hátíd Gydínga, og Jesús fór upp til Jerúsalem. En í Jerúsalem hjá fjárhúsinum er eitt vatns-díki, sem kallast á ebresku Bethesda, hafandi fimm forbyrgi. Í þeim lá mikill fjøldi sjúkra manna, blindra, haltra, visnadra, bídandi eptir vatnsins hræríng. Því ad Eingillinn sté ofan í tilsettann tíma í díkid, og hrærdi upp vatnid; hver sem nú fyrstur sté þar ofan í, eptir vatnsins hræríng, sá vard heill, af hverri sótt sem hann var haldinn.

Þar var einn sá madur, sem þrjátígir og átta ár hafdi sjúkur legid. Þá Jesús leit þenna liggjandi, og fornam ad hann hafdi svo lengi legid, segir hann til hans; viltu heilbrygdur verda? hinn sjúki svaradi honum: Herra! eg hefi ei neinn mann þá vatnid hrærist ad láti mig í díkid, því nær eg kém ad, þá stígur annar fyrri inn enn eg. Jesús sagdi til hans: rís upp, tak sæng þína, og gack burt. Og strax vard sá madur heilbrygdur, og tók sína sæng og géck þadan, en sá sami dagur var Sabbaths-dagur. Þá søgdu Gydíngar honum, sem heilbrygdur var ordinn: þad er í dag Sabbaths-dagur,

eigi hæfir þér ad bera sængina, hann svaradi þeim: sá mig heilann gjørdi, hann sagdi mér: tak sæng þína og gack burt. Þá spurdu þeir hann ad: hver er sá madur er þér sagdi: tak sæng þína og gack? en sá sem heilbrygdur var ordinn, vissi eigi hvør hann var, þvíad Jesús hafdi vikid í burt frá fólkinu sem þar var í þeim stad. Eptir þad hitti Jesús hann í Musterinu, og sagdi til hans: sjé, nú ertú heill ordinn, syndga nú ei framar meir, svó ad þig hendi eigi eitthvad verra. Sá madur fór og undirvísadi Gydíngum, ad þad væri Jesús, sem hann hefdi gjørt heilann.

## 7. Kapituli.

### Um þá merkilegu prédikun sem Kristur framsetti á Páskunum, þegar Gydíngar þrættudu um þad hann læknadi á þvottdeigi. Jóhannes 5.

Þar fyrir ofsóktu gydíngar Jesúm, og leitudust vid ad deyda hann, af því ad hann gjørdi þetta á Sabbaths-degi. Jesús svaradi þeim: Fadir minn verkar allt híngad til; eg verka og. En fyrir þetta sóktu Gydíngar meir til ad deyda hann, þvíad hann braut eigi einasta Sabbathid, heldur sagdi og svó, ad Gud væri sinn Fadir, gjørandi sig sjálfann Gudi jafnann.

Jesús svaradi og sagdi til þeirra: sannlega, sannlega segi eg ydur, Sonurinn fær eckert af sjálfum sér gjørt, nema þad hann sjér Fodurinn gjøra, þvíad hvad helzt hann gjørir, þad gjørir og eins líka Sonurinn. Því Fadirinn elskar Són=

inn, og sýnir honum allt það hann gjörir, og enn mun hann sýna honum önnur verk meiri, svo þér munuð undrast: Því að svo sem Faðirinn uppvekur dauða, og lífgar, svo lífgar og Sonurinn þá sem hann vill. Því eigi dæmir Faðirinn nockurn, heldur gaf hann Syninum allann dóm, að allir heiðri Soninn, svo sem þeir heiðra Föðurinn. Hver hann heiðrar ei Soninn, sá heiðar ei Föðurinn, sem hann sendi. Sannlega, sannlega segi eg yður: hver mín orð heyrir og trúir þeim sem mig sendi, sá hefur eilíft líf, og ei kémur hann í dóm, heldur hefur hann þreyngst í gégnum frá dauðanum til lífsins. Sannlega, sannlega ségi eg yður: að sú stund kémur, og er nú alla reiðu, það dauðir munu heyra rödd Guðs Sonar; og þeir sem hana heyra munu lifa. Því að líka sem Faðirinn hefur lífið í sjálfum sér, svo gaf hann Syninum að hafa líf í sér sjálfum. Hann gaf honum og vald til að halda dóm, af því að hann er Mannsins Sonur. Eigi skulu þér undrast þetta, því að sú stund mun koma, á hverri það allir þeir sem í gröfunum eru, skulu heyra hans rödd. Og þeir munu þá framgánga sem gott gjörðu til lífsins upprisu, en þeir sem illa gjörðu, til dómsupprisu. Eigi kann eg af mér sjálfum að gjöra nockuð, eins og eg heyrði, svo dæmi eg, og minn dómur er réttur, því að eg leita eigi míns vilja, heldur Föðursins vilja, þess er mig sendi. Ef eg ber mér sjálfum vitni, þá er mitt vitni ecki satt. Þar er annar sem af mér ber vitni, og eg veit að hans vitni er satt, það hann ber af mér.

Þér senduð til Jóhannem, og hann bar af sannleikanum vitni, en eg tek eigi vitni af mönnum, held-

ur ſegi eg þetta uppá þad þér hjálpiſt. Hann var eitt logandi og ſkínandi ljós, en þér vilduð ſkamma ſtund gledjaſt af hans ljóſi. Eg hefi enn meira vitni enn Jóhannis vitni, þvíad þau verk ſem Fadirinn gaf mér, ad eg fullkomni þau ſömu verkin eg gjöri, bera mér vitni, þad Fadirinn hafi mig ſendt, og Fadirinn ſá ſem mig ſendi, hann ſjálfur bar mér vitni, eigi hafi þér nockurn tíma heyrt hans rödd, né ſjed hans mynd, og hans ord hafid þér ei í ydur búandi, þvíad þeim hann ſendi, trúid þér eigi. Ranſakid Ritníngarnar, þvíad þér meinid ydur í henni ad hafa eiliſt líf, og hún er ſú, hver af mér ber vitni. Og ei viljid þér koma til mín, ſvo ad þér hafid lífid. Eg tek einga dýrd af mönnum. En eg þecki ydur, ad þér hafid eigi Guds elſku í ydur. Eg kom í míns Födurs nafni, og þér medtakid mig eigi, ef annar kémur í ſínu egin nafni, þann medtakid þér. Hverninn megid þér trúa, þar ſem þér takid innbyrdis dýrd hver af ödrum? og þá dýrd ſem af ſjálfum Gudi er, hennar leitid þér eigi. Eigi ſkulud þér þad meina, ad eg muni klaga ydur fyrir Födurnum, þar er einn ſem ydur klagar, Móyſes á hvern þér vonid. Ef þér trydud Móyſi, ſvo trydud þér og mér, þvíad af mér ſkrifadi hann, en ef þér trúid eigi hans ſkrifi, hverninn megid þér þá mínum ordum trúa?

## 8. Kapítuli.

1. Um Læríſveinana, tínandi ſaman axin á þvottdegi. 2. Um þá víſnu hönd er Kriſtur læknadi, hvar af kom þrätt-

án um Þvott=daginn. 3. Um offókn Gydínga vid Krístum. Matth. 12. Marc. 2. og 3. Lúc. 6.

Og (h) þad skédi (a) í þann tíma, (c) á einum Eptir=Sabbaths degi, (l) ad Jesús géck yfir korn=sædis akur. (a) En hans Lærisveinar voru húngradir, (b) og tóku til í því þeir gengu (l) ad tína axin, (f) og ad eta, (c) núandi þau med höndum sér. (a) En sem Pharisei sáu þad, sögdu þeir til hans: sjá hvad þínir Lærisveinar gjöra á Sabbaths degi! (l) þad eigi sómir. Jesús svaradi og sagdi til þeirra: hafi þér eigi lesid hvad David gjördi: (b) þá hann þurfti vid (l) og hann húngradi, og þá er med honum voru, hverninn hánn inngéck í Guds hús,(b) í tíd Abíathars ypparsta Prests, (c) tók (l) og át skodunar braudin; (h) og gaf þeim sem med honum voru, (a) hver honum leifdist ei ad eta, né heldur þeim, (l) nema einum saman Prestunum? (a) eda hafi þér eigi lesid í Lögmálinu, hvörsu ad Prestarnir á Sabbaths dögum í Musterinu brjóta Sabbaths daginn, og eru þó án sakar? en eg segi ydur: ad sá er hér sem Musterinu er meiri. En ef þér vissud hvad þad væri, á miskun hefi eg þóknan, og eigi á offri, hefdu þér ecki saklausa fordæmt. (h) Og hann sagdi þeim: (b) Sabbaths dagurinn er fyrir mannsins sakir gjördur, en eigi madurinn fyrir Sabbaths dagsins sakir; (l) svo er Mannsins Sonur Herra einninn Sabbaths=dagsins.

(a) Og hann géck burt þadan leingra fram, og kom í þeirra samkundu=hús (b) aptur, (c) á ödrum Sabbaths=deigi og kénndi, (a) og sjá! (l) þar

var einn madur sem hin hægri hönd var á visnud; (e) en Skriftlærdir og Pharisei hugdu ad hvert hann læknadi hann á Sabbaths-degi, svó ad þeir finndi eina sök, hvar fyrir þeir mættu hann ákjæra, (a) og þeir spurdu hann ad og sögdu: er þad nockud rétt ad lækna á Sabbaths-dögum? (e) en hann formerkti þeirra hugsan, (h) og sagdi til mannsins, þess er höndina hafdi visnada: rís þú upp (e) og gack fram híngad, hann reis upp og géck fram. (h) En Jesús sagdi til þeirra: (e) eg spyr ydur ad: (h) hvert hæfir á Sabbaths-dögum ad gjöra gott edur íllt, lífinu vid ad halda, edur tortína? (b) en þeir þögdu. (a) Hann sagdi til þeirra: hvör er sá af ydur, sem hefur einn saud, og ef hann fellur á Sabbaths-dögum í gryfju, sem ecki grípi hann og uppdragi? hvad miklu er madurinn saudnum betri? fyrir því leisist á Sabbaths-dögum gott ad gjöra. (b) Hann leit þá til þeirra med reidi svip, og ángradist vid þeirra forherdtu hjörtu, (l) og sagdi til mannsins: réttu út þína hönd, (e) en hann gjördi þad, (e) og rétti hana út, (l) og hans hönd vard heil, (h) líka sem hin önnur. (e) En þeir urdu alsendis galdir, og töludu til hver vid annann, hvad þeir vildu gjöra til vid Jesúm. (e) En Pharíseí geingu út, (b) og héldu strax sín rád, med Heródis þénurum, (e) í móti honum, hverninn helst þeir feingi tortínt honum. (a) En er Jesús fornam þad, veik hann þadan (b) til sjáfarins med sínum Lærisveinum. (a) Og margt fólk fylgdi honum eptir (b) af Galílea og Júdea, og þeir sem voru af Jerúsalem og Jdúmea, og þeir hinumeiginn Jórdanar, og þeir

sem bjuggu kríngum Týrum og Sídónem, mikill mannfjøldi sem heyrdu hvad hann gjørdi, og komu til hans, og hann sagdi til sinna Lærisveina: ad þeir skyldu láta honum skip til reidu, fyrir fólksins(sakir, uppá þad þeir þreyngdu honum eigi, þvíad hann læknadi margann af þeim; en þeir trádust ad honum, allir þeir er plágadir voru, ad þeir mættu fá ad snerta hann, (a) og hann læknadi þá alla; (b) og nær óhreinir andar sáu hann, féllu þeir nidur fyrir honum, kolludu upp og søgdu: þú ert Guds Sonur, (c) en hann straffadi þá hardlega, og bannadi þeim, ad þeir gjørdu hann opinnskárann, (a) svo þad uppfylltist sem sagt er fyrir Esaíam Spámann, er svo seigir: sjáid! þad er minn þjón hvern eg útvaldi, og minn elskulegur, á hverjum sála mín hefur þócknan, yfir hann mun eg Anda minn leggja, og sá skal heidnum dóminn kunngjøra. Eigi mun hann kífa né kalla, og eigi mun nockur heyra hann kalla á strætum. Marinn reyr mun hann ei í sundur mylja, og rjúkandi hør eigi útsløckva, þar til hann útfærir dóminn til sigurs, og heidnir munu á hans nafn vona.

## 9. Kapítuli.

**Útvalníng þeirra tólf Postula, og sú lánga og lærdómsríka predikun, sem Herrann Kristur þar eptir framsetti á fjallinu.**

Matth. 5. Marc. 3. Lúc. 6.

En (e) þad gjørdist á þeim tíma þá Jesús sá fólkid, (e) géck hann uppá eitt fjall (e) ad

bidjast fyrir, og hann var um þá nótt á bænum til Guds og þá dagur var, (h) kalladi hann (b) til sín (c) sína Lærisveina (b) þá er hann vildi, og þeir komu til hans, og hann kjöri tólf af þeim, hvörja ad hann nefndi Postula, (b) og skickadi ad þeir tólf væri hjá honum, og ad hann sendi þá út ad predika, og ad þeir hefdu vald til sóttir ad lækna, og djöfla út ad reka, (c) Símon hvörn hann kalladi Petrum, og Andream bródur hans, (h) Jacob son Zebedei, og Jóhannem bródur Jacobs, þeim gaf hann nafnid Boanerges, hvad útþídist reidarþrumu børn, (c) Phlippum og Bartholomeum, Mattheum og Thomam, Jacobum son Alphei, og Símon (b) af Cana (c) sem kalladist Zelotes, (h) Judam Thaddeum Jakobs son, (c) og Judam Iscaríot, þann Svikara (b) er sveik hann. (c) Og hann fór ofan med þeim, og géck á einn sléttann fløt í mørkinni, og flockur hans lærisveina, og mikill fiøldi fólks af øllu Júda landi og Jerúsalem, og úr Tyró og Sídon, liggjandi vid hafid, hvørjir komnir vóru honum ad heyra, og ad þeir læknudust af sínum sóttum, og þeir sem hraktir vóru af óhreinum øndum, og þeir urdu heilbrygdir. Og allt fólkid girntist ad snerta hann, því ad kraptur géck út frá honum, og hann læknadi þá alla.

(a) En er hann sá fólkid, géck hann uppá fjallid, og setti sig nidur, og hans lærisveinar geingu til hans.

(c) Og hann hóf upp sín augu yfir Lærisveina sína (a) lauk upp sinn munn, kénndi þeim, og sagdi: (f) Sælir eru þeir sem eru (a) andlega (f) voladir, því ad þeirra er himnaríki. Sælir eru þeir sem (c) nú gráta (a) og harma, (f) því þeir munu (c) hlæja (a) og huggadir verda. Sælir eru hógværir, því ad þeir munu

jarðríkið erfa. (l) Sælir eru þeir sem húngra (a) og þyrsta eptir réttlætinu, (l) því þeir skulu saddir verða. (a) Sælir eru miskunsamir, þvíað þeir munu miskun hljóta. Sælir eru hreinhjartaðir, þvíað þeir munu Guð sjá. Sælir eru þeir sem friðinn gjöra, þvíað þeir munu Guðs börn kallaðir verða. Sælir eru þeir sem fyrir réttlætisins sakir ofsóktir verða, þvíað þeirra er himnaríki. (c) Sælir eruð þér ef menn-irnir hata yður, fráskilja yður, hallmæla (a) og for-smá yður (c) og burtskúfa yðar nafni, svo sem annars íllvirkja, vegna mannsins sonar, (a) og ofsókn veita fyrir mínar sakir, og tala í gégn yður alla vondsku, ef þeir það ljúga. (l) Gleðjið yður þá, (a) fagnið (c) og dansið, því sjá! (l) yðar verðkaup er mikið á himn-um, (c) þvíað þanninn gjörðu þeirra feður við spá-mennina, (a) og ofsóktu þá (hvörjir) fyrir yður vóru.

(c) En þar í mót, vei yður auðugum, því þér hafið yðar huggun í burtu, vei yður sem nú eruð saddir, þvíað yður mun húngra. Vei yður sem hlæið hér, þvíað þér munuð æpa og ýla. Vei yður nær eð hvör maður lofar yður, þvíað svo gjörðu þeirra feður við hina fölsku spámenn.

(a) Þér eruð salt jarðar nú ef saltið deyfist, í hvörju verður þá saltað? þá dugir það til einskis meir, nema að það verður útsnarað, og verður fóttroðið af mönnum. Þér eruð ljós veraldar, sú borg sem á fjallinu liggur, fær ei fólgist. Og eigi tendra menn ljósið, og setja það undir mæliask, heldur yfir ljósa-haldinu, svo að það lýsi öllum þeim sem í húsinu eru. Látið svo yðar ljós lýsa fyrir mönnum, svo opt að þeir sjái yðar góðverk, og dýrki föður yðar á himnum.

10. Kapí.

## 10. Kapítuli.

### Sama predikun Kristí á fjallinu, innihaldandi útleggíng logmálsins, edur tíu bodordanna. Matth. 5. Lúc. 6.

Þér skulud (a) ei meina ad eg sé kominn løgmálid edur Spámennina upp ad leysa, eg em ei kominn ad leysa, heldur upp ad fylla, þvíad eg seigi ydur fyrir sann, þángad til himin og jørd forgeingur, mun eigi hinn minnsti bókstafur edur titill af løgmálinu forgánga, þar til ad allt þad skédur.

Hvør sem nú uppleysir eitt af þessum minnstu bodordum, og kénnir þad lýdnum svo, sá mun kallast minnstur í himnaríki; en hvør þad gjørir og kénnir. hann mun mikill kallast í himnaríki.

Þvíad eg seigi ydur, nema svo sé ad ydvart réttlæti sé betra enn hinna Skriftlærdu og Pharíseara, þá munud þér eigi koma í himnaríki. Þér hafid heyrt ad sagt er til hinna gømlu, þú skalt eigi mann vega, en hvør ed mann vegur, hann verdur Dóms sekur. En eg seigi ydur, hvør hann er reidur bródur sínum, hann verdur dóms sekur. En hvør sem til bródur síns seigir, Racha, hann verdur ráds sekur. En hvør ed segir, þú Afglapi, hann verdur sekur Helvítis elds. Fyrir því nær þú offrar þína gáfu á altarid, og þér kémur þar til hugar þad bródur þinn hafi nockud á móti þér, þá láttú þar þína gáfu fyrir altarinu, og gack ádur ad sætta þig vid bródur þinn, og kom þá ad offra þína gáfu. Vertú snarlega samþyckur þínum mótstødumanni, á medan þú ert enn á veigi med honum, svo ad ei selji þig þinn mótstødumadur

Dómaranum, og Dómarinn selji þig þénaranum, og verdir þú í dýblissu kastadur. Ad sönnu seigi eg þér, ad þú munt ei þadan útfara, þar til þú borgar hinn sídasta pening.

Þér hafid heyrt ad sagt er til hinna gømlu, þú skalt ei hórdóm drýgja. En eg seigi ydur, ad hvør hann lítur konu til ad gyrnast hennar, sá hefur þegar drýgt hór med henni í sínu hjarta. En ef þitt hægra auga hneixlar þig, þá kipp því út, og kasta því frá þér, þvíad betra er þér ad einn þinna lima farist, og ecki kastist allur þinn líkhami í helvíti. Og ef þín hægri hønd hneixlar þig, þá sníd hana af og kasta frá þér, þvíad betra er þér ad einn þinna lima farist, enn allur líkami þinn kastist í helvíti. Svo er og sagt, ad hvør ed skilur sig vid sína eiginkonu, sá skuli gefa henni skilnadar skrá. En eg seigi ydur: hvør hann skilur sig vid sína eiginkonu (ad undanteknum hórunarsøk) sá gjørir þad, ad hún verdur hórdóms kona, og hvør ed fastnar þá sem frá manni er skilin, sá drýgir hór.

Þér hafid enn framar heyrt, ad þad er sagt til hinna gømlu, ad eigi skulir þú rángt sverja, og þú skalt Gudi þitt særi lúka. En eg seigi ydur: ad þér skulud øldúngis ecki sverja, hvørki vid himininn, þvíad hann er Guds sæti, eigi heldur vid jørdina, þvíad hún er skør hans fóta, eigi vid Jerúsalem, þvíad hún er borg hins mikla Konúngs. Þú skalt og eigi sverja vid høfud þitt, þvíad þú kannt ei ad gjøra eitt hár hvítt edur svart. En ydar ræda sé já, já, nei, nei, en hvad framm yfir þad er, þad er af hinu vonda.

Þér hafid heyrt ad þad er sagt, auga fyrir auga,

tønn fyrir tønn, en eg seigi ydur, ad þér skulud ei þrjótast í gégn íllu. Heldur ef nockur slær þig á þína hægri kinn, þá bjód honum hina adra, (c) og hvør hann tekur af þér þinn møttul, þá ver honum eigi þinn kyrtil. (a) Og vilji nockur vid þig løg þreita, og þinn kyrtil af þér hafa, þá lát honum og þinn møttul lausann. Og ef nockur neydir þig um mílu eina, þá gack med honum tvær. (f) Gef þeim er þig bidur, (a) og vert ei afundinn þeim er af þér vill lán taka, (c) og hvør hann tekur burt hvad þitt er, þad heimta ei aptur, og svo sem þér viljid ad menn gjøri vid ydur, gjørid svo líka vid þá.

(a) Þér hafid heyrt ad sagt er, elska skaltu náúnga þinn, og óvin þinn ad hatri hafa. (f) En eg seigi ydur, (c) sem á heyrid: (f) elskid þér óvin ydar, blessid þá er ydur bølva, gjørid þeim gott er ydur hata, og bidjid fyrir þeim er ydur lasta, (a) og offsókn veita, svo ad þér séud børn Fødurs ydar sem á himnum er, þvíad hann lætur sína sól uppgánga yfir vonda og yfir góda, og lætur rigna yfir réttláta og yfir ránglata, (f) því ef þér elskid, þá sem ydur elska, (c) hverja hafid þér þar fyrir þøck? (a) edur hvørt verdkaup hafi þér fyrir þad? Gjøra eigi þad sama Tollheimtumenn? (c) þvíad syndugir elska og svo þá sem þá elska. (a) Og þó þér látid kjært ad eins vid brædur ydar, hvad gjøri þér ad sérlegra? gjøra og eigi Tollheimtumenn hid sama? (c) og þó þér gjørid þeim gott er ydur gjøra vel til, hvada þøck hafid þér þar fyrir? þvíad þetta sama gjøra einneiginn hinir syndugu, og þó þér lánid þeim af hvørium þér væntid launa, hvør verdur þá ydar þøck? þvíad þeir syndugu lána og

svo syndugum, svo þeir taki líkt við líku. En þó sem áður elski þér yðar óvini, gjörið gott og lánið, einskis þar fyrir væntandi, þá mun yðar verðkaup mikið verða, og þér munuð verða börn hins hæsta, þvíað hann er góðfús við óþacklata og vonda.

Þar fyrir verið miskunsamir, líka sem yðar Faðir er miskunsamur, (a) verið algjörðir, svo sem yðar Faðir á himnum er algjörður.

## 11. Kapítuli.

Sama prédikun Kristí á fjallinu, hljóðandi, 1. Um ølmusugjörðir, 2. Um bæna á-kallið, 3. Um føstur, 4. Amóti á-gyrni og búksorg. Matth. 6.

Gjætið að yðar ølmusum, að eigi géfið þér þær fyrir mønnunum, svo að þér sjáist af þeim, annars, hafi þér eckért verðkaup hjá yðrum Føður sem á himnum er. Nær þú géfur ølmusu, þá skalltú eigi lúður þeita láta fyrir þér, svo sem hræsnarar gjøra í skólum og á strætum, svo að þeir heidrist af mønnum; sannlega segi eg yður, að þeir hafa sín laun úttekið. En nær þú géfur ølmusu, þá lát þína vinstri hønd eigi vita hvað hin hægri gjørir. Svo að þín ølmusa sé í leyni, og Faðir þinn sá í leynum sjer, mun gjalda þér opinberlega aptur.

Og nær þú biður, skaltu ei vera svo sem hræsnarar, hvørjum gjarnt er að standa og biðjast fyrir í skólum og á gatna-hornum, svo að þeir sjáist af mønnum; sannlega segi eg yður, að þeir hafa sín laun út-tekið, En nær þú biðst fyrir, þá gack inn í þitt svefn-hús, og lyk dyrunum aptur, og bið þú Føður

þinn í leynum, og Fadir þinn sá í leynum sjer, mun þér það opinberlega aptur gjalda. Og nær þér biðjið, skuluð þér eigi margmálugir vera, svo sem heiðingjar gjöra, því að þeir meina að af sinni margmælgi munu þeir heyrðir verða. Fyrir því skuluð þér eigi þeim líkjast, því að Fadir ydar veit hvörs þér hafið þörf, áður enn þér biðjið hann. Af því skuluð þér svo biðja:

Faðir vor! Þú, sem ert á himnum. Helgist þitt nafn. Tilkomi þitt ríki. Verði þinn vilji, svo á jörðu sem á himni. Gef þú oss í dag vort daglegt brauð. Og fyrirgef oss vorar skuldir, svo sem vér fyrirgefum vorum skuldunautum. Og innleið oss ecki í freistni. Heldur frelsa oss frá illu. Því að þitt er ríkið, og máttur og dýrð um aldir alda, Amen. Því að ef þér fyrirlátið mönnunum sinn brest, þá mun ydar himneskur Fadir og svo fyrirgefa ydur. En ef þér fyrirlátið eigi mönnunum sinn brest, þá mun ydar Fadir og eigi fyrirgefa ydur ydar brot.

Nær þér fastið, þá skuluð þér ei vera kámleitir svo sem hræsnarar, því að þeir afminda sína ásjónu, svo að þeir sýnist fyrir mönnunum að þeir fasti. Sannlega segi eg ydur, að þeir hafa úttekið sín laun. En nær þú fastar þá smyr höfuð þitt og þvo þitt andlit, svo að eigi skýni fyrir mönnunum það þú fastir, heldur fyrir Föður þínum sem er í leyni, og Fadir þinn sá er í leyni sjer, hann mun þér það opinberlega aptur gjalda.

Eigi skuluð þér ydur fjársjóðum safna á jörðu, hvar mölur og rið etur þá, og hvar þjófar meiga eptirgrafa og stela. Heldur safnið ydur fjársjóðum

á himni, hvar ed hverki má mølur né rið granda, og hvar þjófar fá ei stolið, né eptirgrafið. Þvíað hvar ed ydar sjódur er, þar er ydvart hjarta.

Augad er ljós líkamans, ef auga þitt er einfaldt, þá er allur líkami þinn skjær. En ef auga þitt er skálkur, þá er allur líkami þinn myrkur, því ef það ljós sem ad er í þér, er myrkur, hve mikil munu þá myrkurin sjálf.

Emginn kann tveimur herrum ad þjóna, annad hvørt þá afrækir hann þann eina, og elskar hinn annann, ellegar hann þíðist þann eina, og fyrirlítur hinn annann, þér getid ei Gudi þjónad og Mammon. Fyrir því segi ég ydur: verid ei hugsjúkir fyrir ydru lífi, hvad þér skulud eta og drecka, og ei fyrir ydrum líkama, hvørju þér skulud klædast. Er ei lífid meir enn fædan? og líkaminn meir enn klædin? sjáid fuglana undir himninum, þeir ed hvorki sá né uppskéra, og eigi safna þeir í korn-hlödu, og ydar himneskur Fadir hann fædir þá þó, erud þér ei miklu framar enn þeir? eda hvør ydar getur aukid med sinni áhyggju alin eina ad lengd sinni? og hvar fyrir erud þér hugsjúkir fyrir klædnadinum? hyggid ad akursins lilju-grösum, hvørnin þau vaxa, þau vinna hvorki né spinna. Eg segi ydur: þad Salómon í allri sinni dýrd, var ei svo skrýddur sem eitt af þeim. Nú ef Gud skrídir svo grasid á akri, þad í dag stendur, og á morgun verdur í ofn kastad, skyldi hann ei miklu framar þad vid ydur gjøra? ó þér lítiltrúadir. Fyrir því skulud þér ecki hugsjúkir vera og segja: hvad mun- um vér eta, eda hvad munum vér drecka, eda hvørju munum vér klædast? (eptir þessu ollu sækir heidin þjód) þvíad ydar himneskur Fadir veit þér þurfid alls

þessa vid. Leitid fyrst Guds ríkis, og hans réttlætis, og mun ydur allt þetta til-leggjast. Og fyrir því skulud þér ei ønn ala annars morguns, af því ad morgun-dagur mun qvída fyrir sjálfum sér berá; hvørjum deigi nægir sín þjáning.

## 12. Kapítuli.

### Predikun Kristí á fjallinu, á móti hleypidómum, fals-spámönnum og hræsnurum. Matth. 7. Luc. 6.

Eigi (f) skulud þér dæma svo ad þér verdid ei dæmdir, (a) því ad med hverjum dómi þér dæmid, munud þér dæmdir verda; (c) fordæmid eigi, svo ad þér fordæmist eigi, fyrirgéfid, þá mun ydur og fyrirgéfast, géfid og skal ydur géfast, fulla og sambryckta, skékna og yfirfljótanlega mæling munu menn géfa í ydvart skaut, (f) því ad rétt med þeirri sömu mælíngu hvørri þér mælid út, mun ydur aptur mælast.

Og hann sagdi þeim eina eptirlíking: fær blindur vísad veg einum blindum? falla þeir ei bádir í grøfina? eigi er Lærisveinninn yfir sínum Meistara, því nær Lærisveinninn er svo sem hans Meistari, þá er hann algjørdur. (f) En hvad sjer þú øgn í þíns bródurs auga, en ad þeim bjálka, sem er í sjálfs þíns auga, gáir þú ecki? eda hverninn máttu segja bródur þínum, bródur! leif ad ég drági ögnina úr auga þínu, er þú sjer ei sjálfur bjálkann í þínu auga? þú hræsnari! drag þú fyrst út bjálkann úr þínu auga, og sjá þá til: ad þú fáir útdreigid øgnina úr þíns bródur auga.

(a) Eigi skulud þér géfa hundum helgidóminn, og

varpid ei heldur perlum ydar fyrir svín, svo ad eigi trodi þau þær med fótum sér, og ad snúist þau vid, og ydur í sundur slíti. Bidjid og mun ydur gésast, leitid og munud þér finna, knúid á og mun fyrir ydur upplokid. Þvíad hver ed bidur, hann ødlast, hver ed leitar, hann finnur, og fyrir þeim er ákný́r, mun upplokid. Hver er sá madur á medal ydar, ef sonurinn bidur hann um braud, ad hann bjódi honum stein, ellegar ef hann bidur um fisk, ad hann bjódi honum høggorm. Nú ef þér sem þó erud vondir, kunnid ad géfa gódar gjafir børnum ydar, hvad miklu meir mun ydar Fadir sá á himnum er, géfa þeim gott er hann bidja.

Allt hvad þér viljid menninir gjøri ydur, þad skulud þér og þeim gjøra, þad er Løgmálid og Spámennirnir.

Gángid inn um hid þraunga port, því ad þad port er vídt og sá vegur er breidur sem leidir nidur til fortøpunar, og þeir eru margir, sem á honum reika. Og þad port er þraungt, og sá vegur er mjór, sem til lífsins leidir, og þeir eru fáir er hann rata. Vaktid ydur fyrir Fals-Spámønnum, sem til ydar koma í klædum saudanna, en innann til eru þeir glepsandi úlfar. Af ávortum þeirra meigi þér þá kénna, verda nockud vín-berin samanlesin af þyrnum, ellegar fíkjur af þystlum. Svó mun og hvert gott tré gjøra gódann ávørt, en hvørt vondt tré vondann ávørt.

(c) Því eckert gott tré ber fúinn ávørt, og eckert fúid tré ber gódann ávert, hvørt tré þeckist af sínum ávexti, því ei lesa menn saman fíkjur af þyrnunum, og ei heldur vínber af þystlum. (a) Gott tré géf-

ur ei fært vondaun ávøxt, og ei heldur gétur vondt tré fært gódann ávøxt. Hvørt þad tré sem ecki fær= ir gódann ávøxt mún upphøggid verda og í eld kast= ast. Fyrir því meigi þér af þeirra ávøxtum þeck= ja þá. (c) Gódur madur af gódum sjód síns hjarta framber gott, og íllur madur af vondum sjód síns hjarta framber íllt, þvíad þad sem hjartad er fullt af, þad flóir út af munninum.

Til hvørs kalli þér mig Herra! Herra! og gjør= id eigi þad eg seigi. (a) Þeir munu ei allir sem til mín seigja Herra! Herra! inngánga í Guds ríki, heldur þeir sem gjøra vilja míns Fødurs í himnin= ium. Margir munu til mín seigja á þeim deigi, Herra! Herra! høfum vér ei spád í þínu nafni, høfum vér eigi í þínu nafni djøfla útrekid, høfum vér ecki í þínu nafni mørg kraptaverk gjørt? og eg mun þá játa fyrir þeim, ad aldrei þeckta eg ydur, farid frá mér allir íllgjørda menn. (a) Fyrir því (c) hvør hann kémur til mín, (f) og heyrir þessi mín ord og gjørir þau, (c) þann mun eg sýna yd= ur, hvørjum hann er líkur; (a) honum líki eg vid einn vitrann mann (f) sem uppbyggdi hús sitt (c) og gróf djúpt og setti þess grundvøll á hellubjargi, (a) og er steipidøgg gjørdi og vatnsflódid kom og vind= ar bléstu, og dundu á húsinu, (c) mátti þad ei hræra úr stad, (a) og húsid féll ei ad heldur, (f) þvíad þad var grundvallad yfir helluna. (a) En hvør hann heyrir þessi mín ord (f) og gjørir þau eigi, hann er líkur þeim (a) fávísum manni, (f) sem byggdi hús sitt (a) á sandi, (c) á jørdu án grundvallar. (a) Þá nú steipidøgg gjørdi og vatnsflódid kom, og vindar bléstu og dundu á því húsi, (f) þá féll þad

(e) jafnsnart, (f) og hrapan þess hússs vard mikil. (a) Og það skédi þá Jesús hafdi lyktad þessa síra rædu, ad fólkid furdadi hans kénníng, þvíad hann prédikadi voldugléga, og eigi líka sém hinir skriftlærdu.

## 13. Kapítuli.

Um lækníng eins spitelsks manns, er skédi eptir endada þessa predikun. Item um lækníng þjóns Hundrads-hofdingjans í Capernaum, og uppvakníng sonar eckjunnar af Naim. Matth. 8. Lúc. 7.

En (c) þá hann hafdi lyktad sína rædu fyrir fólkinu, (a) géck hann ofan af fjallinu, og margt fólk fylgdi honum eptir. Og sjá! ad líkþrár madur kom, tilbad hann og sagdi: Herra! ef þú vilt þá kanntu vel ad hreinsa mig. Og Jesús útrétti sína hønd, snart hann og sagdi: eg vil, vertu hreinn, og jafnsnart vard hann af sinni líkþrá hreinn, og Jesús sagdi til hans: sjá til! seig það ei neinum, heldur far þú og sýn þig kénnimanninum, og offra þá gáfu, er Móísis baud, til vitnisburdar yfir þeim.

(c) Og Jesús géck til Capernaum, en þjón eins Hundrads-Høfdingja lá dandsjúkur, hvør ed honum var mjøg gédfeldur, og er hann heyrdi af Jesú, sendi hann þá ellstu af Gydíngum til hans; og bad hann ad koma, og gjøra sinn þjón heilbrygdann. En er þeir komu til Jesú, bádu þeir hann kostgjæfilega, og søgdu: verdur er hann þess, ad þú veitir honum það, þvíad hann elskar vora þjód, og hefur nppbyggt fyrir oss vort samkundu hús; þá géck Jesús med þeim þadan; og þá er hann var nú ei lángt frá

húsinu, sendi höfuðs-madurinn vini til hans, og lét seigja honum: ó Herra! þjá þig ei, þvíad eg em ei verdur ad þú gángir undir mitt þak. Þar fyrir hef eg og eigi reiknad sjálfann mig verdugann til þín ad koma. Heldur mæltu eitt ord, og verdur minn þjón heill.

(u) En þá Jesús gêck inn í Capernaum, kom höfuds-madurinn til hans, bidjandi hann og sagdi: þjón minn liggur heima, og er icktsjúkur og qvelst þúnglega. Jesús sagdi til hans; eg vil koma og lækna hann; höfuds madurinn svaradi og sagdi: Herra! eg em ei verdugur ad þú gángir undir mitt þak; heldur seig þú eitt ord, og mun minn þjón heilbrigdur verda; (f) því eg em madur yfirvaldinu undirgefinn, hafandi undir mér stríds-menn; og nær eg seigi þessum far, þá fer hann, og ödrum kom, þá kémur hann, og þjón mínum gjör þetta, og þá gjörir hann þad. Þá Jesús heyrdi þetta, undradist hann (e) yfir honum, snérist vid (f) og sagdi til fólksins er honum eptirfylgdi, (a) sannlega (f) seigi eg ydur: slíka trú hefi eg ei fundid í Israel. (a) En eg seigi ydur: ad margir munu koma af austri og vestri, og sitja til bords med Abraham, Isaach og Jacob í himna-ríki. En ríkisins börn munu verda útrekin í hin ytri mirkur, þar vera mun óp og tannagnístran. Og Jesús sagdi til höfuds-mannsins: gack hédan, verdi þér eptir því sem þú trúir. Og hans þjón vard heill á þeirri sömu stundu.

(e) En er þeir sem voru útsendir, komu aptur til húsins, fundu þeir þann þjón er sjúkur hafdi verid, heilbrygdann.

(e) Og þad skédi eptir þad, ad hann gêck í eina

borg sem hét Naim, og margir hans lærisveinar fylgdu honum og fjøldi fólks. En er hann nálægdist borgar-hlidid; sjá! þá var framlidinn madur borinn út, einka sonur sinnar módur; og hún var eckja. Og mikill borgar múgur géck út med henni. Og er Drottinn leit hana, hrærdist hann miskunar þar yfir, og sagdi til hennar: æptu ei. Og hann géck þar ad, og áhrærdi børurnar, en þeir ed báru stódu vid; og hann sagdi: úngmeni, eg seigi þér, rís upp. Og sá reisti sig upp er framlidinn var, og tók ad mæla, og hann gaf hann hans módur. En yfir alla þá kom ótti, lofudu Gud og søgdu: spámadur mikill er á medal vor upprisinn; og Gud hefur vitjad síns lýds. Og þessi saga barst út af honum um allt Júda-land; og um øll kríngumliggjandi lønd.

## 14. Kapítuli.

### Um sendifor Jóhannis úr myrkva-stofunni til Kristum, og svar Kristi þar uppá. Item loflegur vitnisburdur Kristi um Jóhannem. Matth. 11. Luc. 7.

Allt þetta (c) kunngjørdu Jóhanni hans lærisveinar. (a) En þá Jóhannis heyrdi í bøndunum verkinn Kristi, (c) kalladi hann tvo af sínum lærisveinum til sín, (f) og sendi þá út til Jesúm, og lét segja honum: ertu sá er koma skal eda eigum vér ad vænta nockurs annars? (c) en er þeir menn komu til hans, søgdu þeir: Jóhannes Skírari sendi ockur til þín, og lét seigja þér, ertu sá sem koma mun, edur eigum vær annars ad bída? en á þeirri sømu stundu læknadi hann marga af sóttum sínum og meinum, og af illum øndum,

og mørgum blindnm gaf han sýn. (f) Og Jésús svaradi og sagdi til þeirra: farid þid og kunngjørid Jóhanni hvad þér hafid sjed og heyrt, þad blindir sjá, haltir gánga, líkþráir hreinsast, daufir fá heyru, daudir uppríſa, fátækum bodast Evangelíum, og sæll er sá sem ei hneyrlast á mér.

(f) En er sendibodar Jóhannis vóru burt geingnir, hóf Jesús ad seigja fólkinu af Jóhanni, hvad fóru þér út í eydimørk ad sjá? eda vildud þér sjá reyr af vindi skékinn? eda hvad erud þér útgeingnir ad sjá? vildud þér sjá mann í mjúkum klædum? sjáid! (a) þeir ed mjúkann klædnad hafa (c) og í dýrmætum klædum og vellystíngum lifa (l) eru í kónganna húsum. Eda hvad erud þér útfarnir ad sjá? vildud þér sjá einn spámann? en eg seigi ydur þann er meiri er enn spámann, því ad hann er sá, af hvørjum skrifad er, sjá! eg sendi minn Eingil fyrir þínu augliti, sá ed tilreida skal þinn veg fyrir þér. (a) Sannlega seigi eg ydur, á medal allra þeirra sem af konu eru fæddir, (c) er. eínginn spámadur (a) uppkominn, sá meiri sé enn Jóhannes Skírari, (l) en sá minni er í himnaríki er honum meiri. (a) En í frá døgum Jóhannis, og allt til þess nú er komid, þolir himnaríki ofurefli, og þeir sem ofureflid gjøra, hremma þad til sín, því ad allir spámenn og løgmálid spádu til Jóhannem, og ef þér viljid þad medtaka, þá et hann Elías, sá er koma skal, hvør eyru hefur ad heyra, hann heyri. (c) Og allt þad fólk er tilheyrdi, og líka Tollheimtu-menn réttlætti Gud, og létu skíra sig med skírn Johannis, en Pharisei og løgspekíngar forsmádu Guds rád í móti sjálfum sér, sem létu eigi skírast af honum.

(c) En Drottinn sagdi: (l) vid hvad skal eg

jafna 'mønnum þessarar kinslódar? (c) hvørju eru þeir líkir? (f) børnum þeim eru þeir líkir sem sitja á torgi, og hrópa (a) til sinna stallbrædra (c) hvør til annara (f) seigjandi: vær høfum fyrir ydur í pípur blásid, og þér vildud eigi dansa, vær þuldum ydur vorar raunir, og þér vildud eigi gráta, þvíad Jóhannes Skírari kom, át eigi braud né drack vín, þó seigi þér, hann hefur djøful, Mannsins Son er kominn, etur og dreckur, og þér seigid: sjáid sá madur er einn etari og víndryckju madur, vinur Tollheimtumanna og bersyndugra, og spekin hlítur svo ad réttlætast, af (c) øllum (f) sínum børnum.

(a) Þá tók hann til ad ávíta þær borgir, í hvørjum gjørd voru flest hans kraptaverk, þad þær høfdu ei betrad sig. Vei þér Chorazin! Vei þér Bethsaida! þvíad ef í Týró og Sídon hefdi gjørst svoddan kraptaverk, sem hjá ydur hafa gjørst, hefdu þær fyrir laungu í seck og østu, ydran gjørt. En þó seigi eg ydur, ad Týró og Sídon mun bærilegra vera á deigi Dómsins, heldur enn ydur. Og þú Capernaum! sem allt til Himins ert upphafin, munt nidur þryckjast allt til Helvítis. Þvíad ef í Sódóma hefdu þau kraptaverk gjørst, sem hjá þér hafa gjørd verid, þá stædi hún enn í dag. En þó seigi eg ydur þad: ad bærilegra mun vera landi Sódóma á Dómsdeigi enn þér.

## 15. Kapítuli.

### Þackargjørd Kristí fyrir auglýsing Evangelii, hans huggunarsama tilbod, og aflausn þeirrar bersyndugu konunnar í

### húsi Símonis Pharíseara.

Matth. 11. Lúk. 7.

Á sama (a) tíma andsvaradi Jesús og sagdi: eg prísa þig Fadir og Herra himins og jardar, ad þú duldir þetta fyrir spekíngum og forvitríngum, og opinberadir þad úngbørnum. Ad sønnu Fadir, því ad svo var þad þægt fyrir þér. Allir hlutir eru mér í vald géfnir, af mínum Fødur, og enginn kénnir Soninn nema Fadirinn, og enginn kénnir Fødurinn nema Sonurinn, og hverjum ad Sonurinn vill þad opinbera.

Komid til mín allir þér sem erfidid, og þúnga erud hladnir, eg vil endurnæra ydur. Takid á ydur mitt ok, og lærid af mér, því eg em hógvær, og af hjarta lítilátur, og munud þér hvíld finna sálum ydrum. Þvíad mitt ok er sætt, og mín byrdi er létt.

(c) En einn af Pharíseis bad hann ad hann æti med honum, og hann géck inn í Pharísearans hús, og settist til bords. Og sjá! ad kona var sú í borginni, ad bersyndug var, og er hún vissi ad Jesús sat til bords í Pharísearans húsi, hafdi hún þángad alabastur med salve, og fór á baki til fóta hans, og grét, og tók ad væta hans fætur med tárum, og ad þurka þá med sínu høfud-hári, og kysti á hans fætur, og smurdi þá med salve. En þá sá Pharíseus sá þad, sem honum baud inn, mælti hann med sér og sagdi: ef ad þessi væri Spámadur, þá vissi hann hvør og hvílík væri sú kona er á honum tekur, þvíad hún er ein bersyndug kona. Jesús svaradi og sagdi til hans: Símon! eg hefi nockud ad seigja þér,

en hann sagdi: seig þú Meistari! Tveir skulda-menn voru nockurs okur-manns, einn var honum skyldugur fimm hundrud peninga, en annar fimmtýgir, og er þeir hofdu ei ad gjalda, gaf hann þeim þad upp bádum, seig nú: hver þeirra mun elska hann meir? Símon svaradi og sagdi: eg meina ad sá sem hann gaf meira upp, en hann sagdi til hans: þad úrskurdadir þú rétt. Og hann snéri sér til qvinnunnar, og sagdi til Símonar: sér þú þessa konu? eg géck inn í þitt hús, og þú gafst mér eigi vatn handa mínum fótum, en þessi vætti mína fætur med tárum, og þurkadi med sínu høfud-hári. Koss gafstú mér eingann, en þessi, sídan hún géck hér inn, hefur hún eigi lint ad kyssa mína fætur. Mitt høfud smurdir þú eigi vidsmjøri, en þessi smurdi mína fætur med salve. Fyrir þad seigi eg þér: ad henni fyrirgéfast margar syndir, því ad hún elskadi mikid, en þeim sem minna fyrirgéfst, hann elskar midur. Og hann sagdi til hennar: þér eru þínar syndir fyrirgéfnar. Þá tóku þeir til, sem vid bordid sátu hjá honum, og søgdu med sjalfum sér: hver er þessi, sá er fyrirgéfur syndirnar? en hann sagdi til konunnar: þín trú gjørdi þig hólpna, far í fridi.

## 16. Kapituli.

Um yfirferd Kristí í gégnum borgir og kauptún, og hans apturkomu til Capernaum í sitt hús, hvar hann útrak Djøful þann er blindur var og mállaus, item um þá rædu er þar út af reis.
Matth. 12. Mark. 3. Lúk. 8.

Og (c), þad skédi eptir þad hann ferdadist í gégnum borgir og kauptún, prédikandi og bodandi Evangelíum af Guds ríki, og þeir tólf med honum; og nockrar þær konur sem hann hafdi grædt af óhreinum øndum, og sóttarferlum, sem var María sú er hét Magdalena, frá hverri ad sjø djøflar høfdu útfarid, og Jóhanna húsfrú Chúsa forsjónar manns Heródis, og Súsanna, og margar adrar þær honum veittu af sínum eignum. (b) Og þá er þeir komu til herbergis, kom fólkid enn saman aptur, svo ad þeir gátu eigi matast fyrir því. (a) Þá var til hans hafdur djøfulódur madur, sá er blindur var og mállaus, og hann læknadi hann, svo ad hinn blindi og dumbi taladi og sá, og allt fólkid óttadist og sagdi: er þessi ei sonur Davíds? en er Pharíseí heyrdu þad, søgdu þeir: eigi rekur þessi Djøfla út ødruvís nema fyrir Belzebub djøfla Høfdíngja. (b) Og þá er þeir heyrdu þad, sem med honum voru, gengu þeir út og vildu hamla honum, því ad þeir søgdu ad hann mundi gánga af vitinu. En hinir Skriftlærdu sem ofan frá Jerúsalem voru farnir, søgdu: hann hefur Belzebub, og fyrir djøfla Høfdíngja, þá rekur hann djøfla út.

En (a) Jesús fornam þeirra hugsanir. (b) Og ad þeim samankølludum, sagdi hann í eptirlíkíngum til þeirra: hvørnin fær einn Satan annann útrekid? (c) hvert ríki sem í sjálfu sér er sundurþyckt, mun eydast, og hver sú borg, edur hús sem í sjálfu sér er sundurþyckt fær ei stadid. Ef einn Satan rekur annann út, þá er hann sundur-þyckur móti sjálfum sér, og fær hans ríki þá ei stadid, (b) heldur er þad útgjørt um hann. (a) Og ef eg útrek Djøfla

fyrir Belzebub, fyrir hvern verda þeir þá af ydrum börnum útreknir? af því verda þeir og ydrir dómendur. En ef eg útrek Djöfla med Guds Anda, þá er Guds ríki til ydar komid. (e) Edur hvörnin fær nockur inngengid í hins öfluga hús, og hans búshlutum í burt rænt, utan svo sé hann bindi áður hinn öfluga, og ræni sídan hans hús; (a) hver hann er eigi med mér, sá er á móti mér, og hver eigi med mér safnar, sá sundurdreifir. Fyrir því seigi eg ydur (b) sannlega: (c) ad allar syndir fyrirgéfast mannanna börnum, og einninn gudlastanir, þær þeir lasta Gud med, en sá er lastar heilagann Anda, hann hefur einga fyrirgéfníng; (a) og hver hann talar nockud í móti Mannsins Syni, honum mun fyrirgéfast, en hver ed talar nockud á móti heilögum Anda, honum mun hverki fyrirgéfast í þessum heimi né ödrum (b) ad eilífu, heldur verdur hann sekur eilífs dóms, því þeir sögdu: hann hefur óhreinann anda. (a) Annad hvert setjid gott tré, og mun ávöxturinn gódur, ellegar setjid vondt tré, og mun ávöxturinn vondur, þvíad af ávextinum þeckist tréd. Þér nödrukyn! hvernin meigid þér gott mæla, á medan þér erud vondir? þad sem hjartad er fullt af, þad flítur út af munninum. Gódur madur framflitur gott af gódum sjód síns hjarta, en vondur madur af vondum sjód síns hjarta, framflitur vondt. En eg seigi ydur: af hverju því fáfeingu ordi, sem menninir tala, munu þér reikníngskap gjöra á ytsta dómi. Af þínum ordum muntu réttlætast, og af þínum ordum muntu fordæmest.

Þá svorudu nockrir út af Skriftlærdum og Pharíseis og sögdu: Meistari! vér vildum teikn af

þér sjá. Hann svaradi, og sagdi til þeirra: þetta vonda og hórunarsama slekti leitar teikns, og því mun ei teikn géfast, nema teikn Jónæ Spámanns. Þvíad svo sem Jónas var í qvidi hvalsins, þrjá daga og þrjár nætur, svo mun Mannsins Son vera midt í jørdu, þrjá daga og þrjár nætur. Menn Niníve borgar munu upprísa á efsta dómi, med þessari kynslód, og munu hana fordæma, þvíad þeir gjørdu ydran eptir predikun Jónæ. Og sjá! hér er meiri enn Jónas. Drottníngin af Sudri mun upprísa á efsta dómi, med þessari kynslód, og mun hana fordæma, þvíad hún kom af endimørkum jardar, ad heyra speki Salómonis. Og sjá! hér er meiri enn Salómon. Nær óhreinn andi er farinn út af manninum, reikar hann um þurra stadi, leitandi hvíldar, og finnur eigi. Þá seigir hann: aptur vil eg snúa í mitt hús, þadan eg út fór, og nær hann kémur, finnur hann þad tómt, sópad og fágad, þá fer hann burt, og tekur sjø adra anda med sér, þeir ed verri eru enn sjálfur hann, og nær þeir eru inn komnir, byggja þeir þar, og verdur þá þess manns sídara verra því hinu fyrra. Svo mun og ské þessa vonda kynslód.

Sem hann var enn þetta ad tala til fólksins, sjá! (c) ad módir hans og brædur geingu fram ad, (a) stódu fyrir utan og vildu tala vid hann, (c) en kunnu ecki ad komast til hans fyrir fólkinu, (b) sendu (því) til hans kallandi á hann, og fólkid sat kríngum hann, (c) og honum var þad undirvísad, módir þín og brædur þínir standa þar (b) úti (b) spyrja ad þér (c) og vilja sjá þig (a) og tala vid þig. (c) En hann svaradi og sagdi til þeirra: (b)

hver er mín móðir, og hverjir eru mínir brædur? (b) þá leit hann um sig til Lærisveinanna er sátu í kríngum hann (a) og rétti út sína hønd yfir sína Lærisveina og sagdi: sjáid! þar er mín módir, og mínir brædur, þvíad hver hann gjørir vilja míns Fødurs sem á himnum er, (c) og þeir ed Guds ord heyra og gjøra, (h) eru mín módir, mín systir, og minn bródir.

## 17. Kapítuli.

Sú merkilega prédikun Kristí sem hann framsetti vid sjáfarsíduna af skipinu, hafandi inni ad halda eptirlíkingar.
1. Af sædinu sem féll í fernslags jørd. 2. Af því er sjálfkrafa óx.
3. Um illgresid. 4. Um mustards-kornid. 5. Um súrdeigid.
Matth. 13. Marc. 4. Lúc. 8.

A þeim (a) sama deigi, géck Jesús út af húsinu og setti sig nidur vid sjóinn. (c) En þá er margt fólk var samankomid, og þeir skundudu til hans úr stødunum, (b) tók hann enn aptur til ad kénna þeim vid sjóinn. (c) Þar safnadist saman margt fólk til hans, svo ad hann vard ad stíga á skip og sat (b) á sjónum, (c) og allt fólkid stód þar á landi vid sjóinn (a) í fjørunni, og hann taladi til þeirra, (b) og prédikadi leingi fyrir þeim í eptirlíkíngum, og í sinni prédikun þá sagdi hann til þeirra (c) í einni eptirlíkíngu. (b) Heyrid til:

(l) Einn sád-madur géck út ad sá (c) sínu sædi, (b) og þad vard (l) í því hann sádi, ad sumt féll

utan hjá veginum, (c) og vard fót=trodid (l) og þá komu fuglar himins og átu þad upp. En sumt féll í grítt akurlendi, (h) þar þad hafdi ecki mikla jørd, og rann fljótlega upp, því at þad hafdi engva jardardýpt, (c) og þá er sólin géck upp, skrældist þad (f) og visnadi, (c) af því þad hafdi ecki rót né vøkva. (l) Og sumt féll á medal þyrna, og þyrnin spruttu upp med og kjæfdu þad, (h) og þad færdi engvann ávøxt, (l) og sumt féll í góda jørd og færdi ávøxt, (h) uppvóx og frjófgadist, (c) og sumt færdi þrítugfaldann, og annad sextugfaldann, og sumt (l) hundradfaldann ávøxt. (c) Þá hann taladi þetta, kalladi hann og sagdi til þeirra: (l) hvør hann hefur eyru ad heyra, sá heyri.

(h) Og þá hann var einsamall, (a) geingu hans lærisveinar til hans og søgdu: fyrir því talar þú til þeirra í eptirlíkíngum? (h) og þeir sem hja honum voru med þeim tólf, spurdu hann ad þessari eptirlíkíngu, (c) hvør hún væri. (l) En hann (a) svaradi (l) og sagdi til þeirra:

Ydur er þad géfid ad vita leyndardóma himnaríkis, (c) en hinum (c) ødrum (h) sem þar eru fyrir utan (a) er þad eigi géfid, heldur (h) skér þad allt (h) í eptirlíkíngum, svo ad þeir sjáandi (h) sjái þad, (h) og skynji þó eigi, og heyrandi (h) heyri þad, (h) og undirstandi þó eigi. (h) Svo þeir snúist ecki, þad þeirra syndir eitt sinn mættu fyrirgéfast, (a) því hvør hann hefur, honum mun géfast svo hann nóg hafi, en sá sem ei hefur, af hønum mun og takast þad hann hefur. Fyrir því þá tala eg til þeirra í eptirlíkíngum, því ad med sjáandi augum sjá þeir eigi, og med heyrandi eyrum þá heyra þeir eigi, því ad

þeir skilja þad ei. Og á þeim mun uppfyllást spádómur Esajæ er seigir: med eyrunum munud þér heyra, og munud þér þad ei skilja, og med sjáandi augum munud þér sjá, og ei skynja, þvíad þessa fólks hjarta er forhardnad, og þeirra eyru eru þúngheyrd, og þeirra augu samanlykjast, svo ad þeir eigi einusinni med augunum sjá, og med eyrunum heyri, né med hjartanu skilji til ad leidrétta sig, svo ad eg hjálpi þeim.

En sæl eru ydar augu, þad þau sjá, og ydar eyru þad þau heyra. Sannarlega seigi eg ydur, ad margir spámenn og réttlátir, fístust ad sjá hvad þér sjáid, og hafa þad ecki sjed, og ad heyra hvad þér heyrid, og hafa þad eigi heyrt.

(b) Og hann sagdi til þeirra: kunni þér ecki ad skilja þessa eptirlíking? hvornin munud þér þá kunna ad skilja hinar allar? (a) af því heyrid eptirlíkinguna um sád-manninn, (c) því þetta er eptirlíkingin. (b) Sád-madurinn sáir ordinu, (c) sædid er Guds ord, (b) en þessir eru þeir sem utan hjá veiginum eru, hvar ordid verdur sád (c) sem heyra þad, (b) og þá þeir hafa heyrt þad, (b) kémur Djøfullinn (b) strax (c) eptirá (b) og nemur burt ordid, þad sád var í þeirra hjørtum, (e) svo þeir trúi eigi og verdi hólpnir, (a) (því) þá er nockur heyrir ordid ríkisins og undirstendur þad ei, kémur hinn vondi og hripsar burt hvad sád er í hans hjarta. (a) En þad sem í grýtta jørd féll (c) á hellunni eru þeir (c) sem medtaka ordid strax med fagnadi þá þeir heyra þad, en hafa engva ró í sér, (e) heldur halda þeir vid (c) og trúa (b) um stundarsakir, (e) en nær hrellíngar og ofsóknir hef-

jaſt fyrir orðſins ſakir, hneixlaſt þeir jafnſkjótt (c) og falla frá á freiſtíngar-tímanum. (l) En það ſem var ſáð og féll á meðal þyrna, eru þeir ſem heyra orðið (c) og velkjaſt í ſorgum, auðæfum og vel-lyſtíngum þeſsa heims, og (e) áhyggja þeſsarar verald-ar, og ſvikſemi ríkiðæmiſins, (h) og aðrar fleiri gyrndir inngángandi (l) kæfja orðið, ſvo það blífur án ávaxtar, (l) og þeir færa engvann ávöxt. (l) En það ſem í góða jörð féll, eru þeir ſem heyra orðið; (h) meðtaka það (c) og halda því í góðu ſiðſömu hjarta (a) undirſtanda það (l) og færa á-vöxt (c) í þolinmæði;, (c) ſumir þrítugfaldann, ſumir ſextugfaldann, ſumir hundraðfaldann. (h) Og hann ſagði til þeirra: qveikiſt nockuð ljóſið til þeſs að það ſetjiſt undir mæliaſk, borð eður beck? engvan-eiginn, (h) heldur ſetur hann það í kerta-haldinn (c) ſvo þeir ſem þar inngánga ſjái ljóſið; (h) því eckert er ſvo hulið, að eigi verði opinbert, og eckert ſvo leynt, að það eigi kunngjöriſt og komi í ljós, (h) hvör hann hefur eyru að heyra, ſá heyri. Og hann ſagði til þeirra: fyrir því gjætið að,(h) hvað (c) og hvernin (h) þér heyrið; (h) með þeim mælir er þér mælið út, þá mæliſt yður inn, og yður ſem þetta heyrið ſkal við aukaſt, (h) því að þeim er hefur honum mun gefaſt, og hvör helſt eckert hefur, frá honum mun burttakaſt, einnin það hann meinar ſig hafa.

☞ (h) Og hann ſagði: Guðs ríki er ſvo varið ſem þá maður kaſtar fræi í jörðina, og ſofnar, og hann ſtendur upp nótt og dag, en fræið grær og vex upp, ſvo að hann veit eigi, því að jörðin færir af ſér ſjálfri, í fyrſtu graſið, þar næſt axið, og ſvo

þar næst fullt hveiti í axinu, og er það hefur framleidt ávöxtinn, þá sendir hann strax kornsigðina því að kornskurðar tíminn er þá.

(a) Aðra eptirlíking lagði hann þeim fyrir og sagði: Himnaríki er líkt þeim manni, sá er sáði góðu sæði í akur sinn. En þá menn sváfu, kom hans óvinur og sáði illgresi í bland hveitisins, og fór í burt. En er sæðið spratt upp og bar ávöxt, þá auglýstist og illgresið. Þá geingu þénararnir til húsföðursins og sögðu: Herra! sáðir þú ei góðu sæði í akur þinn, hvaðan kémur hónum þá illgresið? hann sagði til þeirra; það hefur fjandmaðurinn gjört, þá sögðu þénararnir: viltu að vær förum og útlesum það? hann sagði nei, svo að þér uppræið ekki hveitið undir eins nær þér útlesið illgresið. Látið hvörutveggja vaxa ásamt til kornskurðar, og á kornskéru tíma skal eg segja til kornskurðar mannanna, lesið fyrst illgresið saman, og bindið það í bindini til brennslu, en hveitinu samansafnið í mína kornhlöðu.

(a) Aðra eptirlíking lagði hann fram fyrir þá (c) og sagði: (b) Hvörju skulum vér jafna Guðs ríki, eður við hvörjar eptirlíkingar viljum vér því samanlíkja? (a) Himnaríki er líkt (c) einu mústarðskorni það einn maður tók og sáði í akur sinn, hvað ed minnst er allra sáða (b) á jörðunni, þá því verður í jörð sáð, en þá því er sáð, vex það upp, (c) og er öllum kálgresum stærra, (a) verður eitt tré (b) og fær mikla kvistu (c) svo að fuglar himins koma og kunna að byggja undir þess (a) kvistum og (b) skugga. (a) Eina aðra eptirlíking talaði hann til þeirra: Líkt er himnaríki súrdeigi, það

ein kona tók og blandadi vid þriá mælira miøls, þar til þad sýrdist allt í gégn.

Þetta allt taladi Jésús í eptirlíkíngum til fólksins, (b) og í slíkum mørgum eptirlíkíngum kéndi hann þeim ordid, eptir því sem þeir þad heyrt gátu, (a) og fyrir utan eptirlíkíngar taladi hann ecki til þeirra, (b) en sérdeilis þá lagdi hann þad allt út fyrir sínum Lærisveinum, (a) svo ad uppfylltist þad sagt er fyrir Spámanninn, þann er seigir: minn munn vil ég uppljúka í eptirlíkíngum, og heimuglega hluti mun ég útmæla frá upphafi veraldar.

## 18. Kapítuli.

### Útlegging Eptirlíkíngarinnar um illgresid. Item adrar Eptirlíkíngar. 1. Um þann fólgna féfjód. 2. Um perluna. 3. Um netid. Matth. 13.

Þá lét Jesús fólkid frá sér fara, og kom heim, og hans Lærisveinar géingu til hans, og sögdu: útþýd þú oss þá eptirlíking, um illgresid á akrinum. Hann svaradi og sagdi til þeirra: hann sem sáir gódu sædi, er Mannsins sonur. En akurinn er heimurinn, góda sædid eru ríkisins børn, en illgresid eru børn þess vonda. Óvinurinn sá þeim sáci er Djøfullinn, en kornskéru tíminn er endíng veraldar, kornskurdar menniruir eru Englarnir, því líka sem nú verdur illgresid útlesid, og í eldi brendt, svo mun og ské í enda þessarar veraldar. Mannsins Son mun útsénda sína Engla, og þeir munu samansafna úr hans ríki øllum hneixlunum, og þeim er ránglindi gjøra. Og þeir munu kasta þeim í eldsins ofn, þar

mun vera grátur og tannagnístran. En þá munu réttlátir ljóma sem sól í ríki Föðurs þeirra. Hvør eyru hefur að heyra, sá heyri.

Enn aptur þá er himnaríki líkt einum fólgnum féssjóð á akri, hvørn eð maður fann og faldi hann, og af þeim fagnaði sem hann hafði yfir honum, géck hann burt, og seldi allt hvað hann hafði, og keypti þann sama akur.

Og enn aptur er himnaríki líkt þeim kaupmanni, er að góðum perlum leitaði. Og þá hann fann eina forkostuglega perlu, fór hann og seldi allt hvað hann hafði, og keypti þá sömu.

Og enn aptur er himnaríki líkt neti því sem í sjó var kastað, með hverju, af øllu fiskakyni dreigið verður; en nær það er fullt, draga þeir það í fjøruna, sitja síðan og samanlesa hina góðu í kérøld, en vondum kasta þeir út. Svo mun og ské í endaveraldar, að Einglar munu útfara, og hina vondu frá réttlátum skilja, og þeim munu þeir kasta í eldsins-ofn, hvar vera mun óp og tanna-gnístran. Og Jesús sagði til þeirra: hafið þér allt þetta undirstaðið? þeir søgðu: já Herra. Þá sagði hann: fyrir því hver sá Skriftlærður sem til himnaríkis mentaður er, hann líkist þeim hús-føður sem frambar af sínum fjársjóð nýtt og gamallt.

## 19. Kapítuli.

### Um reisuna Kristi í land þeirra Gadarenórum eður Gergesenórum, og hvað þar gjørðist. Matth. 13. og 8. Marc. 4. og 5. Lúc. 8.

Og (a) það skéði þá Jesús hafði endað þessar eptirlíkingar, að hann géck þaðan, (c) og sama

dags ad qvøldi þá sagdi hann til sinna Lærisveina: førum vér hér yfrum.

(a) Og er Jesús leit margt fólk í kríngum sig, baud hann þeim ad þeir færi yfirum hinumeigin sjáfarins, og einn Skriftlærdur gékk ad og sagdi til hans: Meistari! eg vil fylgja þér hvert þú fer, Jesús sagdi til hans: refar hafa holur, og fuglar loptsins hreidur, en Mannsins Son hefur eigi hvar hann sitt høfud ad hneigi. Og einn annar af hans Lærisveinum sagdi til hans: Lávardur! lofa mér fyrst ad fara og greftra fødur minn, Jesús sagdi til hans: fylg þú mér eptir, og lát þá daudu greptra sína daudu.

(b) Og þeir forlétu fólkid, e. en hann sté á skip, og hans Lærisveinar fylgdu honum. c. þá sagdi hann til þeirra: førum vær yfirum sjóinn, og þeir ýttu frá landi, b. þar voru og fleiri skip. e. En er þeir fóru yfirum, sofnadi hann, a. og sjá! mikill stormur gjørdist í sjónum, b. og hvirvilvindur, svo bylgjurnar féllu yfir þá og b. skipid, og þad fylltist upp, e. og þeir vóru staddir í størum voda, b. en hann sjálfur var í skutnum, og svaf á einum kodda. f. Lærisveinarnir géingu til hans og vøktu hann upp, seigjandi: e. Meistari! Meistari! vær forgaungum, b. hyrdir þú ecki um þad ad vér fortínumst? a. Herra, hjálpa þú oss! þá sagdi hann til þeirra: hvad hræddist þér svo, þér lítiltrúadir.

(l) Og hann reis upp, hastadi á vindinn og sjóinn, b. og sagdi til sjáfarins: þagna þú og vert hljódur, og vindinn lægdi, e. og vatns-bylgjurnar séfudust, l. og þar vard logn mikid, b. hann sagdi til þeirra: því erud þér svo hræddir, edur

hverju gégnir það að þér hafið einga trú? c. hvàt er ydar trú? b. og þeir óttuðust næsta mjøg, ä. og menniruir undruðust c. seigjandi sín á milli, b. hver við annann: a. hvílíkur maður er þessi; c. því hann býður vindi og vatni, l. og þau hlýða honum? h; og þeir sigldu og komu til bygðar Gadarénórum, hinumeigin sjáfarins, c: hver ed liggur jafngégnt Galilea. h. Og þá hann stè á land b. af skipinu, þá hljóp strax í móti honum úr grøfum framliðinna manna, einn besetinn maður af óhreinum anda, (sem var) c. úr borginni, og hafi hafði djøflla um lángann tíma, og klæddist eigi føtum, var og eigi í húsum, heldur b. hafði sitt hýbili í h; dauðra manna grøfum, b. og einginn fèck hann bundið og eigi með viðjum, því hann hafði opt bundinn verið með fjøtrum og viðjum, og hafði viðjurnar af sér slitið, og fjøturin í sundur brótið, og einginn fèck hann tamið, og allt jafnt nætur og dagá var hann á fjøllum, og í dauðra manna grøfum; kallandi og lemjandi sig með grjóti. h; En er hann leit Jesúm b. cleingðar, hljóp hann þángað, h; og fèll fram fyrir honum, kallaði upp hárri røddu og sagði: hvað hef eg með þig að gjøra Jesús Sonur Guðs hins hæðsta? c. eg beiði þig; b. og særi fyrir Guð, h. að þú qvelsir mig ecki, c. því hann bauð þeim óhreina anda að fara út af manninum; c. en hann hafði um lángann tíma hann qvalið; hann var og (sem áður er sagt) bundinn með viðjum, og í fjøtrum varðveittur, en að slitnum bøndunum var hann rekinn af Djøflinum, á eyðimørk. h. Jesús spurði hann að og sagði: hvert er nafn þitt? hann sagði: Legió er mitt heiti, því vær erum

margir, (c) þvíað margir djøflar voru í hann farnir, (h) og þeir báðu hann (h) mikilega að hann ræki þá ei burt úr þeirri bygð, (e) og eigi skipaði þeim að fara í undirdjúpin, (l) en þar var (a) lángt í burt frá þeim (h) hjá fjøllunum. (l) mikil svínahjørð (h) á beit, (h) og Djøflarnir báðu hann allir og søgðu: (a) ef þú rekur oss út, (l) þá leif oss að fara í svínin, og Jesús leifði þeim það (h) strax (a) og sagði: farið burt! (h) þá fóru þeir óhreinu andar (c) Djøflarnir út af manninum og hlupu í svíninu, (l) og svína-hjørðin fleigði sér með miklum þys í sjóinn (h) nær tveim þúsundum, (l) og drecktist í vatninu.

(c) En er þeir sáu það sem hjerðina geimdu hvað skéði, (h) flýðu þeir, geingu í burt (g) og kunngjørðu í borgina og uppá landið (a) allt þetta. Þá geingu þeir út að sjá hvað skéð hafði, og komu til Jesú, og (c) fundu manninn af hverjum djøflarnir høfðu út-farið (h) sitjandi klæddann og heilvita, (c) til fóta Jesú, (h) og þeir urðu hræddir;-en þeir sem það høfðu sjeð (h) søgðu þeim hvernin gjørt hafði verið við hann, sem af Djøflinum hafði setinn verið, (c) hvernin hann væri orðinn heilbrygður, (h) og svo frá svínunum. Og (c) állur múgur Gadarenórum umliggjandi landa, (l) báðu (c) að hann viki burt frá þeim, (h) og færi úr þeirra lands álfum, (c) því að þeir voru af miklum ótta haldnir. Hann sté þá á skip og snéri aptur, (h) og er hann sté á skip, tók sá til að biðja hann er af Djøflinum hafði setinn verið, (c) og af hverjum þeir høfðu út-farið, (h) að hann mætti vera hjá honum, (h) en Jesús lofaði honum það eigi, heldur

(h) lét hann frá sér (k) og sagdi: far heim aptur (h) í þitt hús, og til þinna, (k) og kunngjør þeim hvad mikinn velgjørníng Drottinn Gud hefur gjørt þér (a) og verid þér líknsamur, (k) og hann fór þadan, predikandi (e) um alla borgina (b) og þær tíu borgir, (h) hvad mikinn velgjørníng ad Jesús hefdi honum gjørt, (b) og hver madur undradist þad.

N. B. Matthæus skrifar ad þeir djøfulódu sem mættu Herranum Kristó í landi Gergesenes manna, hafi verid tveir og miøg ólmir, svo einginn hefdi mátt fara um þann veg. En hér af skal einginn ætla, ad Gudspjallamennirnir séu ei samhljóda: því þó ad Marcus og Lúcas géti alleinasta um einn djøfulódann, þá neita þeir ecki ad þeir hafi fleiri mátt vera í fyrstunni.

## 20. Kapituli.

Um apturkomu Kristi úr landi Gadarenorum, til Capernaum, og þad géstabod sem Mattheus gjørdi honum í sínu húsi, item um þá spurníng sem Lærisveinar Jóhannis og Pharisæorum settu þar framm, um føstuna.

Matth. 9. Marc. 2. Luc. 5.

Þá (a) sté hann á skip, og fór yfir um aptur, og kom í sína borg. (e) Og þad skédi svo, þá Jesús kom aptur, ad fólkid medtók hann, og Leví tilbjó mikid géstabod í sínu húsi. (e) Og þad gjørdist þá hann sat til bords í hans húsi, (l) ad margir Tollheimtumenn og bersyndugir, settu sig til bords med

Jesú og hans Lærisveinum, (b) því þeir voru margir sem fylgdu honum eptir. (l) Og er hinir skriftlærdu og Pharisei sáu það, (b) ad hann át með Tollurum og bersyndugum, (c) mögludu þeir við Hans Lærisveina og sögdu: (a) því etur (b) og dreckur (a) ydar Meistari með Tollheimturum og syndurum, (l) Þá Jesús heyrdi það, (e) svaradi hann (l) og sagdi til þeirra: heylbrygdir hafa ei læknarans þörf, heldur þeir sem sjúkir eru. (a) En farid þér burt, og nemid hvad það er, á miskun hefi eg þócknan og eigi á offri. (l) Eg er kominn ad kalla syndúga til ydrunar en ecki þá réttlátu. (b) En Jóhannis og Phariseanna Lærisveinar föstudu mjög. (c) Þá komu Jóhannis Lærisveinar til hans (l) og sögdu: hvar fyrir föstum vér og Pharisei svo mjög, (c) og bidjumst fyrir, (e) en þínir Lærisveinar fasta ei, (c) heldur eta og drecka? (l) Jesús sagdi til þeirra: hvörnin má brúdkaups fólkid syrgja (h) og fasta (l) svo leingi sem brúdguminn er med þeim? (c) þér meigid ecki neyda brúdkaups fólkid til ad fasta á medan brúdguminn er hjá þeim. En þeir tímar munu koma, ad brúdgumanum mun frá þeim kipt verda, og þá munu þeir fasta. Og hann sagdi eina eptirlíking til þeirra. Einginn setur bót af nýu klædi á gamalt fat, (c) því bótin glidnar frá fatinu (e) og rífur það í sundur, og fellur ei við hið gamla, (c) og verda slitin þá verri. (l) Og einginn lætur nýtt vín í forna ledurbelgi (a) ellur flöskur, (l) annars spreingir vínid belgina og það spillist, en belgirnir skémmast. (f) Heldur skal nýtt vín látast í nýa belgi, og mun þá hvörtveggja forvarast. (c) Svo er og einginn sem dreckur af hinu gamla og

vilsi strax hid nýa, þvíad hann seigir: hid gamla er heilnæmara.

## 21. Kapítuli.

### Um uppvakníng dóttur Jaíri, og lækníng þeirrar blódfallssjúku qvinnunnar.

Matth. 9. Marc. 5. Luc. 8.

Sem (a) hann var þetta ad tala vid þá, (l) sjá! þá kom (c) madur sá er Jaírus var ad nafni, og sá var samkundu-húsins høfdíngi. (b) Og þa er hann sá Jesúm (l) féll hann nidur fyrir fætur hans, (c) og bad hann (b) mikillega, (c) ad hann kjæmi í hans hús, (þvíad hann átti sér einka dóttur, nær tólf ára gamla, og hún var ad dauda komin) ad hann (b) legdi sína hønd yfir hana, svo hún yrdi heil og lifdi. (a) Og Jesús stód upp, og fylgdi honum eptir, og hans Lærisveinar, (b) margt fólk fylgdi og honum eptir, (c) og er hann géck burt, þá þreyngdi fólkid ad honum. (l) Og sjá! ein qvinna hvør ed blódfall hafdi haft í tólf ár, (b) hún hafdi og mikid þolad af mørgum læknurum, og kostad þar til (e) allri sinni aleigu, (b) og þad stodadi henni þó eckért, heldur vesnadi henni miklu meir. Þá hún heyrdi af Jesú, kom hún med fólkinu á bak til (a) vid hann, (l) og snerti fald hans klæda, (e) þvíad hún sagdi med sjálfri sér, ef eg mætti adeins snerta hans klædnad, munda eg heilbryngd verdá, og jafnsnart (c) stemdist hennar blódlát, og (b) uppþurkadist hennar blód-brunnur, og hún fann á sínum líkama, ad hún var heil ordin af sinni plágu. Og Jesús fann strax á sjálfum sér, þann

krapt er út af honum géck, og sneri sér vid til fólksins og sagdi: hvør snart mín klædi? (c) hvør er sá mig snerti? en er þeir allir neitudu, (h) sagdi Pétur og þeir med honum voru, Meistari! (b) þú sjer ad (h) fólkid þreingir og þjakar ad þér, og þú seigir: hvør snart mig? (c) Jesús sagdi: einhvør hefur snortid mig, því ad eg kénni krapt út af mér geinginn. (b) Og hann skigndist í kríng eptir henni er þad hafdi gjørt. (c) En er konan sá ad þad var eigi hulid, kom hún hrædd og skjálfandi, (b) þvíad hún vissi hvad hana hafdi skéd, og féll fyrir honum nidur, (c) og kunngjørdi honum fyrir øllu fólkinu, fyrir hvørja søk er hún hafdi hann snortid, (b) og sagdi honum allann sannleik (c) og hvorsu hún hefdi jafnsnart heil ordid. Þá sagdi hann til hennar: vertu hughraust, mín dóttir! þín trú hefur hjálpad þér, far í fridi, og vert heil af þinni plágu, (a) og konan vard heil á þeirri sømu stundu.

Þá (h) hann var enn þetta ad tala komu nockrir af þénurum samkundu forýngjans og søgdu: þín dóttir er ønduð, því ómakar þú Meistarann leingur? (b) en Jesús heyrdi strax hvad þar sagdist, og sagdi til samkundu-forýngjans: (h) óttast þú eigi, trú þú ad eins, þá verdur hún heilbrigd. (b) Og hann lét aungvann fylgja sér, nema Petrum og Jacobum og Jóhannem bródur Jacobs. Og hann kom í samkunduhøfdíngjans hús, (c) en þeir grétu allir og syrgdu hana. (a) Og er Jesús sá pípublásarana og ys fólksins, (b) og þá er þar grétu mjøg og æptu, géck hann þángad innar og sagdi til þeirra: hvad buldrid þér og sítid? (a) farid frá! (c) grátid eigi, (l) því ad stúlkan er ecki daud, heldur sefur hún. Og þeir

dárudu hann, (c) þviad þeir vissu ad hún var látin. (h) En hann rak þá alla út, (b) og tók med sér födur og módur barnsins, og þá er med honum voru, og géck þángad inn sem barnid lá. (l) Og hann tók í hønd barnsins (c) kalladi og sagdi til hennar: Talithacumi þad útleggst: stúlka eg segi þér, rís upp. (c) Og hennar andi kom aptur, (b) og þá strax reis stúlkan upp og géck, en hún var tólf ára gømul. (c) Og hennar foreldrar urdu (b) ómátanlega felms fullir. Og hann fyrirbaud þeim hardlega ad þad skyldi einginn vita, (c) og ad þeir segdu aungvum hvad gjørst hafdi. (h) Hann skipadi og ad géfa henni ad eta. (a) Og þettad rikti barst út um allt þad land.

## 22. Kapítuli.

### Um lækníng tveggja blindra, og eins djøfulsetins manns sem var Mállaus. Matth. 9.

Og er Jesús géck burt þadan fram leingra, fylgdu honum eptir tveir menn blindir, þeir ed kølludu og søgdu: æ þú Sonur Davíds! miskuna ockur. Og er hann kom inn í húsid, geingu hinir blindu til hans. Og Jesús sagdi til þeirra: trúid þid ad eg kunni ad gjøra yckur þetta? þá søgdu þeir til hans: já Herra. Þá snart hann þeirra augu, og sagdi: verdi yckur eptir trú yckar. Og þeirra augu lukust upp. Og Jesús hótadi þeim og sagdi: sjáid til ad þad fái ei nockur ad vita. En þeir geingu út, og útbreifdu hans rikti um allt þad land.

Þá þessir voru nú útgeingnir, sjá! þá høfdu þeir

til hans þann mann, sem Dumbi var og djøfulóður. Og að útreknum djøflinum, talaði hinn mállausi, og fólkið undraðist það, og sagði: aldrei hefur slíkt sjeð verið í Israel. En Pharisei sögðu: hann rekur djøflana út fyrir djøfla høfdíngjann.

## 23. Kapítuli.

### Um apturkomu Kristi í sitt fósturland Nazareth. Matth. 13. Marc. 6.

Og (b) hann géck þaðan, og kom í sitt fósturland, og hans lærisveinar fylgdu honum eptir. Og er Sabbats dagurinn kom, þá tók hann til að kénna (a) þeim, (c)] í þeirra samkundu húsi. Og margir af þeim sem það heyrðu, undruðust hans kénníng, og sögðu: hvaðan kémur honum slíkt? (b) eða hvør er sú speki sem honum er géfin? og slík kraptaverk er gjørast fyrir hans hendur? (c) er þetta ecki (b) einn trésmiður,(a) timbursmiðsins Son? heitir hans móðir ecki María? og bræður hans Jacob og Jóses, Símon og Júdas? og hans systur, eru þær ei allar hér hjá oss? hvaðan kémur þessum þá allt þettað? (c) og þeir hneixluðust á honum. En Jesús sagði til þeirra: einn Spámaður er hvørgi í minni virðíngu, enn á sínu fósturlandi (b) og hjá sínum ættmønnum, (a) og í sínu eigin húsi. (b) Hann féck þar og ecki neitt kraptaverk gjørt, (a) fyrir sakir vantrúar þeirra, (b) nema yfir fáeina sjúka, þá lagði hann hendur, og læknaði þá. Og hann undraðist þeirra vantrú.

# Fjórdi Partur,

Hljódandi um þad er vidbar á þridja ári predikunar embættis Herrans Kristi.

## 1. Kapítuli.

Um almennilega Visitatiu, og yfirferd Kristi um Galileam. Item útsending þeirra tólf Postula til ad prédika og gjora krapta-verk. Matth. 9. Marc. 6. Luc. 9.

Og (a) Jesús géck um kríng í øllum borgum og (c) kauptúnum (b) er þar stódu í þyrpíngu, kénndi (a) í þeirra samkundu húsum, og predikadi Evangelíum ríkisins, og læknadi allshattadar sóttir, og alskins kránkdæmi hjá fólkinu. Og er hann leit fólkid, sá hann aumur á því, því ad þeir voru vanmegna ordnir, og tvístradir, sem þeir saudir er aungvann hyrdir hafa. Þá sagdi hann til sinna Lærisveina: kornskéran er mikil, en verkamennirnir fáir, fyrir því bidjid Herrann kornskérunnar, ad hann sendi verkmenn í sína kornskéru.

(a) Og hann kalladi tólf sína Lærisveina til sín (b) og tók ad senda þá tvo og tvo, (c) og gaf þeim vald og magt (c) yfir óhreinum øndum, (c)

og yfir øllum djøflum (a) ad þeir ræki þá út, og ad lækna allskins sóttir, og allra handa meinlæti. En þeirra tólf Postula nøfn eru þessi: sá fyrsti Símon sá ed kallast Pétur, og Andreas bródir hans, Jacob son Zebedei, og Jóhannis bródir hans, Philippus og Barthólomeus, Thómás og Matthens Tollheimtari. Jacob Alphei son og Lebbeus ad vidurnefni Thaddeus. Símon af Cana, og Júdas Iscaríot, sá ed forréd hann.

Þessa tólf útsendi Jesús (b) og baud þeim ad bera eckért á veg med sér nema einn staf, eigi púng, eigi braud, eigi peníng á linda, heldur klæddir skó-føtum (ilja-skóm) og þad þeir klæddust eigi tveimur kirtlum. (c) Og hann sendi þá út ad prédika Guds ríki, og ad græda sjúka, (a) bjódandi þeim og sagdi: farid ei á gøtu heidinna þjóda, gángid eigi inn í borgir Samverskra manna, heldur gángid til þeirra fortapadra sauda af húsi Israels. Farid út, predikid og segid: þad himnaríki er nálægt. Læknid sjúka, hreinsid líkþrá, uppvekid dauda, útrekid djøfla, fyrir eckért hafid þér þad feingid, géfid þad og út fyrir eckért. Þér skulud eigi hafa gull, ei sylfur, ei kopar í lindum ydar, og ei heldur tøsku til vegferdar, (e) eigi braud né penínga, og einginn skal hafa tvo kirtla, (a) eigi skó, aungann staf, því ad verdur er verk-madurinn sinnar fædu. (l) Og í hverja þá borg edur kauptún sem þér inngángid, (a) þá spyrjid ad: hvert þar sé nockur í henni sem þess sé verdur, og þar hjá þeim sama blífid, þar til þér farid burt þadan. Nær þér inngángid í nockurt hús; þá heilsid því. Og ef þad sama hús er þess verdugt, mun ydar fridur koma yfir þad, en ef þad er eigi verdugt, þá mun ydar fridur til ydar aptur

hverfa. (l) Og hvørjir að eigi meðtaka yður, og heyra eigi (a) yðvarri røddu, gángið út af því húsi eða borg, (l) hristið duptið af yðrum fótum, (h) til vitnisburðar yfir þá. (e) Sannlega ségi eg yður: að bærilegra mun verða landinu Sódómæ og Gómorrhæ á Dóms-Deigi, heldur enn þeirri sømu borg.

## 2. Kapítuli.

### Spádómur og fyrirsøgn Kristí um ofsókn Postulanna, út af Matthei 10 Kapítula. Item um þeirra apturkomu og erindislok. Marc. 6. Lúc. 9.

Sjáið! (a) eg séndi yður svo sem sauði á millum varga. Fyrir því verið forsjálir svo sem høggormar, og einfaldir sem dúfur. En vaktið yður fyrir mønnum, því að þeir munu ofurselja yður fyrir sín ráðhús, og í sínum Samkundu-húsum munu þeir yður strýkja. Og þér munuð leiddir verða fyrir Lands-høfðíngja og Kónga minna vegna, til vitnisburðar yfir þá, og yfir heiðinn lýð. En nær þeir framselja yður nú, þá verið ei hugsjúkir, hvørnin eða hvað þér skuluð tala, því að það mun yður á þeirri stundu géfið vera, hvað þér eigið að tala. Því að þér ernð eigi þeir sem tala, heldur er það Andi yðvars Føðurs, sá er talar fyrir yður. Sá eini bróðir mun selja annann í dauða, og Faðir Soninn, og niðjarnir munu upprísa á móti Foreldrunum, og þeim fjørræði veita. Og þér verðið að hatri hafðir af øllum mønnum fyrir míns nafns sakir. En hvør hann er staðfastur allt til enda sá

mun hólpinn verda. En nær þeir offækja ydur í einni borg, þá flýid í adra. Sannlega feigi eg ydur: ad þér munud eigi fullkomnad géta borgirnar í Israel, þar til ad Mannsins Sonur kémur. Eigi er Lærisveininum yfir sínum Meistara, og ecki þjóninn yfir herranum. Nægist Lærisveininum ad hann sé svo sem hans Meistari, en þjóninn sem hans herra. Ef þeir hafa húss-fødurinn Belzebub kallad, hvad miklu meir munu þeir þá hans heimamenn svo kalla? af því óttist þá ecki, því eckért er svo hulid, ad eigi verdi augljóst, og eckért er svo leynt ad ecki fáist ad vita. Hvad eg feigi ydur í myrkri, þad talid í ljósi, og hvad þér heyrid í eyra, þad prédikid á ræfrum. Og hrædist eigi þá sem líkamann aflífa, og sálina géta ei líflátid, heldur hrædist þann framar sem sálu og lífi gétur tortýnt í helvíti. Kaupast eigi tveir titlingar fyrir einn penníng? þó fellur eigi einn af þeim á jørd, án ydars Fødurs (vilja). Svo eru øll ydar høfud-hár talin. Fyrir því óttast eigi, þér erud mørgum titlíngum betri. Fyrir því hvør hann medkénnir mig fyrir mønnum, þann vil eg medkénna fyrir mínum himneska Fødur. En hvør hann afneitar mér fyrir mønnunum, þeim vil eg afneitá fyrir mínum himneska Fødur.

Þér skulud eigi þeinkja, ad eg sé kominn frid ad senda á jørdina; eigi kom eg frid ad senda, heldur sverd. Því ad eg er kominn til ad ýfa manninn á móti fødur sínum, og dótturina í gégn módur sinni, og sonar-konuna í gégn módur manns síns. Og mannsins hjú munu vera hans óvinir. Hvør hann elskar fødur og módur meir enn mig, sá er mín eigi verdugur. Og hvør hann

elskar son edur dóttur yfir mig, sá er mín ei verdugur. Og hvør hann tekur eigi sinn kross á sig og fylgir mér eptir, sá er mín ei verdugur. Hvør ed finnur sitt líf, sá mun tína því, og hvør sínu lífi týnir minna vegna, hann mun þad finna.

Hvør hann medtekur ydur, sá medtekur mig, og hvør mig medtekur, hann medtekur þann sein mig sendi. Hvør hann medtekur Spámann í Spámanns nafni, sá fær Spámanns laun; hvør hann medtekur réttlátann í réttláts nafni, sá fær réttláts laun; og hvør hann géfur einum af þessum vesælingum einn bikar af køldu vatni ad drecka í Lærisveins nafni, sannlega seigi eg ydur: ad þad mun eigi honum ólaunad vera.

(a) Og þad skédi er Jesús hafdi liktad þessar bodanir til sinna Lærisveina, géck hann leinga fram ad kénna og prédika í þeirra borgum, (h) og (Lærisveinarnir) geingu út (c) og ferdudust í gégnum kauptún, og prédikudu Evangelium, (b) þad menn skyldu gjøra ydran, og þeir ráku út marga djøfla, smurdu og marga sjúka med vidsmjøri, og læknudu þá.

## 3. Kapituli.

### Um líflát Jóhannis Skírara, og riktid Kristi sem barst fyrir Heródem, sem og hans álit þar um.

Matth. 14. Marc. 6. Lúc. 9.

Og (b) þar kom einn hentugur dagur, ad Heródes gjørdi á sínni ártíd eina qvøldmáltíd, høfdíngjum og høfuds-mønnum, og hinum fremstu mønnum í Galílea. (a) En er Heródes hélt þenn-

ánn sinn fædíngar=dag, (b) þá gêck dóttir Heró=díadis þar inn, (c) og dansadi (a) midt frammi fyrir þeim, (c) og þad líkadi Heródí vel, (b) og þeim er sátu til bordsins. Þá sagdi Kóngurinn til stúlkunnar: bid af mér hvørs þú vilt, eg vil veita þér þad. Og hann sór henni einn eid, ad hvørs þú beidist af mér, þá skal eg géfa þér, allt inn til helmíngs af mínu Kóngs=ríki. Hún gêck út og sagdi til módur sinnar: hvørs skal eg bidja? en hún sagdi: um høfud Jóhannis Skírara. Hún gêck þá strax med skunda til Kóngsins, (a) og sem hún var áeggjud af módur sinni, bad hún hann og sagdi: (b) eg vil ad þú géfir mér nú strax (c) høfud Jó=hannis Skírara á einum diski, og Kóngurinn vard næsta hryggur, en þó fyrir eidsins sakir, og þeirra sem med honum til bordsins sátu (b) þá vildi hann ecki synja henni þess, (a) heldur baud hann ad þad gjæfist henni, (b) og strax sendi Kongúrinn bodul=inn út, og baud ad sækja hans høfud, hann gêck af stad, (c) og afhøfdadi Jóhannem í myrkvastofu, og var hans høfud borid á diski og géfid stúlkunni, en hún færdi módur sinni. (b) Og er þad heyrdu hans Lærisveinar, komu þeir og tóku hans líkama, og løgdu hann í eina grøf (a) og grófu, komu og kunngjørdu þad Jesú.

(l) Á þeim tíma heyrdi Heródes Fjórdúngs=Høfdíngi, ríktid af Jesú (c) og allt þad er skédi fyrir hann, (b) (þvíad hans nafn var nú kunnugt) og sagdi til sinna þénara: þessi er Jóhannes Skír=ari, hann er af dauda uppúrisinn, og því gjørast þessi krapta=verk af honum, (b) en nockrir søgdu ad hann væri Elías, en nockrir, ad hann væri Spámadur, ell=

egar sem einn af Spámønnunum. Og er Heródes heyrdi þetta, sagdi hann: þad er Jóhannes sem eg hefi hálshøggvid, hann er nú uppirisinn frá daudum, e) og hann vard hræddur, af því af sumum ságdist ad Jóhannes væri af dauda risinn, en af sumum, ad Elías væri auglýstur, en af sumum, þad einn af gømlu Spámønnum væri upp aptur risinn. Heródes sagdi: Jóhannem hefi eg hálshøggvid, en hver er þessi af hverjum eg heyri þetta? og hann fýstist ad sjá hann.

## 4 Kapítuli.

### Um afvik Kristí í eydimørku, og þad kraptaverk er hann þar gjørdi, med sadníng fimm þúsund manna af fimm braudum.

Matth. 14. Marc. 6. Lúc. 9. Jóhann. 6.

Og h) Postularnir komu til samans aptur til Jesú, og kunngjørdu honum allt þetta, og hvad þeir høfdu gjørt b) og kénnt. a) Þegar Jesús, heyrdi þad, b) sagdi hann til þeirra: látum oss gánga afsídis í eydimørku, og hvílast þar litla stund, því ad margir voru þeir sem geingu frá og til, svo þeir høfdu ei tóm til ad eta. Og d) eptir þad tók hann þá til sín, f) fór þadan burt e) á einu skipi d) yfir um sjóinn hjá stadnum Týberías í Galílea l) afsídis í eydimørk e) hjá borginni sem hét Bethsaida. h) Og er fólkid sá þá í burt fara, a) heyrdi þad f) og vard þess vart b) þeckti hann margir f) og þad ferdadist eptir honum, d) af því þeir sáu þau teikn er hann gjørdi á sjúkum, e) og hlupu þángad hver med ødrum á fæti úr øllum

stødum, b) og komu fyrr enn þeir, og komu til hans. e) Og Jesús géck fram, og sá þann mikla múg, b) og hann aumkadi sig yfir þá, þvíad þeir voru sem adrir saudir er eingann hyrdir hafa. d) Jesús géck þá uppá eitt fjall, og settist þar med sínum Lærisveinum. Þá var og Páska-hátíd Gydínga nálæg. e) Og hann lét þá koma til sín, og sagdi þeim af Guds ríki. b) Og hann byrjadi eina lánga prédikun, e) læknadi og þá sem þess þurftu, a) og kránkir voru. e) En er deiginum tók ad halla, og b) hann var svo sem lidinn, l) geingu hans tólf Lærisveinar til hans, og sögdu honum: e) þetta er ein eydimørk, dagurinn er umlidinn og nóttin fellur á, l) lát fólkid frá þér, ad þeir fari burt um kríngumliggjandi þorp og kauptún, og kaupi sér þar fædu, b) því þeir hafa eckért ad eta, (þar) vér e) erum hér í eydimørku l) En Jesús svaradi og sagdi til þeirra: a) þeir hafa þess ei þørf ad þeir gángi burt, l) géfid þér þeim ad eta, b) og þeir sögdu til hans: sku'um vér þá fara út og kaupa fyrir tvø hundrud penínga braud og géfa þeim ad eta? d) Jesús hóf þá upp sín augu, og sá ad margt fólk dreif ad honum, þá sagdi hann vid Philippum: hvar kaupum vér braud þad þessir neyti? en þetta sagdi hann af því ad hann vildi reyna hann, þvíad hann vissi vel hvad hann vildi gjøra; Philippus svaradi honum: braud fyrir tvø hundrud penínga nægist þeim ei, svo ad hver einn fái nockud litid, b) en hann sagdi til þeirra: hversu mørg braud hafid þér? gángid til og skodid, og þá þeir hofdu þad ransakad, d) sagdi honum einn af hans Lærisveinum, Andreas bródir Símonar Petri: hér er einn litill pilltur, sá hefur fimm

bigg-braud og tvo fiska, en hvad er þad á medal svo margra? a) og Lærisveinarnir sögdu til hans: l) vær höfum ei nema fimm braud og tvo fiska, c) nema svo sé ad vær förum og kaupum fædu svo mörgu fólki, því þar var nær fimm þúsund manns, a) hann sagdi: færid mér þau híngad, b) og hann baud a) fólkinu ad þeir setti sig allir nidur ad eta í adgreindum hópum, á grænt gras, c) og sagdi til sinna Lærisveina: d) látid menniua setjast nidur c) í lag fimmtýgir og fimmtýgir saman, þeir gjördu svo. d) En þar var í þeim stad gras mikid b) og þeir c) settu sig allir, b) og skickudust nidur hundrad og hundrad saman, fimmtýgir og fimmtýgir saman, d) nær fimm þúsund manns. p) Jesús tók þau fimm braud og tvo fiska, leit upp til himins, gjördi þackir, braut braudin, og fékk sínum Lærisveinum ad þeir legdu þau fram fyrir fólkid g) en Lærisveinarnir feingu þau fólkinu sem nidur hafdi setst, og þeim tveimur fiskum skipti hann og svo med þeim öllum, d) svo mikid sem hver vildi, l) og þeir snæddu allir og urdu saddir, d) en þá þeir voru mettir, sagdi hann til sinna Lærisveina: safnid saman þær leifar sem afgánga, svo eckért spillist, b) en þeir tóku upp molana d) söfnudu saman og fylltu upp tólf karfir, med þessar leifar, af fimm byggbraudum, b) og fiskunum, d) sem þeir leifdu er mat höfdu feingid, c) en þeir sem etid höfdu voru nær fimm þúsundir manna, ad undan teknum konum og börnum. d) Þá mennirnir sáu þad, ad Jesús gjördi þetta teikn, sögdu þeir: þessi er sannarlega sá Spámadur sem í heiminn skal koma. En þá Jesús formerkti, ad þeir mundu koma og grípa

hann, og gjøra hann ad Kóngi, c) þá neyddi hann jafnsnart sína Lærisveina til, ad þeir geingi á skip og færi fyrir honum yfirum, b) til Bethsaida, c) þar til hann skildi fólkid vid sig, og er hann hafdi þad frá sér látid, géck hann einsamall uppá fjallid ad bidjast fyrir.

## 5. Kapítuli.

### Um þad hverninn Kristur géck á sjónum og kalladi Petrum til sín, item um hans reisu med Postulunum i land Genezareth. Matth. 14. Marc. 6. Jóh. 6.

Ad d) qvøldi geingu hans Lærisveinar ofan til sjáfarins, og stigu á skip, og komu yfir um sjóinn til Capernaum, og þá var þegar myrkt ordid. Jesús var þá eigi kominn til þeirra, en sjórinn tók ad æsast upp af miklu vedri. a) Og um qvøldid var hann einn þar b) á landi, a) en skipid var þá midt á sjónum, og hrackist í bylgjunum, b) og hann sá ad þeir voru neydstaddir í því þeir réru, c) þvíad vindurinn var þvert í móti þeim. Og nær um fjórdu vakt næturinnar, kom Jesús til þeirra gángandi á sjónum. d) Þeir høfdu þá róid fimm og tuttugu, edur þrátýgir akra leingdir, þá sáu þeir Jesúm gángandi á sjónum; og kominn nær skipinu, b) og hann vildi gánga fram hjá þeim. e) En er Lærisveinarnir sáu hann á sjónum gánga, b) ætludu þeir vofa vera mundi d) og óttudust, b) þvíad þeir sáu hann allir, og urdu óttaslegnir, a) og søgdu þad væri skrýmsl, og kølludu upp af hrædslu. En Jesús taladi strax til þeirra og sagdi: verid hug-

hrausfir, m) eg em hann, óttist ecki. En Pétur svaradi honum og sagdi: ef þú ert þad, Herra! þá bjód mér ad koma til þín á vatninu, og hann sagdi: kom híngad, og Pétur sté af skipinu, og géck á vatninu ad hann kjæmi til Jesú. En er hann leit megnann vind, ógnadi honum og tók ad sockva, kalladi og sagdi: Herra! hjálpa þú mér, en Jesús rétti jafnsnart høndina og greip hann, og sagdi til hans: þú lítil-trúadur! því efadist þú? d) þá vildu þeir hafa tekid hann inn í skipid, a) og þeir stigu inn í skipid, og vindin stillti, d) og jafnsnart var skipid komid ad því landi sem þeir fóru til. a) En þeir sem í skipinu voru, komu og féllu fram fyrir honum og sögdu: sannlega ertu Guds Sonur, b) og þeir ótrudust, og forundrudust úr máta, þvíad þeim skildist enn eigi af braudunum, og þeirra hjörtu voru forblindud.

Og er þeir voru yfirum farnir, komu þeir í landid Genesareth, og lendtu þar. En er þeir stigu af skipinu, þecktu þeir hann strax. a) Og er fólkid í þeim sama stad vard vart vid hann, sendu þeir út, b) og hlupu c) um allt þad land, allt í kríng, tóku til og fluttu saman þar um kríng sjúka menn á sængum, hvar helst þeir heyrdu hann vera. b) Og hvar ed hann géck inn í kauptún, stadi og þorp, þá lögdu þeir sjúka menn á torgid, a) og særdu til hans alla vanfæra, e) og bádu hann um ad þeir mættu ad eins snerta fald hans fata, og allir sem hann snertu, urdu heilbrygdir.

## 6. Kapítuli.

Predikun Kristí um neytslu þess himn-

## esta braudsins, edur hans líkama og blóds. Jóhann: 6.

Annann dag eptir sá fólkid sem hinumeigin sjáfarins stód, ad eigi var þar annad skip til, nema þad eina sem hans Lærisveinar hofdu ástígid, og Jesús hafdi ei sjálfur stígid á þad skip med sínum Lærisveinum, heldur voru hans Lærisveinar einir af stad farnir. Þar komu og yfir um ønnur skip frá Tyberías, hart nær þeim stad, sem þeir høfdu braudin etid, fyrir Herrans þackargjørd.

Og þá fólkid sá nú ad Jesús var eigi þar, og eigi heldur hans Lærisveinar, sté þad á skipin, kom til Capernaum, og leitadi ad Jesú. Og þá þeir høfdu fundid hann hinumeigin sjáfarins, søgdu þeir til hans: Rabbi! nær komstu híngad? Jesús svaradi þeim og sagdi: sannlega, sannlega seigi eg ydur, þér leitid ei af því þér sáud teiknin; heldur af því ad þér neyttud af braudunum, og urdud saddir; verkid ei fædu þeirrar sem forgeingur, heldur þeirrar sem stødug blífur til eilífs lífs, hvørja Mannsins Sonur mun géfa ydur; þvíad Gud Fadir hefur hann innsíglad. Þá søgdu þeir til hans: hvad skulum vér þá gjøra, svo vér gjørum Guds verk? Jesús svaradi og sagdi þeim: þad er Guds verk, ad þér trúid á hann, þann hann sendi, þá søgdu þeir til hans: hvad gjørir þú fyrir teikn, svo ad vér sjáum og trúum þér? hvad gjørir þú? fedur vorir átu Manna í eydimørku, sem skrifad stendur, hann gaf þeim ad eta braud af himni. Þá sagdi Jesús til þeirra: sannlega, sannlega seigi eg ydur, ad ei gaf Móýses ydur braud af himni, heldur géfur Fadir minn ydur þad rétta braud af

himni, þvíað það er Guðs brauð sem kémur af himni og heiminum géfur líf. Þeir sögðu þá við hann: Herra! géf þú oss jafnan þetta brauð. En Jesús sagði til þeirra: eg em lífsins brauð, hvør hann kémur til mín, þann mun ei húngra, og sá hann trúir á mig, hann mun aldrei þyrsta. En eg hefi sagt ydur, það þér hafið mig sjenann, og trúið þó eigi. Allt hvað minn Faðir géfur mér það kémur til mín, og hvørn þann sem til mín kémur, hann mun eg ei útreka. Þvíað eg er kominn af himni, ei uppá það, að eg gjøri minn vilja, heldur hans sem mig sendi. Þetta er Føðursins vilji, þess er mig sendi, að eg glati aungu af øllu því sem hann gaf mér, heldur skal eg uppvekja hann á efsta deigi. En það er vilji þess er mig sendi, að hvør sá sem Soninn sjer og trúir á hann, hafi eilíft líf; og eg mun uppvekja hann á efsta deigi.

Þá møgludu Júdar yfir því, það hann sagði: eg em það brauð hvørt eð ofan kom af himni, og þeir sögðu: er eigi Jesús þessi, Sonur Jósephs hvørs að vér þeckjum bæði føður og móður? hvørnin seigir hann þá: það eg em kominn af himni? Jesús svaraði og sagði til þeirra: møglið ei innbyrðis. Einginn fær til mín komið, nema svo sé, að Faðirinn sem mig sendi, dragi hann, og eg mun uppvekja hann á efsta deigi. Svo er skrifað í Spámannanna bókum, að þeir munu allir verða af Guði lærdir. Hvør helst nú heyrir af Føðurnum, og lærir það, sá kémur til mín; eigi það, að nockur hafi Føðurinn sjenann, nema sá sem er af Guði, hann hefur sjeð Føðurinn. Sannlega, sannlega seigi eg ydur: hvør sem á mig trúir hann hefur eilíft líf. Eg em lífsins brauð.

Fedur ydar átu Manna í eydimørku, og eru daudir.. Þetta er þad braud sem kémur af himni, svo ad hvør sem etur af því, hann deyr ei; eg em þad lifanda braud, sem af himni kom; hvør sem etur af þessu braudi, sá lifir eilíflega. Og þad braud sem eg mun géfa er mitt hold, hvørt eg mun géfa fyrir líf veraldarinnar. Júdar þráttudu þá sín á milli, svo seigjandi: hvørnin fær þessi géfid oss sitt hold ad eta? Jesús sagdi til þeirra: sanulega, sannlega seigi eg ydur: nema ef þér etid hold Mannsins Sonar og dreckid hans blód, þá hafi þér ei lífid í ydur. Hvør hann etur mitt hold og dreckur mitt blód, sá hefur eilift líf; og eg mun uppvekja hann á efsta deigi. Því mitt hold er sønn fæda, og mitt blód er sannur dryckur; hvør hann etur mitt hold og dreckur mitt blód, sá blífur í mér og eg í honum. Líka sem ad mig sendi sá lifandi Fadir, og eg lifi sakir Fødursins, svo og hvør hann etur mig, sá mun og lifa fyrir mínar sakir. Þetta er þad braud sem af himni komid er; eigi svo sem þad ydar fedur átu Manna, og eru daudir; hvør hann etur þetta braud, sá lifir ad eilífu.

Þetta sagdi hann í samkundu-húsinu, þá hann kénndi til Capernaum, en margir af hans Lærisveinum þá þeir nú þetta heyrdu, søgdu: hørd er þessi ræda; hvør kann henni ad heyra? en Jesús vissi med sjálfum sér, ad hans Lærisveinar møgludu af þessu, þá sagdi hann til þeirra: hneixlar ydur þetta, hvad mun þá, þegar þér sjáid Mannsins Son uppstíga þángad sem hann var fyrr? andinn er sá er lífgar, holdid er til einskis neytt; þau ord er eg tala, þau eru andi, og þau eru líf. En nockrir eru þeir

af ydur, hverjir ei trúa, því ad Jesús vissi af upphafi, hverjir eigi voru trúadir, og hver sá var, er hann mundi svíkja, og hann sagdi: fyrir því sagdi eg ydur, þad einginn fær til mín komid, nema ad honum sé þad gefid af mínum Födur. Eptir þad geingu margir af hans Lærisveinum aptur til baka, og geingu eigi leingur þadan af med honum, þá sagdi Jesús til þeirra tólf: viljid þér og frágánga? en honum svaradi Símon Petrus: Herra! til hvörs skulum vér fara? Þú hefur ord eilífs lífs, og vér trúum og skiljum þad þú ert Kristur Sonur Guds lifanda.

Jesús svaradi þeim: hef eg eigi útvalid ydur tólf? og einn af ydur er djöfull. En hann sagdi af Júda Simonis Iscaríot, því hann sveik hann sídan, og var einn af tólf.

# 7. Kapítuli.

## Samtal Kristí vid Skriftlærda og Pharíseos af Jerúsalem, um Öldúnganna setnínga. Matth. 15. Marc. 7.

Eptir þad a) ferdadist Jesús um kríng í Galílæa, því ad hann vildi ei ferdast í kríng í Júdea, af því ad Gydíngar vildu í hel slá hann. b) Þar komu og til hans Pharísei og nockrir af hinum Skriftlærdu, sem komnir voru frá Jerúsalem. Þá þeir sáu nockra af hans Lærisveinum med almennilegum höndum, þad er med óþveignum höndum, eta braud, ávítudu þeir þad, því ad Pharísei og allir Gydíngar eta ei nema þeir þvoi optsinnis sínar hendur, haldandi svo Öldúnganna setnínga. Og þá þeir koma af torginu,

þá eta þeir eigi nema þeir þvoi sig. Og margir adrir hlutir eru þeir sem þeir höfdu undirgeingist ad halda, sem var: þvottur dryckjarkéra, krúsa, kopar-kéra, og borda. Þá spurdu Pharisei og hinir Skriftlærdu hann ad, a) og sögdu: c) því gánga þínir Lærisveinar eigi eptir (heldur) ofurtroda Öldúnganna uppsetnínga? a). med því þeir þvo eigi sínar hendur er þeir braud eta, b) heldur eta med óþvegnum höndum c) hann svaradi og sagdi til þeirra: a) fyrir því ofurtrodid þér þá Guds bodord, fyrir ydvarn uppsetníng? b) rétt vel þá spádi Esajas af ydur hræsnurum, sem skrifad er, c) þessi lýdur nálægist mig med sínum munni, og heidrar mig med vörum sínum, en þeirra hjörtu eru lángt frá mér. Ad ónýtu þióna þeir mér, á medan þeir kénna þær kénníngar, sem ecki eru annad enn bodord manna. b) Þér yfirgéfid Guds bodord, og haldid mannanna uppásetnínga, sem er krúsir og dryckjar-kér ad þvo, og margt svoddan þá gjörid þér. Og hann sagdi til þeirra: sínlega þá hafid þér aflagt Guds bodord, ad þér mættud svo geyma ydvarn uppásetníng. a) Því Gud hefur skipad og b) Móyses sagdi: c) heidra skalltu Födur þinn og Módur, en hvör hann bölvar födur og módur, sá skal dauda deya. En þér kénnid þegar nockur seigir födur eda módur, b) Corban, þad er, ef eg offra því þá kémur þad þér meir til gagns, og eigi þá látid þér hann framar nockud gjöra födur sínum né módur sinni. a) af því skér þad, ad einginn heidrar födur sinn né módur, framar meir, c) og hafid svo ónýtt gjört Guds bodord, fyrir ydar setnínga, þá þér hafi sjálfir uppá sett, og margt annad því líkt þá gjörid þér. a) Þér hræsnarar! vel hefur Esajas spád af ydur.

c) Og hann kalladi allt fólkid til sín, og sagdi til þeirra: heyrid mig allir og undirstandid þad, þar er eckért fyrir utan manninn, hvad er inngeingur í munninn, þad hann fái saurgad, heldur hvad er fram af munninum geingur, þad saurgar manninn, b) hafi nockur eyru ad heyra, sá heyri. a) Þá geingu hans Lærisveinar ad honum og søgdu: (veitstu) ad þá ed þeir Phariseí heyrdu þad ord hneixludust þeir? en hann svaradi og sagdi: øll plantan hvørja minn himneskur Fadir plantar eigi, mun upprætast. Látid þá fara, þeir eru blindir og blindra leidtogarar, ef blindur leidir annann blindann, þá falla þeir bádir í grøfina. Þá svaradi Pétur og sagdi til hans: þýd oss þessa eptirlíking, b) og er hann géck inn í húsid, burt frá fólkinu, spurdu hans Lærisveinar hann ad þessari eptirlíkingu. c) En Jesús sagdi til þeirra: eru þér enn þá svo skilníngslausir? skynji þér ei enn nú ad allt þad sem fyrir utan er, og inn fer í manninn, þad fær ei saurgad hann, þvíad þad fer ei inn í hans hiarta, heldur hverfur þad í magann og verdur svo fyrir edlilega rás útskúfad, b) hvør ed úthreinsar allann mat? og hann sagdi: a) hvad af munninum fram geingur, þad kémur af hjartanu, og þad saurgar manninn, b) þvíad innan ad úr hjartanu mannsins c) þá fram gánga vondar hugrenníngar, hórdómur, frillulífi, manndráp, þjófnadur, ágyrni, ljúgvitnan, hreckir, undirhyggja, ótugt, íllt tillit, lastanir, drambsemi, heimska, allt þetta vondt þá geingur út innan ad, og saurgar manninn, a) en med óþveignum høndum ad eta, saurgar ecki manninn.

8. Kap.

## 8. Kapituli.

Um ferd Kristí í landsálfur Týri og Sidonis, og þá Canverſku qvinnuna, item um hans apturkomu þadan til ſjáfarins í Galilea, hvar hann læknadi marga ſjúka, og á medal þeirra einn daufann og mallausann mann. Matth. 15. Marc. 7.

En e) Jeſús ſtód upp, géck í burt þadan, og fór í lands-álfur Týrí og Sidonis. b) Og géck inn í eitt hús, og vildi þad augvann vita láta, en féck þó eigi duliſt. c) því ad, ſjá! ad ein Canverſk kona géck út af þeim ſømu takmørkum, b) þá hún hafdi heyrt af honum, hvorrar lítil dóttir hafdi óhreinann anda, og hún kom og féll nidur fyrir hans fótum. En þad var ein gríſk kona af Syrophenice, og hún bad hann ad reka út djøfulinn frá dóttur ſinni, a) kalladi eptir honum og ſagdi: ó Herra! Sonur Davíds, miſkunna þú mér! mín dóttir qvelſt ílla af djøflinum, og hann ſvaradi henni eigi ordi. Hans Læriſveinar geingu til hans, bádu hann og ſøgdu: gjør henni úrlauſn, af því hún kallar eptir oſs. En hann ſvaradi og ſagdi: eg em ei ſendur nema til fortapadra ſauda af húſi Iſraels. En hún kom og féll nidur fyrir honum, og ſagdi: hjálpa mér, Herra! c) En Jeſús ſvaradi og ſagdi til hennar; b) leif þú ad børnin mettiſt ádur, þvíad þad er ei tilheyrilegt, a) ad taka braudid barnanna, og kaſta því fyrir hundana. En hún ſvaradi og ſagdi til hans: já Herra! því ſmáhundarnir eta undir bordinu af molum barnanna, a) ſem detta af bordum drottna þeirra.

Þá svaradi Jesús og sagdi til hennar: ó þú kona! mikil er þín trúa, verdi þér svo sem þú villt, b) fyrir sakir þess ords þá far hédan, djöfullinn er útfarinn frá þinni dóttur. a) Og á þeirri sömu stundu, vard hennar dóttir heilbrygd. b) Og hún geck þadan í sitt hús, og fann ad djöfullinn vár útfarinn, og dóttirina á einni sæng liggjandi.

Og c) þá Jesús geck leingra áfram burt aptur úr bygdarlagi Týrí og Sídonis, kom hann til sjáfarins í Galílea, b) midt á medal þeirra tíu stadanna. Og þeir leiddu til hans daufann mann, þann ed var næsta stamur, og bádu hann ad hann vildi leggja hönd yfir hann. Og hann tók hann afsídis frá fólkinu, og stack sínum fíngrum í hans eyru, hrækti út og snart hans túngu, leit upp til himins, andvarpadi og sagdi til hans: Ephata, þad er, opna þig. Og strax þá opnudust hans eyru, þá uppleystist og einnin hans túnguhapt, og hann taladi rétt. Og hann fyrirbaud ad seigja þad neinum. En því meir er hann fyrirbaud þad, þess meir þá vídfrægdu þeir þad. a) Og Jesús geck uppá eitt fjall, og setti sig þar, og margt fólk dreyf til hans, hafandi med sér hallta, blinda, mátt-lausa, vanada, og marga adra, og snörudu þeim fram fyrir fætur Jesú, og hann læknadi þá, svo ad fólkid undradist b) þad næsta mjög a) er þad sá málllausa mæla, og vanada heila, hallta gánga, blinda sjáandi b) og sögdu: allt hefur hann vel gjört, því ad daufa lætur hann heyra, og mállausa mæla, a) og vegsömudu Gud Israels.

## 9. Kapítuli.

Um þad krapta-verk Kristí er hann mett-

### adi fjogur þúsund manna, med sjø braudum. Item um Phariseos sem beiddust teikns af honum, og þann blinda mann er læknadur var í Bethsaida.
### Matth. 15. og 16. Marc. 8.

Á þeim b) tíma, þá þar var margt fólk, og hafdi ecki til matar, e) kalladi Jesus sína Lærisveina til sín, og sagdi til þeirra: mig aumkar yfir fólkid, þvíad þeir hafa nú þrjá daga hjá mér verid, og hafa eckert til matar, a) og fastandi vil eg þá ecki frá mér fara láta heim, b) svo ad eigi verdi þeir húngurmorda á veiginum, því ad sumir voru lángt ad komnir. e) Hans Lærisveinar svørudu og søgdu til hans: hvadan tøkum vér svo mørg braud hér í eydimørku ad vér sedjum med jafnmargt fólk? og Jesús spurdi þá ad og sagdi til þeirra: hversu mørg braud þá hafid þér? þeir søgdu: sjø, og. a) fá fiskakorn. Og hann baud fólkinu ad þad settist nidur á jørdina, og tók þau sjø braud og fiskana, og er hann hafdi þackad, braut hann þau, og gaf þau sínum Lærisveinum, b) ad þeir legdi þau fram, e) og hans Lærisveinar løgdu þau fram fyrir fólkid. b) Og þeir høfdu fáeina smá-fiska, og hann gjordi þackir, og baud þá fram ad leggja, e) og þeir átu allir og urdu mettir. Þeir tóku og upp þad yfir var af leifunum, sjø karfir fullar. En þeir sem etid høfdu, voru nær fjórum þúsundum a) manna, fyrir utan konur og børn. b) Og hann lét þá í burtu fara frá sér. a) Og er hann hafdi fólkid frá sér látid, e) sté hann strax á eitt skip med sínum Lærisveinum, a) og kom í eydimerkur Mag-

dala lands, b) í þær landsálfur er heita Dalmanutha.

Þá c) geingu Pharíseí og Sadúseí út til hans, b) og tóku að hafa spurníngar við hann, freystuðu hans, c) og báðu hann að sýna sér eitt teikn af himní. a) En hann svaraði þeim og sagði: á qvøldin seigið þér, það verður góður dagur, því himin-roði er; og á morgna seigið þér: í dag verður hreggviðri, því að himininn er rauður og dimmur. Þér hræsnarar! himinsins ásján kunnið þér að dæma, kunnið þér þá ekki að dæma teikn þessara tíma? b) en hann varð þrúnginn í sínum Anda, og sagði: til hvers sækir þessi kynslóð eptir teikni? a) þessi vonda og hórunarsama kynslóð æskir teikns. b) Sannlega seigi eg yður: c) að þessari kynslóð skal ekkért teikn gésið verða, a) nema teikn Jónæ Spámanns. Og hann forlét þá, géck í burt, b) sté aptur á skip og fór yfirum. a) Og er hans Lærisveinar voru yfirum farnir, høfðu þeir gleymt brauð með sér að taka, b) og høfðu ei nema eitt brauð með sér í skipinu. c) En Jesús bauð þeim og sagði til þeirra: sjáið til! varið og vaktið yður fyrir súrdeigi þeirra Pharíseórum og Sadúceóium, b) og við súrdeigi Heródis. c) Þá þeinktu þeir með sér, og søgðu hver við annann: það mun vera það vær høfum einginn brauð með oss tekið. En er Jesús fornam það, sagði hann til þeirra: þér lítiltrúaðir! hvað hugsið þér um það, þó að að þér hafið ei brauð með yður haft? skynjið þér enn nú ecki né undirstandið? b) hafið þér enn forherdt hjørtu í yður? hafið þér augu, en sjáið ei, og hafið eyru, og heyrið eigi? c) minnist þér ecki b) að

eg braut fimm brauð í milli fimm þúsunda, hversu margar karfir fullar með afgángs-leifar tókuð þér þá upp? þeir sögðu: tólf. En þá eg braut þau sjø brauð á millum fjögra þúsunda, hversu margar karfir fullar með leifar tókuð þér þá upp? þeir sögðu: sjø. Og hann sagði til þeirra: hvernin skiljið þér það þá ecki, a) að eg sagði ydur eigi af brauðinu, þó eg seigi: vaktið ydur fyrir súrdeigi þeirra Pharíseórum og Saddúseórum, þá undirstóðu þeir að hann hafði eigi sagt þeim það þeir skyldu vara sig við súrdeigi brauðsins, heldur við lærdómi Pharíseanna og Sadúceanna.

Hann b) kom til Bethsaida, og þeir leiddu þá einn blindann mann til hans, og báðu hann að hann snerti hann. En hann tók í hønd hins blinda og leiddi hann út af, fyrir utan kauptúnið, spítti í hans augu, og lagði sínar hendur yfir hann, og spurði hann að: hvert hann sæi nockuð, en hann leit upp og sagði: eg sje mennina gánga líka sem eg sæi tré. Þá lagði hann enn aptur hendur yfir hans augu, og bauð hønum enn upp að líta, og hønum batnaði svo aptur, að hann sá allt klárlega. Og hann sendi hann til síns heimilis og sagði: gack eigi inn aptur í kauptúnið, seig það og ecki neinum þar inni.

## 10. Kapítuli.

### Um ferð Kristí til Cæsaream Philippi, hvar Pétur gjørði sína góðu játning um hann, hvar og einninn Jesús tók til að seigja Lærisveinunum sýrir, og undirvísa þeim um sína til-

standandi pínu og dauda.
Matth. 16. Marc. 8. Lúc. 9.

Jesús a) gékk út og hans Lærisveinar í landsálfur borgarinnar Cesarea Philippi b) og til þeirra kauptúna (er þar hjá vóru). c) Og þad gjørdist þá hann var einn og badst fyrir, og hans Lærisveinar hjá honum, l) ad hann spurdi þá ad á leidinni, og sagdi til þeirra: hvad segja menn til, hvør Mannsins Son sé? Þeir svørudu og søgdu: sumir segja þú sért Jóhannes Skírari, en adrir þú sért Elías, sumir ad þú sért Jeremías, en sumir ad þú sért einn af Spámønnunum, edur þad c) einn af hinum gømlu Spámønnum sé uppirisinn. e) Þá sagdi hann til þeirra: en þér, hvørn seigid þér mig þá vera? l) Þá svaradi Símon Petrus og sagdi til hans: þú ert Kristur Sonur Guds lifanda. a) En Jesús svaradi og sagdi til hans: sæll ertú Símon Jónasson, því ad hold og blód byrti þér þad eigi, heldur minn himneski Fadir. Og eg seigi þér: þú ert Petrus, og yfir þennann hellustein mun eg uppbyggja mína kristni, og port helvítanna skulu eigi megn hafa í gégn henni. Og þér mun eg géfa lykla himnaríkis, og allt hvad þú bindur á jørdu, skal á himnum bundid vera, og allt hvad þú leysir á jørdu, skal á himnum leyst vera. Þá fyrirbaud hann sínum Lærisveinum h) og hastadi á þá, ad þeir segdi þad ei neinum b) um hann, a) ad hann væri Jesús sá Kristus.

Þadan í frá tók Jesús til ad auglýsa fyrir sínum Lærisveinum b) og kénna þeim og sagdi: l) hvørnin Mannsins Syni byrjadi ad gánga til Jerúsalem, og margt þola og hrakinn vera af Oldúng-

unum, Høfudprestunum og Skriftlærdum, og líflátinn verda, og á hinum þridja deigi upp ad rísa. b) Hann taladi og þetta ord berlega út, c) en Pétur tók hann til sín, ávaldi hann og sagdi: a) Herra! þirm sjálfum þér, þad hendi þig enganveginn, c) en hann snéri sér vid, b) leit til sinna Lærisveina, hastadi á Petrum og sagdi: c) far frá mér Satan, a) þú ert mér hneixlanlegur, c) því þú skilur eigi hvad Guds er, heldur hvad mannanna er.

Og b) ad samankølludu fólkinu ásamt hans Lærisveinum, l) sagdi Jesús til þeirra allra: ef nockur vill mér eptirfylgja, þá afneiti hann sjálfum sér, og taki sinn kross uppá sig hvørsdaglega og fylgi mér eptir, þvíad hvør hann vill sitt líf forvara, sá mun því týna; en hvør sínu lífi týnir, fyrir mínar sakir og Evangelii, sá mun þad finna og því b) behalda. Því ad hvad stodar þad manninn, þó hann vinni allann heiminn, en feíngi tjón á sinni sálu, c) edur skadi sjálfann sig? c) edur hvad mun madurinn fá géfid þar hann sálu sína med endurleysi? h) en hvør hann skammast mín edur minna orda, b) hjá þessari hórunarsamri og syndugu kynslód, h) þess mun Mannsins Sonur feila sér, þá hann kémur í dýrd sinni og síns Fødurs, og heilagra Eingla, a) því þad mun ské, ad Mannsins Son mun koma í dýrd síns Fødurs med sínum Einglum, og þá mun hann gjalda hverjum sem einum eptir sínum verkum. b) Hann sagdi og til þeirra: l) sannlega segi eg ydur, ad nockrir standa hér af þeim sem daudann skulu eigi smacka, þar til þeir sjá Guds ríki b) med krapti komandi, a) og Mannsins Son komandi í sínu ríki.

## 11. Kapítuli.

Um forkláran Kristí á fjallinu, fyrir þrem, ur hans Lærisveinum, og hans apturkomu þadan til Postulanna.

Matth. 17. Marc. 9. Lúc. 9.

Og e) þad skédi e) sex dögum c) eptir þessa rædu, ad e) Jesús tók med sér Petrum, og Jacobum og Jóhannem bródur hans, og hafdi þá afsídis b) eina saman, c) og gékk uppá eitt-e) hátt fjall c) ad bidjast fyrir.

Og þá er hann badst fyrir, vard hans andlitsmynd ödruvís b) og forklárađist fyrir þeim, a) og hans ásjána skein sem sól, l) en hans klædi urdu svo björt sem ljós, skínandi og næsta hvít sem snjór, h) svo ad einginn litunar-madur á jördu kann svo hvítt ad gjöra.

f) Og sjá! a) ad honum byrtust þeir c) tveir menn, hverjir ed voru þeir Móyses og Elias, b) og héldu eitt samtal vid Jesúm, c) þeir opinberudust í byrtunni, og töludu um hans útför, hverja hann mundi fullkomna til Jerúsalem. En Pétur og þeir ed voru med honum, voru fullir af svefni. Og er þeir vöknudu, sáu þeir hans dýrd, og þá tvo menn hjá honum standa. Pad vard og þá þeir skildu vid hann, l) ad Pétur svaradi og sagdi til Jesú: Meistari! hér er oss gott ad vera, ef þú vilt, þá viljum vér gjöra hér upp þrjár tjaldbúdir, þér eina, Móysi eina, og Elíæ eina, h) og hann vissi ei hvad hann sagdi, b) af því þeir voru óttaslegnir. f) Og þá er hann var þetta ad tala, sjá! l) þá kom eitt bjart ský og yfirskygdi þá, c)

og þeir óttuduſt er ſkýid leid yfir þá. l) Og ſjá! ad ein rødd kom úr ſkýinu og ſagdi: þeſsi er minn elſkulegur Sonur, a) ad hverjum mér vel þóknaſt, honum ſkulud þér heyra. En er hans Læriſveinar heyrdu þad, féllu þeir fram á ſínar áſjánir og urdu mjøg hrædbir, e) og í því ád ſvoddán rødd vard, fundu þeir Jeſúm einſamann. a) En Jesús gécк til þeirra, tók á þeim og ſagdi: ſtándid upp og verid eigi hrædbir. b) Og ſtrax þar eptir litu þeir í kríngum ſig og ſáu eingann nema alleina Jeſúm hjá ſér. e) Og er þeir geingu ofan af fjallinu, b) fyrirbaud Jeſús þeim, ad þeir ſegdu þad eingum, hvad þeir hefdu ſjed, þángad til ad Mannsins Son væri uppriſinn af dauda, a) og ſagdi: þér ſkulud aungvum þeſsa ſjón ſeiga, þar til ad Mannsins Son er uppriſinn af dauda. c) Og þeir þøgdu, b) og héldu því ordi hjá ſér, ſpyrjandi ſín á milli: hvad þad væri ad uppríſa af dauda? c) og ſøgdu aungvum neitt frá því á þeim døgum, hvad þeir høfdu ſjed.

Og e) hans Læriſveinar ſpurdu hann ad og ſøgdu: hvad er þad þá ſem hinir Skriftlærdu ſeigja: þad Elías hljóti ádur ad koma? en Jeſús ſvaradi og ſagdi til þeirra: Elías ſkal ad víſu ádur koma, og alla hluti lagfæra, b) þar ad auk mun Mannsins Sonur margt lída, og forſmádur verda, ſvo ſem þar ſkrifad ſtendur. e) En eg ſeigi ydur: þad Elías er allareidu kominn, a) og þeir þeсktu hann ecki, heldur gjørdu þeir vid hann hvad helſt þeir vildu, b) ſvo ſem ſkrifad er af honum. a) Svo mun og Mannsins Son verda af þeim ad lída. Þá undirſtódu Læriſveinarnir þad hann hafdi ſagt af Jóhanni Skírara.

N. B. Lúcas skrifar, ad nær átta dögum eptir þad ad Kristur hafdi framsett þá rædu sem umgétur í næst fyrirfarandi Kapítula, þá hafi hann forklárast á fjallinu fyrir þremur sínum Lærisveinum. En Matthæus og Marcus seigja þad hafi skéd sex dögum þar eptir. Hvar athugandi er, ad Gudspjallamennirnir eru ei sídur hér enn annarstadar samhljóda, því Lúcas telur med þann daginn sem Kristur sagdi fyrir þessa sína forklárun, og þann á hverjum hún skédi, en hinir tveir telja alleinasta þá sex daga sem þar á milli voru.

## 12. Kapítuli.

Um lækníng þess túnglsjúka sem Lærisveinarnir gátu ei læknad. Item um reisu Kristí í gégnum Galileam, og hvernin hann galdt skatt-peninginn í Capernaum, fyrir sig og Petur.
Matth. 17. Marc. 9. Lúc. 9.

Og c) þad skédi annars dags er þeir fóru ofan af fjallinu, b) og hann kom til sinna Lærisveina, og sá þar margt fólk í kríngum þá, og hina Skriftlærdu, er spurdust á vid þá, og strax er allt fólkid leit hann, felmtradi því, hlupu ad og heilsudu honum. a) Og er þeir komu til fólksins, (b) spurdi hann þá hina Skriftlærdu, ad hverju spurjist þér um vid þá? l) og sjá! einn madur á medal fólksins, géck til hans og féll til fóta honum, kalladi upp, svaradi og sagdi: b) Meistari! eg flutti son minn híngad til þín, hann hefur mállausann anda, c) eg bid þig sjá til sonar míns, þvíad hann

er minn einka son, a) Herra! miskunna þú syni mínum, því að hann er túnglsjúkur, og er hersilega píndur, því að opt fellur hann á eld, og þráttsinnis í vatn, k) og sjá! þegar að andinn grípur hann, þá emjar hann jafnsnart, og hann hrífur hann (og) slítur, svo hann froðufellir, og hann gnístir tönnum og þornar upp, e) og varla skilst hann við hann þá hann hefur hrifið hann, a) eg hafði hann og til þinna Lærisveina, c) og bað þá að þeir ræki hann út, l) og þeir gátu honum ecki hjálpað. En Jesús svaraði honum, og sagði: ó! þú hin vantrúaða og fráhverfa kynslóð, hversu leingi þá skal eg hjá ydur vera? eða hversu leingi á eg að umlíða ydur? hafið hann híngað til mín, b) og þeir færðu hann þángað til hans. c) Þá hann kom til hans, b) og strax er andinn leit hann, c) hreif Djöfullinn hann h) og sleit hann mjög k) og féll á jörð, veltist um og froðufelldi.

Hann spurði og hans föður að: hversu lángur tími er frá því hann hreppti þetta? en hann sagði: frá barnæsku, og optlega hefur hann fleigt honum í eld og vatn, að hann fyrirfæri honum. En ef þú orkar nockru, þá sjá aumur á ockur, og hjálpa ockur. En Jesús sagði til hans: ef þú getur trúað, trúðum er allt mögulegt. Og strax þá kallaði faðir barnsins upp með tárum og sagði: eg trúi, Herra! hjálpa þú minni vantrú. Og er Jesús sá að fólkið hljóp að, l) hastaði hann á hinn óhreina anda, b) og sagði til hans: þú mállausi og daufi andi, eg býð þér að þú farir út af honum, og farir ei framar í hann. Þá kallaði hann upp og sleit hann mjög, og Djöfullinn fór út af honum, og hann varð sem væri

hann daudur, svo margir einninn sögdu: hann er daudur.

En Jesús tók í hans hönd og reisti hann upp, c) og læknadi piltinn, b) hann reis þá upp, a) og sveinninn vard heilbrygdur á samri stundu, c) og hann fékk hann aptur födur sínum; en þeim ógnadi öllum Guds dýrd. b) Og þá hann kom heim, e) gengu Lærisveinarnir heimuglega til Jesú, spurdu hann ad og sögdu: því gátum vær ei drifid hann út? Jesús svaradi og sagdi til þeirra: fyrir ydar vantrúar sakir, því eg segi ydur fyrir sann, ef þér hefdud trú sem mustarðskorn, mættu þér segja fjalli þessu, far þú hédan og þángad, og mundi þad fara, og eckért mundi ydur ómögulegt vera. En þetta kyn rekst eigi út nema med bæn og föstu.

Og b) þeir geingu þadan, og ferdudust um Galíleam, hann vildi og eigi ad þad skyldi nockur vita. Hann kenndi sínum Lærisveinum. a) En sem þeir sýsludu um í Galílea, c) og allir þeir undrudust þad allt, hvad hann gjördi, l) sagdi Jesús til sinna Lærisveina: e) takid þessa rædu í ydar eyru, l) þvíad eptirkomandi er þad Mannsins Sonur mun ofurseldur verda í manna hendur, e) og þeir munu lífláta hann b) og þá hann er aflífadur, a) mun hann uppríſa á þridja deigi.

h) En þeir undirstódu eigi þad ord, c) og þad var hulid fyrir þeim, svo ad þeir skildu þad eigi, og þeir óttudust ad spyrja hann ad því sama ordi, a) og þeir urdu næsta hryggvir. b) Og hann kom til Capernaum. a) Og er þeir komu (þángad) geingu þeir ad Pétri sem skattgjaldid uppbáru, og segdu: ydar Meistari, plagar hann eigi ad gjalda skatt?

hann sagdi: já. Og er hann kom heim, kom Jesús fyrr ad honum og sagdi: hvad lýst þér Símon, af hvørjum taka jardlegir kóngar toll edur skatt-pening? af sínum børnum, edur af annarlegum? Pétur sagdi til hans: af annarlegum; Jesús sagdi þá til hans: þá eru bernin frí. En svo ad vér séum þeim ei ad hneixlan, þá far til sjáfar, og kasta út aunglinum, og þann fisk sem fyrstur kémur upp, tak hann, og er þú opnar hans gin, muntu finna Stater, þá sømu tak þú og géf honum fyrir mig og þig.

## 13. Kapítuli.

Kristur tekur sínum Lærisveinum vara fyrir hofmód, metordagyrnd og hneixli smælinganna, og kénnir hvørnin náúnginn eigi hóflega ad straffast, hvar og svo er innfært um þann sem djøfla útrak í nafni Kristi, en ecki eptirfylgdi Kristó. Item spurníng S. Péturs, hvad opt hann skyldi fyrirgéfa sínum brédur, og svar Kristí þar uppá, og eptirlikíng af þeim tveimur skuldbundnu þjónum. Matth. 18. Marc. 9. Lúc. 9.

En c) sá þánki kom þeirra á milli, hvør þeirra mundi mestur vera. Og þá er Jesús sá þeirra hjartans þánka, b) og sem hann var heima, spurdi hann þá ad, hvad handtérudnd þér ydur á milli á veiginum? en þeir þøgdu, þvíad þeir høfdu handtérad um á veiginum hvør þeirra mestur væri. Og hann setti sig, og kalladi þá tólf. a) Á þeirri sømu

stundu geingu Lærisveinarnir til Jesúm og sögdu: hvør er mestur í himnaríki? b) og hann sagdi til þeirra: ef nockur vill fyrstur vera, sá skal öllum sídastur vera, og allra þjón. l) Jesús kalladi og tók eitt barn til sín, og setti þad hjá sér, midt á millum þeirra. b) Og hann fadmadi þad og sagdi til þeirra: a) sannlega seigi eg ydur, nema þér snúist og verdid svo sem smá-börn, munud þér eigi koma í himnaríki. Hvør sjálfur sig lækar svo sem barn þetta, sá er mestur í himnaríki. Og hvør sem medtekur e) þetta barn (edur) eitt c) þvílíkt barnkorn l) í mínu nafni, sá medtekur mig, h) og hvør helst hann medtekur mig, sá medtekur ei mig, heldur þann sem mig sendi. c) En sá ydar sem minnstur er allra, hann mun mikill verda. h) Og Jóhannis svaradi honum þá og sagdi: Meistari! vér sáum einn þann, sem rak út djöfla í þínu nafni, hvør ed ei fylgir oss eptir, og vær fyrirbudum honum þad, af því hann fylgdi oss ei eptir. En Jesús sagdi til hans: eigi skulud þér fyrirbjóda honum þad, b) þvíad einginn er sá, ef hann gjörir kraptaverk í mínu nafni, ad hann kunni þá strax ílla ad tala um mig, h) þvíad hvør hann er eigi á móti oss, hann er med oss.

Hvør b) sem ydur géfur ad drecka, einn bikar vatns í mínu nafni, af því þér erud Kristí, sannlega þá seigi eg ydur, ad þad skal honum ei ólaunad verda. e) Og hvør hann hneixlar einn af þessum smáu sem á mig trúa, þarfara væri honum ad millu-steinn heingdist um háls honum og væri í sjó söcktur þar hann er djúpastur. a) Vei sé heiminum fyrir hneixlanir, þar hljóta þó hneixlanir ad koma. En þó sé

vei þeim manni fyrir hvørn ad hneixlanin kémur, c) og ef þín hønd hneixlar þig, þá høgg hana af a) og snara frá þér, e) betra er þér handarvana inn ad gánga til lífsins, enn hafandi tvær hendur og fara til helvítis, í þann eilífa eld; hvar ed þeirra madkur deyr eigi, og þar þeirra eldur slocknar ecki. Og ef þig hneixlar fótur þinn, þá høgg hann af og snara frá þér, betra er þér holltum inn ad gánga til lífsins, enn þad þú hafir tvo fætur og kastist í helvíti, í þann eilífa eld, hvar ed þeirra ormur deyr eigi, og þeirra eldur slocknar eigi. Og ef auga þitt hneixlar þig þá slít þad út, og snara því frá þér, betra er þér eineygdum inn ad gánga í Guds ríki, enn ad þú hafir tvø augu og kastist í helvítskann eld, hvar ed þeirra ormur deyr eigi, og þar þeirra eldur slocknar eigi. b) Allt hlítur med eldi ad saltast, og hvørt offur skal med salti saltast. Saltid er gott, en ef saltid dofnar, med hvørju skulud þér þá salta þad? hafid þér saltid med ydur, og hafid þér frid hvor vid annann. a) Sjáid til! ad þér forsmáid eigi einn af þessum smælíngjum, þvíad eg seigi ydur: ad þeirra Englar á himnum sjá alltíd míns Fødurs auglit á himnum. Þvíad Mannsins Son er kominn ad gjøra hólpid hvad fortapad var. Hvad virdist ydur, ef einhvør madur hefur hundrad sauda, og villist einn af þeim? skilst hann eigi vid þá níu og níutýgir á fjøllum uppi, og fer ad leita ad þeim sem villtist? og ef svo skér ad hann finnur hann. Sannlega seigi eg ydur, ad hann fagnar meir yfir honum, enn yfir hinum níu og níutýgir, sem ei villtust. Svo er eigi vilji Fødurs ydar sem á himnum er, ad einn af þessum smáu tapist.

En ef bróðir þinn brítur við þig, far þú og ſtraffa hann á millum þín og hans einſamans, ef hann heyrir þig, þá hefur þú þinn bróður unnið. En ef hann heyrir þig eigi, þá tak einn eður tvo til þín, ſvo að í munni tveggja eður þriggja votta, ſtandi øll málefni. Nú ef hann heyrir eigi þeim, þá ſeig það ſamkundunni. En ef hann heyrir ei ſamkundunni, þá haldt hann ſem annann heiðíngja og tollheimtumann, ſannlega ſeigi eg yður: hvað helſt þér bindið á jørðu, ſkal á himnum bundið vera, og hvað helſt þér leyſ=ið á jørðu, ſkal leyſt vera á himni. Framveigis ſeigi eg yður það: ef tveir af yður ſamtaka á jørðu, um hvørn hlutſem það er, að þeir vilja biðja, ſkal þeim veitt vera af mínum Føður ſem á himnum er. Því=að hvar tveir eða þrír ſamanſafnaðir eru í mínu nafni, þar em eg miðt á millum þeirra.

Þá géck Pétur til hans og ſagði: Herra! hvørſu opt ſkal eg mínum bróður, þeim ſem við mig brítur, fyrirgéfa? er það nóg ſjø ſinnum? Jeſús ſagði til hans: eg ſeigi þér, eigi ſjø ſinnum, heldur ſjøtýgi ſinnum ſjø ſinnum.

Fyrir því er himnaríki líkt þeim Kóngi ſem reikna vildi við þjóna ſína. Og er hann tók til að reikna, kom einn fyrir hann, ſá er honum var ſkyldugur um tíu þúſund punda. En þá hann hafði ei til hvað hann ſkyldi gjalda, bauð herrann að ſelja hann og hans húſfrú og hans børn, og allt hvað hann átti, og borga með. Þá féll ſá þjón fram, tilbað hann og ſagði: herra! haf þolinmæði við mig, allt ſkal eg þér gjalda. Þá ſá herrann aumur á þeim þjón, og lét hann lauſann, og gaf honum einninn upp ſkuldina. Þá geck ſá ſami

þjón út, og fann einn af sínum samlags þjónum, sá var honum hundrað penínga skyldugur, og hann greip hann og tók fyrir qverkar hans og sagdi: gjald mér hvad þú ert mér skyldugur. Þá féll hans samlags þjón fram, bad hann og sagdi: haf þolinmædi vid mig, því allt skal eg þér gjalda. En hann vildi eigi, heldur fór hann til og lét hann í díblissu, þar til hann hafdi borgad þad hann var skyldugur. En er hans samþjónar sáu hvad skédi, urdu þeir miøg hryggvir vid, komu og undirvísudu sínum herra allt hvad gjørst hafdi. Þá kalladi hans herra hann fyrir sig, og sagdi til hans: þú hin vondi þjón, alla þessa skuld gaf eg þér til, med því þú badst mig. Skyldir þú þá eigi miskunsamur vera vid þinn samlags þjón, líka sem eg var þér miskunsamur? og hans herra vard reidur, og ofurseldi hann qvølurunum þángad til ad hann borgadi allt hvad hann var skyldugur. Svo mun og minn himneskur Fadir gjøra vid ydur, ef þér fyrirgéfid eigi af ydrum hjørtum hvør einn sínum bródur hans misgjørdir.

## 14. Kapítuli.

Um þad hvørnin ad brædur Kristi eggjudu hann á ad ferdast til Jerúsalem, til tjaldbúdar (edur laufskála) hátídarinnar. Item um hans reisu þángad, og þá þrjá menn sem honum vildu eptirfylgja. Jóhann. 7. Lúc. 9.

Þá d) var og nálæg hátíd Gydínga, sem var Laufskálanna tilbúnadur. Brædur hans søgdu þá til

hans: tak þig upp og gack til Júda-lands, svo að þínir lærisveinar sjái einninn þau verk er þú gjörir. Þvíað sannlega gjörir einginn sá nockuð leinilega, sem sjálfur hann eptirleitar kunnur að verða. Ef þú gjörir það, þá opinbera þú þig fyrir heiminum. Því hans bræður trúðu ei heldur á hann. Jesús sagði þá til þeirra: minn tími er enn eigi kominn, en yðar tími er jafnan. Heimurinn fær yður ei hatað, en mig hatar hann, þvíað eg ber vitnisburð af honum, það hans verk eru vond. Farið þér upp til þessarar hátíðar, eg vil enn ei fara upp til þessarar hátíðar, þvíað minn tími er enn eigi uppfylldur. En þá hann hafði sagt þeim þetta, varð hann eptir í Galílea.

En c) það skéði þá tíminn fullkomnaðist er hann skyldi takast burt héðan, snéri hann sínni ásjón til að gánga strax til Jerúsalem, og hann lét sendiboða fara fyrir sínni augsýn. Þeir fóru og komu inn í samverskt kauptún, að útvega honum herbergi. En þeir tóku eigi við honum, af því hann hafði snúið sínni ásján að reisa upp til Jerúsalem. En er hans Lærisveinar Jacobus og Jóhannis sán það, sögðu þeir: Herra! villtu, þá viljum vér seigia að eldur falli af himni, og fortæri þeim, líka sem að Elías gjörði? en Jesús sneri sér við, hastaði á þá og sagði: vitið þér eigi hvörs anda synir þér eruð? Mannsins Sonur er ei kominn til þess að fyrirfara sálum manna, heldur þær að frelsa. Og þeir geingu í annað kauptún.

Nú d) sem hans bræður voru uppfarnir, þá fór hann og sjálfur upp til hátíðarinnar, eigi opinberlega, heldur svo sem á laun. e) Og það skéði er þeir voru á veiginum, að einn sagði til hans: eg vil

fylgja þér eptir, hvørt helst þú fer. Jesús sagdi til hans: refar hafa holur, og fuglar himins hreidur, en Mannsins Son hefur eigi, hvar hann meigi sínu høfdi ad halla. Hann sagdi þá til eins annars: fylg þú mér eptir, en sá sagdi: Herra! lofa mér fyrst ad gánga og grafa fødur minn, Jesús sagdi til hans: lát þá daudu grafa sína dautu, en þú gack og boda Guds ríki. Og annar sagdi: Herra! eg vil þér eptirfylgja, en lofa mér fyrst ad seigja þeim mína burtfør sem eru í mínu húsi. Jesús sagdi til hans: hvør sem leggur sína hønd á plóginn, og lítur á bak sér aptur, er ei hæfilegur til Guds ríkis.

## 15. Kapítuli.

### Um útsendíng þeirra sjøtíu Lærisveína og kénníng Kristi í Musterinu á Tjaldbúdar hátídinni.

Lúc. 10. Jóh. 7.

Þar c) eptir útvaldi Drottinn og adra sjøtíu, og sendi þá út tvo og tvo fyrir sér í allar þær borgir og álfur er hann vildi koma, og sagdi til þeirra: ad sønnu er kornskéran mikil, en verkamennirnir fáir, því bidjid herrann kornskérunnar, ad hann sendi verkmenn í sína kornskéru. Farid út, sjáid eg sendi ydur svo sem lømb á medal varga. Berid eigi púng né tøsku, og eigi skó, heilsid og aungvum á veigi. Hvar þér komid í eitt hús, þá seigid fyrst, fridur sé í þessu húsi. Og ef þar er barn fridarins, þá skal ydar fridur hvílast yfir honum, en ef eigi er, þá mun ydar fridur snúast til ydar aptur. Blífid í því sama húsi, etid og drekid

hvad þeir hafa, þvíad verdur er verkmadurinn sinna launa. Eigi skulud þér ráfa hús af húsi. Og í hvørja borg sem þér inngángid, og þeir medtaka ydur, þá etid þad sem fyrir ydur verdur framsett. Og læknid sjúka þá sem þar eru, og seigid þeim, Guds ríki er nálægt komid ydur. En ef þér gángid í nockra borg þar þeir medtaka ydur ei, gángid úti á hennar stræti og seigid: einninn þad dupt sem loddi á oss úr ydvarri borg, hristum vær af á ydur, þó skulud þér vita ad Guds ríki var nálægt ydur. Eg seigi ydur: þad Sódóma mun bærilegra vera á þeim deigi, enn þeirri borg.

Vei þér Chorazín! vei þér Bethsaida! þvíad ef skéd hefdi í Týró og Sídon svoddan furduverk, sem hjá ydur hafa skéd, hefdi þeir fordum setid í seck og øsku, og gjort svo ydran. Þó mun Týró og Sídóne bærilegra vera á dóminum enn ydur. Og þú Capernaum sem upphafin ert til himins, munt niðurþryckjast allt til helvítis. Hvør ydur heyrir, hann heyrir mér, og hvør ydur forsmár, hann forsmáir mig. En hvør mig forsmáir, hann forsmáir þann er mig sendi.

Júdar d) leitudu þá ad honum um hátídina, og søgdu: hvar er hann? og mikill kritur var í lýdnum um hann. Sumir søgdu: gódur er hann, en adrir søgdu: nei, heldur leidir hann lýdinn afvega. En enginn taladi þó bert um hann, fyrir hrædslusakir vid Gydínga.

En ad hálfnadri hátídinni, sté Jesús upp í Musterid, og kénndi. Júdar undrudust, svo seigjandi: hvørnin kann þessi Ritníngarnar, med því ad hann lærdi þærei? Jesús svaradi þeim og sagdi:

minn lærdómur er ei minn, heldur hans er mig sendi. Ef sá er nockur sem gjøra vill hans vilja, hann reynir hvørt þessi lærdómur er af Gudi, eda hvort eg tala af sjálfum mér. Hvør sem af sjálfum sér talar, sá leitar sinnar eigin dýrdar, en hvør hann leitar þess dýrdar sem hann sendi, hann er sannordur, og eckért ránglæti er med honum. Gaf Móýses ydur ei løg, og einginn ydar heldur løgin? edur því sækid þér eptir ad lífláta mig? lýdurinn svaradi og sagdi: Djøfulinn hefur þú, hvør sækir ad lífláta þig? Jesús svaradi og sagdi: eitt verk gjørda eg, og þad undrist þér allir. Móýses gaf ydur því umskurnina, eigi þad hún væri af Móýse komin, heldur af forfedrunum, og þó umskérid þér mann enn á Sabbatsdeigi. Nú ef madurinn medtekur umskurnina á Sabbatsdeigi, svo ad eigi brjótist Móýsis løgmál, en þér reidist þó vid mig, þad eg gjørdi allann manninn heilann á Sabbatsdeigi. Þér skulud eigi dæma eptir ásýnd, heldur dæmid réttann dóm.

Þá søgdu nockrir af Jerúsalem: er þad ecki sá sem þeir sóktu til ad lífláta? Sjáid! nú talar hann opinberlega, og þeir seiga eckért til hans, eda vita vorir høfdingjar þad víst, ad þessi er sannur Kristur? en vér vitum þó hvadan hann er, en þá Kristur kémur, veit einginn hvadan hann er. Þá kalladi Jesús í Musterinu kénnandi, og seigjandi: þér þeckid mig, og vitid hvadan eg em, og eg kom eigi af sjálfum mér, heldur er hann sannordur sá mig sendi, hvørn þér þeckid ei. En eg þecki hann, þvíad eg em af honum, og hann hefur útsendt mig. Þá sóktu þeir eptir ad grípa hann, en einginn lagdi

þó höndur á hann, því að eigi var hans tími enn kom-
inn. En margt af fólkinu trúdi á hann, og sögdu:
þá Kristur kémur, mun hann gjöra nockud fleiri teikn
enn þessi gjörir?

Og þad kom fyrir Pharíséana, ad fólkid kritti
þetta um hann, þá sendu Presta-höfdíngjar og Phari-
sei, þénara út, ad þeir handtæki hann. Jesús sagdi
til þeirra: litla stund em eg enn hjá ydur, og þá
fer eg til hans sem mig sendi. Þér munud leita
mín, og finna mig ei, og þar sem eg er, þángad
fáid þér ei ad koma. Þá sögdu Gydíngar sín á
milli: hvört vill hann fara svo vér finnum hann ecki?
eda vill hann gánga á medal Grýckja, sem hingad
og þángad sundurdreifdir liggja, og kénna Grýckjum?
hvad fyrir ræda er þad sem hann sagdi? þér leitid
mín og finnid ecki, og þar sem eg er, þángad fá-
id þér ei ad koma.

## 16. Kapítuli.

### Um þad er vidbar á sídasta deigi tjald-búdar-hátídarinnar. Item um hór-konuna sem Pharisei leiddu fyrir Kristum. Jóhann. 7. og 8.

En á sídasta deigi hátídarinnar, sem var vegleg-
astur, gékk Jesús upp og kalladi, svo seig-
jandi: ef nockurn þyrstir, komi hann til mín, og
drecki. Hvör hann trúir á mig, svo sem Ritníngin
seigir: af hans qvidi skulu framfljóta straumar
lifanda vatns.

En þetta sagdi hann um þann Anda, hvörn
þeir skyldu medtaka, sem á hann trydu, því heilag-

ur Andi var þar ei enn, þvíad Jesús var enn eigi auglýstur. Og margir af lýdnum sem heyrdu þessa hans rædu, sögdu: þessi er sannur Spámadur. Adrir sögdu: hann er Kristur, en sumir sögdu: skal Kristur nockud koma af Galílea? seigir eigi Ritníngin, ad Kristur komi af Davíds-sædi, og úr stadnum Bethlehem, þar sem Davíd var? svo vard ein tvídrægni med fólkinu um hann. En nockrir af þeim vildu hafa gripid hann, en einginn lagdi þó hendur á hann.

Pénararnir komu aptur til þeirra yppurstú Presta og Pharíseanna, og þeir sögdu til þeirra: því hafid þér hann eigi híngad? þénararnir svörudu: þar hefur aldrei nockur madur svo talad sem þessi madur. Pá svörudu Pharísei þeim: hvört erud þér og villtir? trúir nockur Höfdíngjanna edur af Pharíseis á hann? heldur þad fólk sem eckért veit af Lögmálinu, er bölvad. Nicódemus sagdi til þeirra: sá sem kom til hans um nótt, hvör ed var einn af þeim. Dæmir vort Lögmál nockud manninn, nema hann sé fyrrt ransakadur, hvad hann gjörir? þeir svörudu og sögdu til hans: ertu og svo einn af Galíleis? ransaka þú og skoda þad, af Galílea rís ecki Spámadur upp. Og hvör géck svo heim.

Og Jesús géck þá til olíu-fjallsins, og snemma ad morgni kom hann aptur í Musterid og allt fólkid kom til hans, og hann setti sig og kénndi þeim. En hinir Skriftlærdu og Pharísearnir leiddu fram fyrir hann þá konu, sem í hórdómi var gripin, og settu hana þar í midid, og sögdu til hans: Meistari! þessi kona er nú gripin ad ferskum gjörníngi í hórdómi, en Móýses bídur oss í Lög-

mdlinu, ad berja þesshåttar menn grjóti; eda hvad seigir þú til? en þetta sögdu þeir, ad þeir freistudu hans, ad þeir mættu svo hafa ákjæru til hans; en Jésús laut nidur og ritadi med fíngrinum á jørdina. Og sem þeir létu ei af ad spyrja hann, þá rétti hann sig upp, og sagdi til þeirra: hvør ydar sem er án syndar, kasti sá fyrsta steini á hana. Þá laut hann nidur aptur, og ritadi á jørdina; Þá þeir heyrdu þetta, geingu þeir út, einn eptir ødrum, fyrst Öldúngarnir. Jesús var þá einn eptir, og konan þar standandi. En Jesús rétti sig upp, og er hann sá þar aungvann nema konuna; sagdi hann til hennar: kona! hvar eru þeir sem þig áklaga? hefur einginn fordæmt þig? en hún sagdi: Herra! einginn. Jesús sagdi: svo fordæmi eg þig og ecki heldur, gack hédan, og syndga nú ei optar hédan af.

## 17. Kapítuli.

### Prédikun Kristi um sína persónu, og Gydínganna blindleika og hreckvísi.
Jóhann. 8.

Jesús taladi enn aptur til þeirra, og sagdi: eg em ljós heimsins, hvør hann fylgir mér eptir, sá mun ei gánga í myrkrunum, heldur skal hann hafa ljós lífsins.

Þá søgdu Pharíseí til hans: þú ber vitni af sjálfum þér, þinn vitnisburdur er eigi sannur. Jesús svaradi, og sagdi til þeirra: ef eg ber af sjálfum mér vitni, þá er minn vitnisburdur sannur, því eg veit hvadan eg kom, og hvørt ad eg fer. En þér vitid eigi hvadan eg kom, eda hvørt eg fer. Þér dæm-

id eptir holdinu, eg dæmi aungvann, en ef eg dæmi, þá er minn Dómur réttur, þvíad eg er ei einsamall, heldur eg og Fadirinn, er mig sendi. Svó er og skrifad i lögum ydar, ad tveggja manna vitnisburdur sé sannur. Eg em sá sem af sjálfum mér ber vitni, og Fadirinn sá mig sendi, hann ber af mér vitni. Þá sögdu þeir til hans: hvar er þinn Fadir? Jesús svaradi: eigi þeckid þér mig né minn Födur. Ef þér þecktud mig, þá þecktud þér líka minn Födur.

Þessi ord taladi Jesús vid Guds kistuna, þá hann kénndi í Musterinu, og einginn tók hann, því hans stund var enn ei komin.

Þá sagdi Jesús aptur til þeirra: eg fer burt, og þér munud leita mín, og í syndum ydar deyá, hvört eg fer; þángad kunnid þér ei ad koma. Þá sögdu Gydíngar, mun hann þá vilja drepa sjálfann sig, þad hann seigir: hvört ad eg fer, þángad kunnid þér ei ad koma; þá sagdi hann þeim: þér erud hér nedan ad, eg em ad ofan, þér erud af þessum heimi, eg em ei af þessum heimi, því sagdi eg ydur: ad þér mundud deyá í ydrum syndum, því ef þér trúid ei ad eg sé hann, þá munud þér deya í ydrum syndum. Þá sögdu þeir til hans: hvör ert þú þá? Jesús sagdi til þeirra: fyrst sá, eg sem tala vid ydur. Margt hef eg ad tala og dæma um ydur, en sá mig sendi, hann er sannordur, og hvad eg heyrdi af honum, þad tala eg fyrir heiminum. En þeir skildu eigi ad hann sagdi þeim af Födurnum; þá sagdi Jesús til þeirra: nær þér upphefjid Mannsins Són, þá skulud þér skilja, ad eg sé hann, og af mér sjálfum gjöri eg eckért, heldur eins og mér

kénndi minn Fadir, svo tala eg. Og sá er mig sendi, hann er med mér; Fadirinn lét mig ei einsamann, því ad eg gjöri jafnan þad honum er þægt. Þá hann sagdi þetta, trúdu margir á hann.

Þá taladi Jesús til þeirra Gydínga sem á hann trúdu: ef þér blífid vid mína rædu, þá erud þér mínir sannir Lærisveinar; og þá þeckji þér sannleikinn, og sannleikurinn mun frelsa ydur. Þá svörudu þeir honum: vér erum Abrahams sædi, og aldrei hofum vér nockurs manns þrælar verid; hvornin seigir þú, þér skulud frjálsir verda? Jesús svaradi þeim og sagdi: sannlega, sannlega seigi eg ydur, hvör helst sem syndina gjörir, sá er syndarinnar þræll. Þrællinn blífur ei eilíflega í húsinu, en Sonurinn blífur þar eilíflega. Nú ef Sonurinn frelsar ydur, þá erud þér réttilega frelsadir. Eg veit vel ad þér erud Abrahams sædi, en þér sækid til ad deyda mig, því ad mín ræda hefur ecki rúm í ydur. Eg tala þad sem eg sjed hefi, af mínum Födur; og hvad þér sáud hjá ydrum födur, þad gjörid þér. Þeir svörudu og sögdu til hans: Abraham er vor fadir, þá sagdi Jesús þeim: ef þér værud Abrahams born, þá gjördud þér Abrahams verk. En nú leitid þér eptir ad lifláta mig, þann mann þó, sem sannleikann seigir ydur, þann eg heyrdi af Gudi, þetta gjördi eigi Abraham. Þér gjörid ydar Födurs verk; þá svörudu þeir: eigi erum vér fyrir útan ecktaskap föddir, einn Gud hofum vér fyrir Födur. Jesús sagdi til þeirra: ef Gud væri ydar Fadir, þá elskudud þér mig, því eg em af Gudi kominn og framgeingin, því eigi kom eg af sjálfum mér, heldur sendi hann mig. Fyrir því þeckid þér þá ecki mitt mál,

af því þér getid ei heyrt mín ord. Þér erud af Fødurnum fjanda, og eptir gyrndum ydars fødurs, þá viljid þér gjøra, hann var einn mordíngi þegar ad upphafi, og eigi stód hann í sannleikanum, því ad sannleikurinn er eigi í honum, þá hann talar lýgi, talar hann af sínu eigin, því hann er einn ljúgari, og hennar fadir. En mér, af því eg segi sannleikann, þá viljid þér eigi trúa.

Hvør ydar kann ad bevísa uppá mig nockra synd, nú ef eg segi sannleikinn, því trúid þér mér þá eigi? hvør hann er af Gudi, sá heyrir Guds ord, af því heyrid þér eigi, ad þér erud eigi af Gudi. Þá svørudu Júdar og søgdu honum: segjum vér ecki rétt, ad þú ert Samverskur, og hefur djøfulinn? Jesús svaradi: eg hefi aungvann djøful, heldur vegsama eg Fødur minn, og þér vanheidrid mig. Eg leita ei ad minni dýrd, sá er sem ad henni leitar og dæmir. Sannlega, sannlega segi eg ydur, ef nockur er sá sem heldur mín ord, hann mun ei sjá daudann ad eilífu. Þá søgdu Júdar vid hann: nú þeckjum vér ad þú hefur djøfulinn, Abraham er daudur og Spámennirnir, og þú segir: ef nockur er sá sem geymir mín ord, hann mun eigi dáudann smacka ad eilífu. Edur ertú meiri fødur vorum Abraham, hvør framlidinn er, og Spámennirnir eru og framlidnir; hvøru gjørir þú sjálfann þig? Jesús svaradi: ef eg vegsama mig sjálfur, þá er mín dýrd eingin, þar er minn Fadir, sá mig vegsamar, hvørn þér segid ydvarn Gud vera, og þeckid hann þó ei, en eg þecki hann, og ef eg segdi þad eg þeckti hann eigi, þá væri eg einn ljúgari líkur ydur, heldur þecki eg hann, og held hans ord. Abraham fadir ydar

gladdíſt, ad hann ſkyldi ſjá minn dag, og hann ſá hann, og vard gladur vid. Þá ſøgdu Júdar til hans: þú ert enn eigi fimtugur, þó ſáſtu Abraham. Jeſús ſagdi til þeirra: ſannlega, ſannlega ſeigi eg ydur, ádur enn Abraham var, em eg. Þá tóku þeir upp ſteina ad þeir køſtudu á hann; en Jeſús fordadi ſér, og géck úr Muſterinu, og géck midt út í millum þeirra, og komſt ſvo undan.

## 18. Kapítuli.

Um apturkomu þeirra ſjøtiu Lærifveina, og þeirra erindislok, hvar af Jeſús gladdíſt í anda. Item um ſpurníng logvitríngsins, ſvar Kríſti þar uppá, og eptirlikíng um þann er hraſadur var milli ræníngja, og giſtíng Kriſti hjá Martha. Lúc 10.

En þeir ſjøtíu komu aptur med fagnadi, og ſøgdu: Herra! þar eru einninn djøflar oſs undirgéfnir í þínu nafni. Hann ſagdi til þeirra: eg ſá Satan ſvo ſem eldíng hrapa af himni, ſjáid! eg heſi géfid ydur vald til ad ſtíga uppá høggorma og ſkorpíóna, og yfir allann krapt óvinarins, og ydur mun eckért granda meiga. En þó ſkulud þér eigi gledjaſt af þeſsu, þad andarnir eru ydur undirgéfnir, heldur gledjid ydur af því, þad ydar nøfn eru ſkrifud á himnum.

Og ſamſtundis gladdiſt Jeſús í anda, og ſagdi: eg príſa þig Fadir og Drottinn himins og jardar, ad þú huldir þetta fyrir ſpekíngum og vitríngum og opinberadir þetta ſmælíngjum, ad ſønnu Fadir,

þvíad svo þóknadist þad fyrir þér. Allir hlutir eru mér í hendur géfnir af mínum Födur, og einginn veit hvør ed Sonurinn er, nema Fadirinn, eda hvør ed Fadirinn sé nema Sonurinn, og hvørjum ed Sonurinn vill þad opinbera.

Og hann snérist til sinna Lærisveina, og sagdi sérdeilislega: sæl eru þau augu sem sjá hvad þér sjáid; þvíad eg segi ydur: þad margir Spámenn og Kóngar vildu hafa séd hvad þér sjáid, og sáu þad eigi, og heyra hvad þér heyrid, og heyrdu þad eigi.

Og sjá! ad nockur løgvitríngur stód upp, freistadi hans og sagdi: Meistari! hvad skal eg gjøra, svo ad eg erfi eilíft líf? hann sagdi til hans: hvørninn stendur skrifad í løgmálinu? hvørnin les þú? hann svaradi og sagdi: elska skaltu Drottinn Gud þinn af øllu hjarta, og af allri ønd, og af øllum mætti, og af øllu hugskoti, og náúnga þinn sem sjálfann þig. Hann sagdi þá til hans: rétt svaradir þú, gjør þad og muntu lifa. En hann vildi réttlæta sjálfann sig, og sagdi til Jesú: hvør er þá minn náúngi? en Jesús svaradi og sagdi: madur nockur fór frá Jerúsalem ofan til Jeríchó, og hrasadi bland ræníngja, hvørjir ed flettu hann klædum, og slóu hann, geingu burt, og létu hann þar eptir halfdaudann liggja. En svo bar til óvart, ad einn Prestur fór ofan sama veg, og er hann leit hann géck hann fram hjá honum. Líka og Levítinn, þá hann kom nær þeim stad, og er hann sá hann, géck hann og fram hjá. En einn Samverskur madur ferdadist og kom þángad, og er hann leit hann, sá hann aumur á honum, géck ad honum og batt um sár hans, hellandi í þau vidsmjøri og víni, og lagdi hann á

sinn eik, og flutti til herbergis, gaf og gjætur ad honum. En annars dags ferdadist hann burt, og tók upp tvo penínga, og fékk húsbúandanum, og sagdi: haf gát á hónum, og hvad helst þú leggur meira út, þá skal eg borga þér, nær eg kém aptur. Hvør þeirra þriggja sýnist þér vera þess náúngi sem hrasadur var í bland ræníngjanna? en hann sagdi: sá er miskunsemdina gjørdi á honum; þá sagdi Jesús til hans: far þú þá og gjør slíkt hid sama.

En þad skédi, þá þeir ferdudust, ad hann gékk inn í eitt kauptún, þar var ein qvinna er Martha hét, hún medtók hann í sitt hús. Og hún átti þá systir er María hét, hvør ed setti sig fyrir fætur Jesú, og heyrdi hans ord. En Martha braust mjög fyrir ad þjóna honum. Hún gékk ad og sagdi: Herra! hirdir þú ei um þad, ad systir mín lætur mig einsamla þjóna? seig henni ad hún taki hendi til med. En Jesús svaradi og sagdi til hennar: Martha! Martha! þú ert svo áhyggjufull, og mædist í mørgu. Eitt er naudsynlegt, María hefur kjørid sér þad góda hlutskipti, hvad eigi skal frá henni takast.

## 19. Kapítuli.

Hvørnin Kristur kénndi sínum Lærisveinum ad bidja, og gaf þeim bænarformid. Item um útrekníng djøfuls þess er dumbi var. Lúc. 11.

Og þad skédi, ad hann var í nockrum stad ad bidjast fyrir, og er hann gaf upp, þá sagdi einn af hans Lærisveinum til hans: Herra! kénn þú oss ad bidja, líka sem Jóhannes kénndi sínum Lærisveinum,

Hann sagdi þá til þeirra: nær þér bidjid, seigid: Fadir vor! á himnum. Helgist þitt nafn. Tilkomi þitt ríki. Verdi þinn vilji, svo á jördu sem á himnum. Géf oss hvøru dag vort daglegt braud. Og fyrirgéf oss vorar syndir, því vær fyrirgéfum og svo øllum þeim sem oss eru skyldugir. Og leid oss ecki í freistni, heldur frelsa oss frá illu.

Og hann sagdi til þeirra: hvor er ydar sem hefur einn vin, og fer til hans um midnætti, og seigir honum: gódi vinur! lána mér þrjú braud, þvíad vinur minn er kominn af leid til mín, og eg hefi ei, þad eg meigi fram fyrir hann setja. Og hinn sem fyrir innan er, svarar og seigir: gjør mér ei ónád, því dyr eru nú luktar, og børn mín eru í svefn-húsi hjá mér, og eigi gét eg uppstadid, ad fá þér þau? eg seigi ydur: ef hann stendur eigi upp, og fær honum þau, fyrir þad ad hann er hans vinur, þá mun hann þó fyrir sakir hans leidinlegrar brekunar uppstanda, og fá honum svo mikid sem hann þarf.

Og eg seigi ydur einnin: bidjid og mun ydur géfast, og leitid ad, og munud þér finna, knýid á, og mun fyrir ydur upplokid verda, þvíad hvør ed bidur, hann mun ødlast, hvør ed leitar, hann finnur, og hvør ed áknýr, fyrir honum lýkst upp. En hvar bidur ydar á medal einn Sonur Fødurinn um braud, ad hann bjódi honum stein þar fyrir? eda bidji hann um fisk, ad hann bjódi honum einn høggorm fyrir fisk? eda ef hann bidur um egg, ad hann bjódi honum Scorpíón þar fyrir? nú med því þér sem vondir erud, kunnid gódar gjafir ad géfa børnum ydar, miklu meir þá mun Fadirinn á himnum géfa þeim heilagann Anda er hann bidja.

Og hann rak út djøful þaun er málláus var, og það skédi er djøfullinn var útfarinn, að hinn málláusi taladi, og fólkið undradist það. En nockrir af þeim sögdu: fyrir Belzebub djøfla høfdíngja, þá rekur hann djøfla út. Adrir freistudu hans, og gyrntust af honum teikn af himni, en hann formerkti þá þeirra hugrenníngar og sagdi til þeirra: hvørt ríki sem í sjálfu sér er sundurþyckt, það mun eydast, og hvørt hús mun yfir annað hrapa, og ef Andskotinn er í sjálfum sér sundurþyckur, hvørnin má hans ríki þá standast? fyrst þér seigid mig fyrir Belzibub útreka djøfla. Og ef eg á fyrir Belzibub djøfla út að reka, fyrir hvørn útreka þá ydar børn þá? fyrir því skulu þeir verda og ydar dómendur. En ef eg rek út djøfla fyrir Guds fíngur, að sønnu kémur þá Guds ríki til ydar. Nær ed sterkur hervopnadur varðveitir sína høll, þá er allt með mak hvað hann á. En þá er annar honum ýfirsterkari kémur, og yfirvinnur hann, þá tekur hann hans hardneskju, á hvørja hann treysti, og sundurskiptir herfánginu. Hvør hann er eigi með mér, sá er í móti mér, og hvør hann dregur eigi saman með mér, sá sundurdreifir. Nær óhreinn andi fer af manninum út, ráfar hann um þurra stadi, og leitar að hvíld og finnur ecki, þá seigir hann: eg vil hverfa aptur í hús mitt, hvaðan eg fór út, og er hann kémur, finnur hann það með vendi sópað og prýdt. Þá fer hann, og tekur með sér sjø adra anda sér verri, og er þeir eru þar innkomnir, byggja þeir þar, og verdur svo sídan þess manns hid sídara verra hinu fyrra.

En það skédi er hann svo taladi: hóf nockur

kona á medal fólksins upp sína rødd og sagdi til hans: sæll er sá qvidur er þig bar, og þau brjóst er þú mylkir. En hann sagdi: já, sælir eru þeir sem heyra Guds ord, og vardveita þad.

En er fólkid þreyngdist þar fram ad, tók hann ad seigja: þetta er ein vond kynslód, hún gyrnist teikn, og henni skal eckért teikn géfast nema teikn Jónæ Spámanns. Þvíad líka sem Jónas var teikn Ninive borgarmønnum, svo mun Mannsins Son verda kynslód þessari. Drottningin af Sudri mun gánga upp fyrir dóminn med mønnum þessarar kynslódar, og fordæma þá, þvíad hún kom af ytstum endimørkum veraldar, ad heyra speki Salómonis. Og sjáid! hér er meir enn Salómon. Menn Ninive borgar munu uppgánga fyrir dominn med þessari kynslód, og munu hana fordæma, þvíad þeir gjørdu ydran eptir prédikun Jónæ, og sjáid! hér er meir enn Jónas. Einginn tendrar ljósid, og setur þad í leyni, eda undir mæli-ask, heldur á ljósa-stjakann, svo ad hvør sem inngeingur sjái ljósid. Augad er ljós líkamans, því ef þitt auga er einfalt, svo er þinn líkami allur skjær, en ef auga þitt er skálkur, þá er einninn þinn líkami myrkur. Því sjá svo til, ad ljós þad sem í þér er, sé ei myrkur. Þegar líkami þinn er allur skjær, svo hann hefur ei nockurn part af myrkrinu, svo blífur hann allur skjær, og mun upplýsa þig svo sem ein skjær leyftran.

## 20. Kapítuli.

Um gésta-bod nockurs Phariseara, og þad samtal er þar innféll, hvar

## Kristur ávítar og straffar Pharíseos og Skriftlærda. Lúc. 11.

Og er hann var slíkt ad mæla, þá bad hann nockur Pharíseus ad hann æti middags-verd hjá sér, hann géck inn og setti sig til bordsins. En er Pharísearinn sá þad, undradist hann ad hánn þvódi sér eigi fyrir máltídina. En Drottinn sagdi til hans: þér Pharísei! haldid hid ytra hreinum bikurum og fotum, en ydvart hid innra er fullt med rán og íllsku. Þér heimskir! sá ed gjordi þad sem er hid ytra, gjordi hann ecki þad hid innra? gésid þó ølmusu af því sem þar er; og sjá! þá er ydur þad allt hreint. Vei ydur Pharíseis! sem tíundid myntu, og ruthu, og allt kálgresi og sneidid hjá dómi og Guds kærleika, þetta byrjar ad gjøra, en hitt eigi eptir ad skilja. Vei ydur Pharíseis! sem gjarnán sitjid efst í samkundu-húsum, og viljid fá qvedjur á torgum. Vei sé ydur Skriftlærdum, Pharíseis, þér hræsnarar! því þér erud sem huldar grafir framlidinna, yfir hvørjum ad menn gánga, og þeckja þær eigi.

Þá svaradi nockur Skriftlærdur og sagdi til hans: Meistari! med þessu ordi smánar þú og svo oss. En hann sagdi: og ydur Skriftlærdum sé einninn vei! því þér þjáid menn med byrdum, er þeir géta ei borid; og þér snertid þær eigi med einum fíngri. Vei ydur! þvíad þér uppbyggid Spámanna grafirnar, en fedur ydar líflétu þá. Ad sønnu þá vitnid þér þad, og samsinnid svo verkum ydvarra fedra, þvíad þeir aflífudu þá, en þér uppbyggid leidi þeirra.

Fyrir því seigir spekin Guds: eg vil senda til þeirra Spámenn og Postula, og suma af þeim munu þeir deyda og offækja, svo ad krefjist af þessari kynslód blód allra Spámanna, því úthellt hefur verid frá grundvallan veraldar. Allt frá blódi Abels, og til blóds Zacharíæ, sem deyddur var í milli altaris og Musterisins; já eg seigi ydur: ad þad mun krefjast af þessari kynslód. Vei sé ydur Skriftlærdum! því þér berid lykil vitskunnar, en komid þó eigi sjálfir þar inn, og hamlid þeim er þar vilja inngánga.

En þá hann hafdi þvílíkt til þeirra talad: tóku Skriftlærdir til og Pharísei þúnglega ad þreingja ad honum, og vélsamlega hann ad mørgu ad spyrja. Veitandi honum umsátur og leitudu vid ad jaga þad nockud af hans munni, er þeir mættu hann um kylja.

## 21 Kapítuli.

### Prédikun Kristi fyrir Lærisveinunum og lýdnum, ad varast hræsni og ad óttast ecki líkamlegann dauda, einnin ad sjá vid ágyrnd og ofmiklum áhuga líkamlegrar fædu. Lúc. 12.

Þá þusti fólkid ad, og þar komu margar þúsundir til samans, svo ad hvør trad undir annann, þá hóf hann upp og sagdi til sinna Lærisveina: vaktid ydur fyrir súrdeigi Pharíseórum, hvad ad er hræsni, þvíad eckért er svo hulid, sem eigi skuli verda augljóst, né nockud svo leint ad menn skuli ei fá ad vita. Fyrir því hvad þér seigid í myrkrum, þad mun í ljósi heyrast, og hvad þér í svefnhúsum hvíslid í eyra, mun á ræfrum uppi prédikad.

En eg seigi ydur vinum mínum: hræðist eigi þá sem líkamann aflífa, og eptir það fá þeir ei meira adgjört. En eg vil sýna ydur hvorn þér skulud hrædast, hrædist þann, sem eptir það er hann hefur líflátid, þá hefur hann makt til að kasta í helvíti. Já seigi eg ydur: þá hrædist hann. Seljast eigi fimm Skógarþrestir fyrir tvo penínga, og samt er einn af þeim ecki gleymdur fyrir Gudi? svo eru øll høfudhár ydar talin, fyrir því skulud þér ei óttast, þvíad þér erud dýrri enn margir Skógarþrestir. En eg seigi ydur: hver helst hann vidurkénnir mig fyrir mønnunum, þann mun Mannsins Son vidurkénna fyrir Einglum Guds. En hvør hann afneitar mér fyrir mønnunum, honum mun afneitad verda fyrir Guds Einglum, og hvør ed talar ord í gégn Mannsins Syni, þá mun honum það fyrirgéfast, en hvør hann hædir að heiløgum Anda, honum skal það eigi fyrirgéfast.

En nær þeir leida ydur inn í Samkúnduhús og fyrir valdid, og þá mégtugu, þá verid eigi hugsjúkir um, hvornin eda hvorju þér skulud svara, eda hvad þér skulud seigja, þvíad heilagur Andi mun fræda ydur á sømu stundu, hvad ydur byrjar að seigja.

Þá sagdi einn af fólkinu til hans: Meistari! seig bródur mínum ad hann skipti vid mig arfinum, en hann sagdi hønum: þú madur! hvør setti mig fyrir dómara, eda arfaskiptis mann yfir ydur? og hann sagdi til þeirra: sjáid til! og varid ydur vid ágyrni, þvíad einginn lifir þar af, þad hann hafi mikil audæfi.

Og hann taladi þá eina eptirlíking til þeirra,

og sagdi: ándugur madur nockur var sá hvörs akur ed fært hafdi ávøxt, hann hugsadi med sér og sagdi: hvad skal eg til gjøra? eg hefi eigi þad hvar eg meigi mínum ávexti í safna. Og sagdi: þad vil eg gjøra, eg vil nidurrífa mína hlødu, og gjøra upp adra meiri; og safna þángad øllu því er mér hefur gróid, og mínum audæfum, og þá mun ég segja til sálu minnar: sála mín! þú hefur mikinn forda í mørg ár, hvíl þig nú, et og drek, og vert glød; en Gud sagdi til hans: þú dári! á þessari nótt munu þeir þína sál af þér krefja; hvørs verdur þad þá er þú hefur tilreidt? svo geingur til fyrir þeim er sér draga sjód saman, og eru ei í Gudi ríkir.

Þá sagdi hann til sinna Lærisveina: fyrir því seigi eg ydur, skírid eigi fyrir ydar lífi hvad þér skulud eta, og eigi fyrir líkhama ydar, hvørju hann skuli klædast? Lífid er meira enn fædan, og líkhaminn er meiri enn føtin; hyggid ad hrøfnunum, þeir sá hvørki né uppskéra, eigi hafa þeir hlødu né kjallara, og samt fædir Gud þá. Miklum mun betri erud þér þó fuglunum. En hvør ydar fær med sinni hugsýki, áukid stærd sína um eina álnar lengd? nú ef þér orkid eigi hins minnsta; hvar fyrir skíri þér þá fyrir hinu ødru. Hugleidid liljurnar á mørkinni, hvørnin þær vaxa, þær vinna eigi né spinna; en eg seigi ydur: þad Salómon í allri sinni dýrd, var ei svo skríddur sem ein af þeim. Nú fyrst Gud skrídir svo þad gras sem í dag er á akri, og á morgun verdur í ofninn látid, miklu meir mun hann þá klæda ydur, ó þér lítiltrúadir. Þar fyrir og svo þér, hirdid þar ecki um, hvad þér etid eda drékid, og hefjid ydur ei hátt, þvíad eptir þessu øllu sækja

heidíngjar í veröldinni; en Fadir ydar veit vel ad þér þurfid þessa vid; því leitid fyrst ad Guds ríki, og mun ydur þá þettad allt til falla. Hrædst eigi, þú litla hjörd! því ad þad þóknast Födur ydar ad géfa ydur ríkid. Seljid hvad þér hafid, og géfid ölmusu, gjörid ydur og þá sekki er eigi elldast, og þann sjód er eigi mínkar á himnum, ad hvörjum þjófar fá ei komist, né melur etur, því hvar ydar fésjódur er, þar mun og ydvart hjarta vera.

## 22. Kapítuli.

Sama prédikun Kristí, hvar hann áminnir, ad menn séu vakandi, og bídi eptir Guds ríki, og tilkomu Messíæ og ávitar fólkid fyrir sitt athugaleysi. Lúc. 12.

Látid ydar lendar umgyrdtar vera, og ydvart ljós loga. Og verid líkir þeim mönnum er bída eptir sínum lánar-drottni, hvenær hann muni aptur koma af brullaupum, svo ad þá hann kémur og ber, sé strax fyrir honum upplokid. Sælir eru þeir þjónar, hvörja ed Herrann finnur vakandi, þá hann kemur. Sannlega segi ég ydur: þad hann muni uppsiytta sig og setja þá til bords, og gánga fyrir þeim, og þjóna þeim.

Og ef hann kémur á annari vakt, eda á hinni þridju vakt, og finnur þad líka svo, sælir eru þeir þjónar. En þad skulud þér vita, ad ef húsbóndinn vissi á hvörri stundu ad þjófurinn kjæmi, þá vekti hann, og léti eigi grafast í sitt hús. Fyrir því verid þér og reidubúnir, þvíad Manns-Sonur mun á þeirri stundu koma, er þér ætlid eigi.

Þá sagdi Pétur til hans: Herra! seigir þú þessa eptirlíkíng til vor, eda til allra? en Drottinn sagdi: hvad mikils er verdt um trúann og forsjálann Hússtjórnar-mann, hvørn ed hans herra setur yfir sitt heimkynni, ad hann gefi þeim í réttann tíma, þad sem þeim ber? sæll er sá þjón, sem hans herra finnur svo gjørandi, þá ed hann kémur. Sannlega seigi eg ydur: þad hann mun setja hann yfir allt sitt góz. En ef sá sami þjón seigir í hjarta sínu: herra minn gjørir dvøl á ad koma, og tekur ad berja vinnumenn og ambáttir, og ad eta og drecka, og sig druckinn ad gjøra. Þá mun herrann þess þjóns koma á þeim deigi er hann þeinkir eigi, og á þeirri stundu er hann veit eigi, og hann mun høggva hann í sundur, og leggja honum sín laun med ótrúum. En hvør sá þjón er veit síns herra vilja, og bjó sig eigi til, gjørdi og eigi eptir hans vilja, hann mun líða mørg høgg. En sá hann veit eigi, og gjørir þad hegníngar er verdt, hann mun minni hirtíng fá, þvíad þeim sem mikid er veitt, af honum æskist mikid, og hvørjum mikid verdur í hendur selt, af honum heimtist mikid. Eg er kominn ad qveikja upp eld á jørdu, hvad vildi eg heldur enn hann brynni nú þegar? en eg hlít ádur med skírn ad skíraft, og hvørsu eg þreingjumst þángad til hún fullkomnast. Meinid þér ad eg kjæmi ad senda frid á jørdu? eg seigi: nei, heldur sundurþyckju. Þvíad hédan í frá munu fimm verda í einu húsi sundurþyckir, þrír í móti tveimur, og tveir í móti þremur. Fadirinn mun verda í móti syninum, og sonurinn í móti fødurnum, og módirin í móti dótturinni, og dótturin í móti módurinni, og módir mannsins í móti sonar-

konunni, og sonar-konan í móti módur mannsins. En hann sagdi til fólksins: hvönær þér sjáid ský uppgánga í vestri, þá seigid þér jafnskjótt ad regn komi, og þad skér svo, og nær þér sjáid sunnanvind blása, þá seigid þér hita verda, og þad skér: Þér hræsnarar! ásýnd himins og jardar kunnid þér ad prófa. En því prófid þér ei þennann tíma? edá fyrir því dæmid þér ei á sjálfum ydur, hvad réttast er? en nær þú geingur med þínum sökudólg fyrir höfdíngjann, þá kosta kapps á veiginum, ad þú losir þig frá honum, og eigi drægi hann þig fyrir dómarann, og dómarinn selji þig réttarannum, og refsarinn kasti þér svo í dýblissu. Eg seigi þér: ad eigi muntu komast út þadan, þar til þú borgar einnin hinn sídasta skarf.

## 23. Kapítuli.

Alvarleg áminníng Kristi til ydranar, út af dæmi þeirra galverskumanna, sem Pílatus lét deyda, og þeirra, yfir hvorja ad féll turninn í Sylo. Item eptirlíkíng um þad ávaxtarlausa fíkju-tré, og lækníng þeirrar kreptu konunnar á Sabbathsdeigi. Lúc. 13.

En í þann sama tíma voru þar nockrir vid er kunngjördu honum frá þeim í Galílea, hvorra blód Pílatus hafdi blandad vid þeirra fórnir. Jesús svaradi og sagdi til þeirra: meinid þér ad þessir Galílei væri fyrir öllum Galíleis syndugir, þótt þeir þyldu þetta? eg seigi: nei, heldur ef þér gjörid eigi ydran, þá fyrirfarist þér líka allir eins. Eda meinid þér:

ad þeir átján á hvørja turninn í Sylo hrapadi og drap, hafi sakadir verid framar øllum mønnum er byggja til Jerúsalem? eg segi ydur: nei, heldur ef þér gjørid eigi ydran, munud þér einninn allir svo fyrirfarast.

Og hann sagdi þeim þessa eptirlíkíng: þar hafdi einn eitt fíkju-tré plantad í sínum víngardi, hann kom og leitadi ávaxtar á því, og fann eigi. Þá sagdi hann til víngardsmannsins: sjá! nú í þrjú ár hef eg árlega kómid, og leitad ávaxtar af þessu fíkju-tré og fundid eigi, høgg þad því af, hvar til hindrar þad gardlendid? en hann svaradi og sagdi til hans: Herra! lofa því ad standa þetta árid, þar til eg gref um þad og læt ad myki, ef þad vildi svo ávøxt færa, en ef eigi, þá høgg þad eptirá af.

Og hann kénndi í einu af samkundu-húsunum á Sabbathsdeigi. Og sjáid! ad þar var ein kona er (haft) hafdi kránkleiks anda í átján ár, og hún var bjúg og øldúngis ecki gát hún upplitid. En er Jesús leit hana, kalladi hann hana til sín, og sagdi til hennar: þú kona! vert laus af kránkdæmi þínu, og lagdi hendur yfir hana, og jafnskjótt reisti hun sig upp og dýrkadi Gud. Þá svaradi yfir-madur samkundu-hússins, og þyckist vid, þad Jesús læknadi á Sabbaths-deigi, og sagdi til lýdsins: sex dagar eru þeir, á hvørjum hæfir ad vinna, komid þér á þeim ad láta lækna ydur, en eigi á Sabbaths-deigi. Drottinn svaradi honum og sagdi: þú hræsnari! leysir eigi hvør ydar einn á Sabbaths-deigi naut sitt og asna frá stallinum, og leidir til vatns? en skyldi þessi eigi leysast á Sabbaths-deigi, sem þó er Abrahams dóttir, af því bandi, er Andskotinn hefur hana fjatrad í

átján ár? og er hann sagdi þetta, skømmudust sín allir hans mótmælendur, og allt fólkid gladdist yfir þeim ollum dýrdar-verkum, er af honum gjørdust.

Og hann sagdi: hvørjum er Guds ríki líkt, og hvørju skal eg því samjafna? líkt er þad mustarðs korni, hvørt madur tók og varpadi í grasgard sinn, þad spratt uppi og vard mikid tré, og fuglar himins bjuggu undir þess qvistum. Og enn sagdi hann: hvørju skal eg samlíkja Guds ríki? líkt er þad súrdeigi því er kona tók, og faldi þad medal þriggja mælira mjøls, þar til þad sýrdist allt.

## 24. Kapítuli.

### Um reisuna Krísti til Jerúsalem og lækníng þess manns er blindur var fæddur. Lúc. 13. Jóhann. 9.

Og e) hann géck í gégnum borgir og kauptún, og kéndi, og gjørdi sína reisu til Jerúsalem.

Og d) þá Jesús géck framhjá, sá hann þann einn mann, sem blindur var borinn. Hans Lærisveinar spurdu hann þá ad og sogdu: Meistari! hvør brant? hann edur hans foreldrar, ad hann fæddist blindur? Jesús svaradi: hvørki hann né hans foreldrar, heldur ad Guds verk auglýsist á honum. Mér byrjar ad verka hans verk, þess er mig sendi, á medan dagurinn er, nottin kémur nær eínginn fær verkad. Svo leingi sem eg er í veroldinni, þá em eg ljós veraldar. Þá hann hafdi þetta sagt: spýtti hann á jørdina, og gjordi af hrákanum saur, og smurdi saurnum á augu hins blinda, og sagdi honum: far þú til dýkisins Syloa, (hvad ed þídist sendur) og þvo þér; þá géck hann og

þvodi sér, og kom sjáandi. Þá søgdu nágrannar hans, og þeir sem hann høfdu ádur sjéd ad hann var blindur: er þad eigi sá sem sat og beiddi? sumir søgdu: hann er þad, en adrir søgdu: líkur er hann honum, hann sjálfur sagdi: eg em sá. Þeir søgdu þá vid hann: hvørnin eru þín augu upplokin? hann svaradi og sagdi: sá madur sem nefnist Jesús, gjørdi sér saur, og reid á mín augu, og hann sagdi mér: far þú til díkisins Syloa, og þvo þér; eg géck burt, og þvodi mér, og féck sýnina. Þeir søgdu til hans: hvar er hann? hann sagdi, eg veit eigi. Þá leiddu þeir hann fyrir Phariseos, sem leingi hafdi blindur verid. En þá var Sabbats-dagur er Jesús gjørdi þann saurinn, og opnadi hans augu. Þá spurdu Pharisei hann enn ad, hvørnin hann hefdi ordid sjáandi. En hann sagdi þeim: saur lagdi hann á mín augu og eg þvodi mér, og nú sje eg. Þá søgdu sumir af Phariseis: eigi er þessi madur af Gudi, þvíad hann heldur eigi Sabbaths-daginn, en adrir søgdu: hvørnin má syndugur madur gjøra þvílík teikn? og þar vard sundurþyckja þeirra á milli. Þá søgdu þeir aptur til hins blinda: hvad seigir þú af honum, þad hann opnadi þín augu? en hann sagdi: Spámadur er hann.

Gydíngar trúdu eigi um hann, ad hann hefdi blindur verid, og væri nú skign vordinn, þángad til þeir kølludu á hans foreldra, sem sýnina hafdi feingid, og spurdu þá ad svo seigjandi: er hann yckar son, hvørn þér seigid blindann borinn vera, eda hvørnin sjer hann nú? hans foreldrar svørudu þeim og søgdu: vid vitum ad þessi er ockar sonur, og þad hann var blindur borinn, en med hvørjum hætti hann sjer nú, þad vitum vid ei, eda hvør hans augu

opnadi, þad vitum vid ei, hann hefur sjálfur alldur til, spyrjid hann ad og látid hann sjálfann tala fyrir sig. Þetta sögdu hans fedgin, af því ad þau óttudust Gydínga, þvíad Gydíngar höfdu þá þegar sambundid med sér, þad ef nockur medkénndi hann fyrir Kristum, ad sá skyldi útrekast af þeirra Samkundum. Fyrir því sögdu hans fedgin: hann er nógu gamall, spyrjid hann ad. Þá kolludu þeir aptur í ödru sinni á þann mann sem blindur hafdi verid, og sögdu honum: géf Gudi heidurinn, vér vitum ad þessi madur er syndugur. Hann svaradi og sagdi: er hann syndugur, þad veit eg ecki, eitt veit eg, ad eg var blindur og nú sje ég. Þeir sögdu þá til hans: hvad gjördi hann þér, edur hvörnin lauk hann upp þínum augum? hann svaradi þeim: eg sagdi ydur nú þad; hafid þér ecki heyrt þad? til hvörs viljid þér heyra þad aptur? eda viljid þér verda hans Lærisveinar? Þá bölvudu þeir honum, og sögdu: þú ert hans lærisveinn, en vær erum Mósis lærisveinar. Vér vitum ad Gud taladi vid Móysin, en vér vitum eigi hvadan þessi er, sá madur svaradi og sagdi þeim: þad er undarlegur hlutur, ad, þér vitid eigi hvadan hann er, og þó lauk hann upp mínum augum? en vér vitum ad Gud heyrir eigi syndugа, heldur þad ef nockur er Guds dýrkari, og gjörir eptir hans vilja, þann heyrir hann. Frá veraldarinnar upphafi hefur þad eigi heyrt verid, ad nockur hafi upplokid þess manns augum, sem blindur var borinn, væri þessi eigi af Gudi, þá mætti hann eckert gjöra. Þá svörudu þeir og sögdu til hans: allur ertu í synd alinn, og þú kénnir oss; og þá ráku þeir hann út. Þá Jesús

heyrdi þad, ad þeir høfdu hann útrekid, og er hann fann hann, þá sagdi hann til hans: trúir þú á Guds Son? hann svaradi og sagdi til hans: Herra! hvør er hann, svo eg trúi á hann? Jesús sagdi til hans: þú sást hann, og hann sem talar vid þig, sá er hann. Hann svaradi: Herra! eg trúi, og hann tilbad hann. Jesús sagdi: til dóms kom eg í þennann heim, ad þeir sem ecki sjá, skyldu verda sjáandi, og ad þeir verdi blindir sem sjá. Og nockrir af Pharíseis heyrdu þetta, sem hjá honum vóru, og søgdu til hans: hvørt erum vér þá blindir? Jesús sagdi þeim: ef þér værud blindir, þá hefdud þér aungva synd; nú fyrst þér seigid: vér sjáum, þá blífur ydar synd.

## 25. Kapítuli.

Eptirlíking um Saudahúsid og hann góda hirdir, item um Musteris vígslunа í Jerúsalem, hvar Jesús medkénndi sig ad vera Messíam, en Gydingar tóku upp steina ad grýta hann.
Jóhann. 10.

Sannlega, sannlega seigi eg ydur, hvør hann geingur eigi inn um dyrnar, í saudahúsid, heldur stígur hann inn annarstadar, sá er þjófur og mordíngi. En sá sem geingur inn um dyrnar, hann er hyrdir saudanna, fyrir honum lýkur dyravørdurinn upp, og saudirnir heyra hans rødd, og hann kallar sína saudi med nafni, og leidir þá út. Og þá hann hefur sína saudi útlátid, geingur hann frammi fyrir þeim, saudirnir fylgja og honum eptir, þvíad þeir þeckja hans rødd, en ødrum annarlegum fylgja þeir

ei eptir, heldur flýa þeir frá honum, því að þeir þeckja eigi ókunnugra rödd. Þennann orðsqvið taladi Jesús til þeirra, en þeir skildu eigi hvað það var er hann sagði þeim. Þá sagði Jesús enn aptur til þeirra: sannlega, sannlega seigi eg ydur, eg em dyr saudanna. Allir hvörjir helst fyrir mér eru komnir, þeir vóru þjófar og mordíngjar, og saudirnir hlýddu þeim eigi, eg em dyrnar, ef nockur geingur inn fyrir mig, sá mun frelsast, hann mun og gánga út og inn, og finna sitt fódur. Þjófurinn kémur ei til annars, enn hann steli, drepi og fordjarfi, eg em kominn til þess að þeir skyldu hafa líf og fulla nægd.

Eg em gódur hirdir, gódur hirdir géfur sitt líf út fyrir saudina, en leigumadurinn sá ei er hirdir, og hvörs saudirnir eru ei eiginleigir, hann sér úlfinn koma, og yfirgéfur saudina og flýr, en úlfurinn grípur þá og sundurdreifir saudunum, en leigumadurinn flýr, af því að hann er leigumadur og hirdir ekkért um saudina. Eg em gódur hirdir, og eg þecki mína saudi, og eg þeckist af mínum, svo sem ad minn Fadir þeckir mig, og eg þecki Fødurinn, og mitt líf legg eg út fyrir saudina. Eg hefi og enn adra saudi, sem ei eru af þessu saudahúsi, þá byrjar mér og híngað að leida, og þeir munu heyra mína rödd, og þar mun verda eitt saudahús og einn hirdir. Fyrir því elskar mig minn Fadir, að eg legg út mitt líf, uppá það eg taki það og aptur. Einginn tekur það af mér, heldur legg eg það af mér sjálfur. Eg hefi vald til það af að leggja, eg hefi og vald til það aptur að taka, þetta bodord féck eg af mínum Fødur. Þá vard enn sundur-

þyckja millum Gydínga, fyrir sakir þessara orda. En margir af þeim søgdu: Djøfulinn hefur hann, og er affinna, til hvørs heyrid þér honum? adrir søgdu: þessi ord eru einskis óds manns, fær Djøfullinn nockud blinds manns augum upplokid?

Og þar gjørdist Musteris vígsla í Jerúsalem, þad var um vetur. Og Jesús géck í Musterinu í forbyrgi Salómonis. Þá umkríngdu hann Júdar, og søgdu til hans: hvørsu leingi þá heldur þú vorri sálu uppi? ef þú ert Kristur, þá seig oss þad berlega; Jesús svaradi þeim: eg sagdí ydur þad, en þér trúid eigi, þau verk er eg gjøri í míns Fødurs nafni, bera vitni af mér, en þér trúid eigi, þvíad þér erud eigi mínir saudir, svo sem eg sagdi ydur; mínir saudir heyra mína rødd, eg þecki þá, og þeir fylgja mér eptir, og eg géf þeim eilíft líf, og aldrei skulu þeir fyrirfarast, einginn skal þá og slíta úr minni hendi. Fadir minn sem gaf mér þá, er øllum hlutum meiri, og einginn kann ad slíta þá af míns Fødurs hendi. Eg og Fadirinn erum eitt, þá tóku Gydíngar enn steina upp, ad gríta hann; Jesús svaradi þeim: mørg góð verk sýndi eg ydur af mínum Fødur, fyrir hvørs þeirra verka sakir, grítid þér mig? Gydíngar svørudu honum og søgdu: fyrir gott verk grítum vær þig eigi, heldur fyrir gudlastan, ad þú sem ert madur, gjørir þig sjálfann ad Gudi. Jesús svaradi þeim: stendur þad eigi skrifad í ydru Løg=

máli? eg sagdi þad þér erud gudir. Nú ef þér kallid þá gudi til hvørra Guds ord eru skéd, og Ritníngin má eigi rjúfast, en vid þann sem Fadirinn helgadi, og í heiminn sendi, þá seigid þér: þú gudlastar, af því eg sagdi: eg em Sonur Guds. Ef eg gjøri ecki míns Fødurs verk, þá trúid mér ecki, nú fyrst eg gjøri þau, þá trúid verkunum, þó þér viljid mér ei trúa, svo ad þér þeckid og trúid þad Fadirinn sé í mér, og eg í honum. Þeir sóktu þá enn til ad grípa hann, en hann géck út frá þeirra høndum.





# Fimmti Partur,

Seigir frá því er vidborid hefur á fjórda ári predikunar embættis Herrans Kristí, allt til þess hans pína byrjadist.

## 1. Kapítuli.

Um reisu Kristí frá Jerúsalem yfir um Jórdan, til þess stadar hvar Jóhannes hafdi ádur skírt. Item um þann þraungva veg er liggur til lífsins, og hvørnin Pharísei vørudu Kristum vid, ad Heródes vildi líflláta hann. Jóhann. 10. Lúc. 13.

Og d) Jesús fór aptur í þann stad, hinumeigin Jórdanar, þar sem Jóhannes hafdi ádur skírt, og var þar. Margir komu til hans, og søgdu: Jóhannes gjørdi eckért teikn, en allt hvad Jóhannes sagdi af þessum, þá er satt. Og margir trúdu þar á hann. e) En þar sagdi nockur til hans: Herra! meinar þú eigi, ad þeir séu fáir sem hjálpast? en hann sagdi til þeirra: keppist eptir inn ad gánga um hid þraungva hlidid, því margir (þad seigi eg ydur) munu sækja til þar inn ad gánga og fá ei gétad. Frá því er Húsbóndinn er uppstadinn, og hefur dyrnar apturluktar, þá munud þér taka til þar fyrir utan ad standa, og á dyrnar ad knýa, svo

seigjandi: Herra! Herra! ljúktu upp fyrir oss, hann mun svara og seigja til ydar: eigi þecki eg ydur hvadan þér erud, þá munud þér hefja upp ad seigja: vær høfum etid hjá þér og druckid, og á strætum vorum kenndir þú, en hann mun seigja, eg seigi ydur: þad ei þecki eg ydur, hvadan þér erúd, farid frá mér allir, þér illgjørda menn, þar mun vera óp og tannagnístran. Nær þér sjáid Abraham, Isaac og Jacob, og alla Spámenn í Guds ríki, ad þér erud útreknir. Og þeir úr austri og vestri, nordri og sudri, munu koma og til bords sitja í Guds ríki. Og sjáid! þar eru þeir sídastir sem verda munu fyrstir, og þeir ed eru fyrstir, munu verda sídastir.

A þeim sama deigi geingu nockrir af Pharíseis inn og søgdu hónum: vík þú burt og gack hédan, þvíad Heródes vill aflífá þig. Hann sagdi til þeirra: farid þér og seigid þeim ref, sjáid! ad eg rek út Djøfla og lækna í dag og á morgun, en á þridja deigi mun eg taka enda, þó mun eg gánga í dag og á morgun og daginn þar eptir, þvíad þad fær eigi skéd ad nockur Spámadur farist, utan í Jerúsalem.

Jerúsalem! Jerúsalem! þú sem aflífar Spámennina, og grýtir þá steinum er til þín verda sendir, hvørsu opt hef eg viljad samansafna børnum þínum? líka sem hæna sínum úngum undir vængi sér, og þér hafid eigi viljad? sjáid! ydvart hús skal ydur því eydi látid verda, því eg seigi ydur: þad eigi munud þér mig sjá, þar til þad kémur er þér munud seigja: lofadur sé sá sem kémur í nafni Drottins.

2. Kap.

## 2. Kapítuli.

Um géstabod hjá einum Pharíseara Höfdíngja, hvar Kristur læknadi þann vatns sjúka manninn á Sabbathsdeigi, og framsetti eina eptirlíking, um þá stóru Qvøldmáltíd, og afsøkun þeirra er bodnir vóru. Item prédikun Kristi um þad hvørjir hentugir væri ad vera hans Lærisveinar. Lúc. 14.

Og þad skédi, ad hann kom á Sabbaths-deigi inn í hús nockurs þess sem var yfirbodari Pharíseórum brauds ad neyta, og þeir høfdu vørd á honum. Og sjá! ad madur nockur sá vatns-sótt hafdi var þar frammi fyrir honum, og Jesús ansadi og sagdi til Løg-Spekínga og Pharíseanna, svo seigjandi: er þad nockud rétt ad lækna á Sabbathsdøgum? en þeir þøgdu vid, hann tók þá á honum og læknadi hann, og lét burt fara, svaradi og sagdi til þeirra: hvør er á medal ydar, hvørs uxi edur asni sem fellur í brunn, ad hann ei jafnsnart dragi hann upp á Sabbaths-deigi? og þeir gátu honum aungvu þar til svarad.

Enn eina eptirlíking sagdi hann til bodsmannanna, þá hann formérkti hvørnin þeir útvøldu efst ad sitja. Og hann sagdi til þeirra: nær þú verdur bodinn af nockrum til brúdkaups, þá set þig eigi efst, kann ské ad einn heidarlegri enn þú sé bodinn af honum, og komi sá sem þér baud og honum og seigi til þín: géf þessum rúm, og hljótir þú þá med kinnroda ad halda hinn ytsta sess. Heldur nær þú verdur bodinn, þá far og set þig nedst, svo ad nær sá kémur er þér baud, seigi hann til þín: vinur! þoka

þér upp betur, svo mun þér veitast heidur fyrir þín-um sessunautum. Því ad, hvør sig sjálfur upphef-ur, hann mun niðurlægjast, og hvør sig sjálfur nidur-lækkar, hann skal upphefjast. Hann sagdi til hans, er honum hafdi bodid: nær þú heldur middags verd edur qvøldmáltíd, þá skaltu eigi bjóda vinum þínum né brædrum, eigi frændum þínum né nágrønn-um, þeim sem ríkir eru, ad eigi bjódi þeir þér heim til sín aptur einhvørn tíma, og sé þér þá endurgoldid. Heldur, nær þú gjørir heimbod, þá bjód fátækum, vønudum, høltum og blindum, þá ertu sæll, því ad þeir hafa ei til þér aptur ad lúka, en þad mun þér endurgoldid verda í uppríſu réttlátra.

En er þetta heyrdi einn af þeim er til bordsins sat, sagdi hann til hans: sæll er sá madur sem etur braud í Guds ríki.

En hann sagdi til hans: nockur madur var sá er gjørdi mikla qvøldmáltíd, og baud mørgum til henn-ar, og sendi út sinn þjón um qvøldmáls tímann, ad hann segdi bodsmønnunum: komid! þvíad allt er nú reidubúid. En þeir tóku þá allir til hvør eptir ann-ann ad afsaka sig. Hinn fyrsti sagdi til hans: akur keypti eg, og mun og fara út ad sjá hann, eg bid þig afsaka mig. Og annar sagdi: fimm pør øxneyta keypta eg, og fer eg nú út ad skoda þau, eg bid þig afsaka mig. Hinn þridji sagdi: konu hef eg mér festa, fyrir því kann eg eigi koma. Og þjónustu-madurin kom, og undirvísadi þad sínum herra aptur. Þá vard húsbóndinn reidur, og sagdi til síns þjóns: far snarlega út á stræti og gøtur borgarinnar og leid volada, vanada, hallta og blinda híngad inn, og þjóninn sagdi: herra! þad er gjørt hvad þú skipadir,

og þó er enn nú rúm. Og herrann sagdi til þjónsins: far þú út á þjódbrautir, og um tún-garda, og naugda þeim hér inn ad koma svo mitt hús verdi fullt, en eg seigi ydur þad: ad einginn þeirra manna sem bodnir voru, munu smacka mína qvøldmáltíd.

En margt fólk gécк med honum, og hann snéri sér vid og sagdi til þeirra: ef nockur kémur til mín, og hatar eigi fødur sinn og módur, konu og børn, brædur og systur, og þar til sitt eigid líf, hann fær eigi minn Lærisveinn verid, og hvør hann eigi ber sinn kross og fylgir mér eptir, sá getur eigi minn Læresveinn verid.

Því hvør er sá á medal ydar, sem turn vill uppbyggja, og situr eigi ádur og samanreiknar kostnadinn, hvørt hann hefur ad fulkomna þad med? Svo ad ef hann leggur grundvøllinn, og getur ei fullkomnad, þá skulu ecki allir þeir sem þad sjá, taka ad dára hann, og seigja: þessi madur tók ad byggja, og getur ei vidlokid. Eda hvør kóngur geingur út ad halda orustu gégn ødrum konúngi, situr hann eigi ádur og hugsar um med sér, hvørt hann getur med tíu þúsundir mætt honum, er med tuttugu þúsundir kémur móti honum? en, ef ei, þá sendir hann bódskap út, þá þegar hinn er þó fjarlægur, og bidur fridar, svo og líka sérhvør ydar sem eigi afseigir øllu því hann á, fær eigi minn Lærisveinn verid.

Saltid er gott, en ef saltid dofnar, med hvørju kriddid þér þá? þvíad þad er þá hvorki á tún-jørd né tad-hauga þarflegt, heldur verdur því út-varpad. Hvør eyru hefur ad heyra, hann heyri.

3. Kap.

# 3 Kapítuli.

Eptirlíking um þann týnda sauð og pening. Item um þann fortapaða son. Lúc. 15.

En allir Tollheimtumenn og bersyndugir nálægdust hann, að heyra honum. Og Pharísei og Skriftlærðir mögludu og sögdu: þessi medtekur synduga, og etur með þeim. En hann sagði þessa eptirlíking til þeirra, og sagði:

Hvør er sá medal ydar, sem hefur hundrað saudi, og ef hann týnir einum af þeim, að hann láti ei eptir þá níu og níutíu á eydimörku, og fer eptir þeim er týndist, þángað til hann finnur hann? og nær hann hefur hann fundið, leggur hann hann upp með fagnadi sér á herdar. Og er hann kémur heim kallar hann saman sína vini og nágranna, og seigir til þeirra: gledjist með mér, þvíað eg hefi minn saud aptur fundið, sem tapadur var. Eg seigi ydur: að líka svo mun fögnudur vera á himnum, yfir einum syndugum þeim er ydran gjörir, meir enn yfir þeim níu og níutíu réttlátum, er eigi þurfa yfirbótar við. Eda hvør er sú kona sem hefur tíu peninga, og ef hún týnir einum þeirra, qveikir hún eigi ljós, og sópar húsið og leitar vandlega, þar til hún finnur hann? og nær hún hefur fundið hann, samankallar hún vinkonur sínar og grannkonur og seigir: samgledjist með mér, þvíað eg hefi minn pening aptur fundið, hvørjum eg hafði týnt. Líka svo seigi eg ydur: að fögnudur mun vera fyrir einglum Guds, yfir einum syndugum sem ydran gjörir.

Og hann sagði: nockur madur hafði tvo syni. Og hinn yngri af þeim sagði til fødursins: géf mér,

fadir! þá deild af góðzinu sem mér ber, og hann skipti med þeim góðzinu. Og skommu þar eptir, þá dró hinn ýngri sonurinn allt til samans og reisti lánat burt úr landinu, og fortærdi þar sínu góði í eydslulegum lifnadi. Og þá hann hafdi nú ollu sóad því hann átti, gjørdist mikil dýrtíd í ollu því sama landi svo hann tók ad skorta. Hann fór, og hélt til hjá einum borgara þar í landinu, hann sendi hann út á sinn akur, ad hann gjætti svína. Og hann girntist ad sedja sinn maga af drafi því svínin átu, og einginn gaf honum þar. Þá þeinkti hann med sér, og sagdi: hvad marga daglaunamenn hefur minn fadir? þeir ed hafa nægd á braudi, en eg ferst í húngri. Því skal eg uppstanda og fara til fødur míns, og seigja til hans: fadir! eg syndgadi í himininn og fyrir þér. Því er eg ei framar meir verdugur ad kallast þinn sonur, gjør mig því sem einn af þínum daglauna-mønnum. Hann reis upp, og kom til fødur síns. Og er hann var enn lángt í burt þadan, leit hann fadir hans, og sá aumur á honum, hljóp ad, og féll um háls honum, og kysti hann. En sonurinn sagdi til hans: Fadir! eg syndgadi í himininn og fyrir þér, og því em eg nú ei verdugur ad kallast þinn sonur. En fadirinn sagdi til þjóna sinna: berid híngad hinn besta klædnad, og færid hann í, og géfid hríng á hans hønd, og skó á hans fætur. Sækid alinn kálf og slátrid, og neytum og verum kátir. Því ad þessi minn sonur var daudur, og er endurlifnadur, hann tíndist, og er nú fundinn. Og þeir tóku ad gledjast.

En hinn eldri sonur hans var á akri, og er hann kom og nálægdist húsid, heyrdi hann qvedskap, og

hanslæti, og kalladi einn af þjónustumönnunum til sín, og spurdi hvad þetta væri. Sá sagdi: bródir þinn er kominn, og slátradi fadir þinn oldum kálfi, þad hann fékk hann heilann aptur. En hann reidd-ist vid, og vildi eigi inngánga; þá gékk fadir hans út, og baud honum. En hann svaradi og sagdi til födur síns: sjá! svo mörg ár þjóna eg þér? og hefi aldrei enn yfirtrodid þín bodord, og þú gafst mér enn aldrei kid, svo ad eg mætti med mínum vinum gladur vera. En nú þessi þinn sonur er kominn, hver ed hafdi svælt sínu gótzi medur hórum, þá slátradir þú honum alinn kálf. En hann sagdi honum: son minn! þú ert jafnan hjá mér, og allt hvad mitt er, þá er þitt. Því ættir þú nú ad vera kátur og fagna, því þessi þinn bródir var daudur, og endurlifnadi, hann týndist og er aptur fundinn.

## 4. Kapítuli.

Eptirlíking um þann rángláta rádsmann, og þann ríka mann og Lazarum. Lúc. 16.

En hann sagdi til sinna Lærisveina: audugur mad-ur nockur var sá, sem sér hafdi rádsmann, og sá vard rægdur vid hann, ad hann hefdi fargad hans gótzi, og hann kalladi hann til sín, og sagdi til hans: því heyri eg þetta um þig? gjör reikníngskap þinnar rádsmennsku, því ad þú mátt eigi hédanaf rádsmennsku hafa. En rádsmadurinn sagdi med sjálfum sér: hvad skal eg tilgjöra, med því minn herra sviptir mig embættinu? eg gét ei grafid, en eg skammast mín ad bidja. Eg veit vel hvad eg skal gjöra, nær eg verd embættinu affettur, svo ad þeir

medtaki mig í sín hús. Og hann kalladi til sín alla skuldamenn síns herra, og sagdi til hins fyrsta: hvørsu mikid ertú skyldugur mínum herra? hann sagdi: hundrad tunnur vidsmjørs. Hann sagdi þá til hans: tak þitt bréf, set þig og skrifa strax fimmtíger. Eptir það sagdi hann til hins annars: en ertú mikid skyldugur? sá sagdi: hundrad mælira hveitis. Þá sagdi hann til hans: tak þitt bréf og skrifa áttatígir. Og herrann lofadi þann ránglata rádsmann, það hann hafdi svo forsjállega gjört, því að børn þessarar veraldar eru kjænari børnum ljóssins í sinni kynslód. Og ég seigi ydur: gjørid ydur vini af hinum ránglata Mammon, svo nær þér vidþurfid, ad þeir medtaki ydur í eilífar tjaldbúdir. Hvør trúr er í minnstu, sá er trúr í miklu, og hvør rángsnúinn er í því minnsta, hann er rángsnúinn í miklu. Þvíad ef þér erud eigi trúir í hinum rángferduga Mammon, hvør vill trúa ydur þá til þess sem sannarlegt er? og ef þér erud ei trúir í annarlegu, hvør mun gésa ydur þá hvad ydart er? einginn heimilis þjón gétur tveimur herrum senn þjónad, utan hann annadhvørt hati þann eina, og elski hinn annann, eda þídist þann eina og forsmái hinn annann; þér gétid eigi Gudi þjónad og Mammon.

En þeir Pharísei heyrdu allt þetta, sem ágjarnir vóru, og dárudu hann, þá sagdi hann til þeirra: þér erud þeir sem ydur réttlætid sjálfir fyrir mønnunum, en Gud þeckir hjørtu ydar, þvíad hvad hátt er hjá mønnunum, það er svívyrdilegt fyrir Gudi. Løgmálid og Prophetarnir spádu allt til Jóhannem, en upp frá þeim tíma prédikast Guds ríki fyrir Evangelíum, og sérhvør madur þreingir sér þar inn med magt.

En léttfeldara er ad himin og jörd forgángi, enn einn titill af Lögmálinu falli. Hvør sína eigin konu forlætur, og giptist annari, sá drýgir hór, og hvør ed giptist þeirri er frá manni er skilin, hann drýgir og svo hór.

Nockur mann ríkur var þar, sá ed klæddist med purpura, og kostulegum lín-klædum, og lifdi hvørn dag kostulega og í gledi. En þar var einn fátækur madur, sem Lazarus var ad nafni, hvør ed úti lá fyrir hans dyrum, fullur kauna. Og hann gyrntist ad sedja sig af þeim molum, sem féllu af bordum hins ríka, þar komu og hundar og sleiktu hans sár. En svo vard, ad hinn voladi dó, og var borinn af Einglum í skaut Abrahams, hinn ríki dó líka, og vard jardadur. Og sem hann var nú í helvíti og qvølunum, þá hóf hann upp sín augu og leit Abraham lángt burt, og Lazarum í hans skauti. Þá hrópadi hann og sagdi: Fadir Abraham! miskuna mér, og send Lazarum, ad hann drepi hinu fremsta síns fíngurs í vatn, og kjæli túngu mína, þvíad eg qvelst þúnglega í þessum loga, en Abraham sagdi: hugleid þú, sonur! ad þú medtókst þinn góda í lífstíd þinni og Lazarus þar í móti med tók hid vonda. En nú verdur hann huggadur, en þú píndur. Og fram yfir allt þetta, er í milli vor og ydar mikid djúp stadfest, svo ad þeir sem vilja hédan fara nidur til ydar, géta þad ei; og þeir eigi þadan frá ydur upp híngad til vor farid. Þá sagdi hann: þá bid eg þig, fadir! ad þú sendir hann í míns födurs hús. Því ad eg hefi fimm brædur, ad hann kunni ad vitna fyrir þeim, svo ad eigi komi þeir og svo í þennann qvalastad. Abraham sagdi til hans: þeir hafa Móysen og Spá-

ménnína, heyri þeir þeim. En hann sagdi: nei, Abraham fadir! heldur ef einn framlidinna færi til þeirra, þá mundi þeir betra sig, hann sagdi honum: ef þeir heyra ei Móysi og spámønnunum, þá munu þeir og ejgi heldur trúa, þó nockur af dauda upprísi.

## 5. Kapítuli.

Prédikun Kristí, ad varast hneixli, um bródurlega sátt, um trúarinnar art og náttúru og skyldu þeirra trúudu. Item um lækníng tíu spítelskra manna á veiginum, og prédikun Kristí um tilkomu Guds rikis. Lúc. 17.

Og hann sagdi til sinna Lærisveina: ómøgulegt er ad þar skyldi eigi koma hneixlanir, en vei þeim fyrir hvørn þær koma; þarfara væri honum ad qvarnar-steinn heingdist um háls honum, og væri honum í sjó kastad, enn þad hann hneixli einn af þessum smælíngjum. Vaktid ydur, ef bródir þinn brítur vid þig, þá átel hann, og ef hann ydrast, þá fyrirgéf honum þad. Og þó hann brjóti sjø sinnum á deigi vid þig, og kjæmi sjó sinnum aptur á deigi til þín, og segdi: þad ydrar mig, þá skalltu fyrirgéfa honum þad. Og Postularnir søgdu til Drottins: auk þú oss trúna, en Drottinn sagdi: ef þér hefdud trú sem annad mustarts korn, og segdud þessu morberja tré: uppræt þig, og rótset þig í sjónum, þá skyldi þad ydur hlýda.

Hvør er á medal ydar, sem hefur einn þjón, er plægir, edur fénad hyrdir, nær ed hann kémur heim af akri, ad hann seigi honum þá, far strax og set þig til bords? er þad eigi svo? ad hann seigi til hans: bú til þad eg skal neyta í qvøld, og slyt þig

uppi og þjóna mér, þar til ad eg hefi etid og druckid, og eptir á þá skaltu eta og drecka. Þackar hann nockud þeim þjón, þó hann gjøri hvad honum var bodid. Eg meina nei. Svo og þér líka, nær þér hafid allt þad gjørt hvad ydur var bodid, þá seigid, ónítir þjónar erum vér, því hvad vær áttum med skyldu ad gjøra, þad gjørdum vér.

Þad skédi og þá hann fór til Jerúsalem, ad hann ferdadist midt í gégnum Samaríam, og Galileam. Og er hann kom í nockurt kauptún mættu honum tíu líkþráir menn, hvørjir ed stódu lángt frá, hófu upp sína raust og søgdu: Jesú kjæri meistari! miskuna þú oss. Og er hann sá þá, sagdi hann til þeirra: farid þér og sýnid ydur prestunum, og þad skédi þá er þeir geingu þadan, ad þeir urdu hreinir. En einn af þeim, nær hann sá þad hann var heilbrygdur ordinn, sneri hann aptur, og lofadi Gud med hárri raust, féll fram á sína ásjónu fyrir fætur honum og þackadi honum, og þessi var samverskur. En Jesús svaradi og sagdi: erud þér eigi tíu hreinsadir? en hvar eru þeir níu? fundust engvir adrir þeir aptur sneri, og gjæfi Gudi dýrdina, nema þessi útlendíngur? og hann sagdi til hans: statt upp og far hedan, þín trú gjørdi þig hólpinn.

En er hann var adspurdur af Phariseis, hvønær ad Guds ríki kjæmi, svaradi hann þeim og sagdi: Guds ríki kémur ei med ytri hegdan sem menn kunna ad taka vakt uppá. Þar mun og eigi seigjast, sjá! hér eda þar er þad, því sjáid! ad Guds ríki er hid innra í ydur.

Þá sagdi hann til Lærisveinanna: þær stundir koma, þad þér munud gyrnast ad sjá einn dag Manns-

ins Sonar, og munud hann eigi sjá. Og þeir munu seigja til ydar: sjá hér! sjá þar! gángid ei þángad, og eigi heldur fylgid. Þvíad svo sem eldíng af himni ofan leyptrar, og lýsir yfir allt það sem er undir himninum, líka svo mun Mannsins Sonur vera á sínum deigi. En honum byrjar fyrst margt ad þola, og útskúfadur verda af þessari kynslód. Og svo sem það skédi í tíd Nóa, líka svo mun ské á døgum Mannsins Sonar. Þeir átu og druckú, þeir qvonguðust og létu sig gipta, allt til þess dags ad Nói géck í Orkina, og flódid kom og tortíndi þeim øllum. Einninn líka svo sem það skédi í tíd Loths, þeir átu og druckú, þeir keyptu og seldu, þeir pløntudu, og uppbygdu. En á þeim døgum er Loth fór út af Sódóma, rigndi ofan eldi og brennisteini af himni, og fyrirfór þeim øllum. Eptir slíkum hætti mun það tilgánga á þeim døgum, er Mannsins Sonur mun opinberast. Hvør hann verdur á þeim sama deigi á ræfri staddur og sé hans búsgagn í húsinu, þá stígi hann ei ofan það ad sækja. Svo og einninn, sá hann er á akri, þá snúi hann ei aptur, eptir því sem á baki honum er. Minnist þér á konu Loths. Hvør helst sem sækir eptir sína ønd ad forvara, sá missir hana, og hvør helst hana missir hana, sá hjálpar henni til lífsins. Eg seigi ydur, á þeirri nótt munu tveir liggja á, einni sæng, mun einn medtekinn, og annar forlátinn, og tvær munu mala til samans, mun ein medtekin og ønnur forlátin. Þeir svørudu og søgdu til hans: hvar þá Herra? en hann sagdi til þeirra: hvar helst ad hræid er, þángad safnast og ernirnir.

6. Kap.

# 6. Kapítuli.

Eptirlíking um þann rángláta dómara, og um framhald bænarinnar. Item um Pharísearann og tollheimtumanninn sem báðust fyrir. Lúc. 18.

En hann sagði eina eptirlíking til þeirra þar uppá, að menn skyldu jafnan biðja, og ei afláta, og sagði. Sá dómari var í nockri borg, sem eigi óttaðist Guð, og eigi skeitti um neinn mann. En eckja nockur var þar í sömu borg, og hún kom til hans og sagði: hjálpa mér frá mínum mótstöðu-manni. Og leingi vildi hann ei. En eptirá þeinkti hann með sjálfum sér: þó eg óttist ei Guð né skeiti um engvann mann, þó fyrir það að þessi eckja gjörir mér ó-náð svo mikla, þá vil eg hjálpa henni, svo að hún komi ei að síðustu, og nauði á mér. Þá sagði Drottinn: heyrið hér hvað sá rángláti dómari seigir. Skyldi Guð ei gjöra frelsan sinna útvaldra þeirra sem nótt og dag til hans kalla? enn þó hann hafi þolinmæði þar yfir? en eg seigi yður, það hann mun bráðlega gjöra þeirra frelsan. En þó nær Mannsins Sonur mun koma, meinar þú að hann muni trú finna á jörðu?

En hann sagði til nockra þeirra sem treystu uppá sjálfa sig, að þeir væri réttlátir, og forsmáðu aðra, svoddan eptirlíking.

Tveir menn geingu upp í Musterið að biðjast fyrir, einn var Pharíseus en annar Tollheimtumaður, Pharísearinn stóð og baðst þannin fyrir með sjálfum sér: Guð! eg þacka þér, að eg em eigi svo sem aðrir menn, ræníngjar, óréttferdugir, hórdóms menn, eður svo sem þessi Tollheimtu-maður, eg fasta tvisvar í viku, og géf tíundir af öllu því eg á. Og

Tollheimtu-madurinn stód lángt í frá, og vildi eigi upphefja sín augu til himins, heldur bardi hann á sitt brjóst, og sagdi: Gud! vertu mér syndugum líknsamur. Og eg seigi ydur: ad þessi fór réttlátur framar hinum ødrum nidur í sitt hús. Því hvor sig sjálfann upphefur, hann mun niðurþryckjast, og hvør sjálfum sér niðurþryckir, hann mun upphafinn verda.

## 7. Kapítuli.

**Disputatia Pharíseanna vid Kristum um hjónabands skilnadinn, ítem um úng-børnin færd til Kristum Matth. 19, Marc. 10. Lúc. 18.**

Og a) þad skédi sem Jesús hafdi lyktad þessar rædur, ad hann fór af Galílea. b) Og hann bjóst burt og kom til landamerkja Júda lands, hinumeigin Jórdanar. a) Og margt fólk fylgdi honum eptir, og þar læknadi hann þá. b) Þar kom og enn aptur flockum saman fólkid til hans, og sem hann plagadi, þá tók hann enn aptur ad kénna þeim. c) Þá geingu Pharísei til hans, spurdu hann, ad, freistudu hans og søgdu til hans: er þad nockud rétt, ad madurinn skilji sig vid sína eigin konu fyrir hvørja sem eina sok? en hann svaradi og sagdi: b) hvad hefur Móyses bodid ydur? þeir sogdu: Móyses leyfdi skilnadar bréf ad skrifa og vid ad skilja. a) En hann svaradi og sagdi til þeirra: hafid þér ei lesid, ad sá er í upphafi skapadi manninn, hann gjørdi þad, ad vera skyldi einn madur og kona? og sagdi: fyrir því mun madurinn forláta fødur og módur, og vera hjá eigin-konu sinni, og þau tvø munu eitt hold vera.

Svo eru þau nú eigi tvø, heldur eitt hold. Þar fyrir, hvad Gud hefur samteingt, þad skal madurinn eigi í sundur skilja. Þá sogdu þeir: fyrir því baud Móýses þá ad gésast skrldi skilnadar skrá, og skilja sig vid hana? b) Og Jesús svaradi og sagdi til þeirra: c) Móýses hefur fyrir hardúd ydars hjarta skrifad ydur þetta bodord, (og) leift ydur ad forláta hús-freyur ydar, en af upphafi sképnunnar var þad ekki svo. a) En eg seigi ydur þad: hvør sína eig-in-konu forlætur (nema þad sé fyrir hórunar-søk) og giptist annari, sá drýgir hór. Og hvør fráskilinni giptist, sá drýgir og hór. b) Og heima spurdu hans Lærisveinar aptur ad um hid sama, og hann sagdi þeim: hvør sem skilst vid sína eigin-konu og giptist annari, sá drýgir hór med henni. Og ef konan forlætur sinn eiginn mann, og giptist ødrum, hún hórast. a) Þá søgdu Lærisveinarnir til hans: ef svo er háttad mannsins málefnum vid eigin-konuna, þá er eigi gott ad giptast. En hann sagdi til þeirra: þetta ord fá ei allir høndlad, heldur þeir hvørjum þad er gésid. Því ad þar eru nockrir géld-íngar, sem svo verda af módur-qvidi fæddir, og þeir géldíngar eru nockrir, hvørjir af mønnum eru géldtir, og þar eru og líka þeir géldíngar, sem sig sjálfa hafa géldt fyrir himnaríkis sakir; sá gripid gétur hann grípi þad.

Og l) þá færdu þeir úng-børn til hans, ad hann áhrærdi þau, legdi høndur yfir þau, og bædist fyr-ir. e) Og er þad sáu hans Lærisveinar, l) ávít-udu þeir þá sem þau báru. b) Og er Jesús sá þad, reiddist hann. Og a) hann kalladi þau til sín, og sagdi til þeirra: (Lærisveinanna) leisid l) børnun-

um til mín að koma, og bannið þeim það eigi, því að þvílíkra er Guðs ríki. b) Sannlega segi eg yður, hvør hann meðtekur eigi Guðs ríki sem annað úngabarn, sá mun eigi inngánga í það. l) Og hann tók þau í fáng, og lagði hendur yfir þau, og blessaði þau. a) Og er hann hafði hendur yfir þau lagt, gékk hann þaðan.

## 8. Kapítuli.

Um spurníng þess únga ríka manns, hvørnin hann kynni að øðlast eilíft líf. Item um verðlaun Postulanna, og þeirra er Kristó eptirfylgja. Matth. 19. Marc. 10. Lúc. 18.

Og a) sjá! b) þá hann var útgeinginn uppá veginn, l) að einn af Høfðíngjunum hljóp þar fram, gékk að honum, og féll á kné fyrir honum, spurði hann að og sagði: góði Meistari! hvað skal eg þess gott gjøra, að eg erfi eilíft líf? en Jesús sagði til hans: hvað kallar þú mig góðann? einginn er góður nema Guð einn, a) en ef þú vilt til lífsins inngánga, svo haldtu boðorðin. Hann sagði þá til hans: hvør helst? Jesús sagði: b) boðorðin veitstu, l) þú skalt eigi hórdóm drýgja, eigi mann vega, eigi stela, eigi ljúgvitni mæla, þú skalt aungvann svíkja, heiðra skaltu þinn føður, og þína móður, a) og elska skaltú náúnga þinn sem sjálfann þig. l) Þá svaraði og sagði úngi maðurinn til hans: Meistari! allt þetta hef eg varðveitt í frá barnæsku minni, a) hvað brestur mig þá? en þá Jesús heyrði það, horfði (hann) á hann, elskaði hann og sagði til hans: eitt brestur þig enn, a) ef þú villt algjørdur verð, far burt

l) og sel allt hvad þú hefur, og gef fátækum og muntu þá hafa sjóð á himni, og kom og fylg mér eptir, h) og tak krossinn uppá þig. f) Og er hinn úngi madur heyrdi þad ord, vard hann mjøg hryggur, c) og gékk þadan sýrajandi, þvíad hann hafdi miklar eignir. c) En er Jesús sá hann hryggvann ordinn, h) leit hann kríngum sig, og sagdi til sinna Lærisveina: h) hvørsu torveldt er þeim inn ad gánga í Guds ríki sem ríkdóm hafa? a) sannlega segi eg og ydur: ad einn ríkur madur kémur torveldlega í himnaríki. b) En Lærisveinarnir hræddust hans ord, en Jesús ansadi enn aptur, og sagdi til þeirra: kjæru børn! hvørsu torveldt er þeim sem treysta á ríkdóminn, inn ad gánga í Guds ríki? a) og enn segi ydur: l) þad, audveldara er úlfaldanum ad gánga í gégnum nálar auga, enn ríkum manni ad komast inn í Guds ríki. a) Og er hans Lærisveinar heyrdu þad, c) óttudust þeir enn meir. l) Þá sogdu þeir sín á milli sem til heyrdu: hvør fær þá hjálpast? c) en Jesús leit vid þeim og sagdi til þeirra: hjá mønnum er þad ómøgulegt, h) en eigi hjá Gudi, þvíad allt c) hvad ómøgulegt er fyrir mønnum, þad er møgulegt hjá Gudi.

Þá l) svaradi Pétur c) og sagdi til hans: sjá! vér forlétum allt, og fylgdum þér eptir, a) hvad skulum vér þá hafa í stadinn? l) en Jesús svaradi og sagdi til þeirra: a) sannlega segi eg ydur: ad þér hvørjir mér hafid eptirfylgt, þér skulud í endurfædíngunni, þá er Mannsins Sonur situr á stóli sinnar tignar, sitja einninn á tólf stólum, dæmandi tólf kynqvíslir Ísraels, og hvør hann forlætur hús eda brædur, systur, fødur eda módur, eda eiginkonu,

eda børn, eda akra fyrir míns nafns sakir, sá mun hundradfaldt í stadinn taka, og erfa eilíft líf. h) Samlega seigi eg ydur: ad eingi er sá, hvor ad fyrirlætur hús eda brædur, eda systur eda fødur, eda módur eda eiginkonu, eda børn, eda akra fyrir mínar sakir, Evangelii c) og Guds ríkis, ad hann medtaki þad ei margfaldt aptur h) á þessum tíma, b) hús, brædur og systur, módur og born, og akra med ofsóknum, h) og í ørrum heimi eilíft líf. e) En margir þeir sem eru fyrstir, verda sídastir, og þeir sem sídastir eru, verda hinir fyrstu.

## 9. Kapítuli.

Eptirlíking um verkamennina sem leigdir vóru í víngardinn, og hvørnin María og Martha kunngiørdu Jesú, ad bródir þeirra Lazarus væri sjúkur. Matth. 20. Jóhann. 11.

Himnaríki a) er líkt þeim húsfødur, sem útgéck um morguninn, verkamenn ad leigja í víngard sinn. En ad gjørdum samníngi vid verkamennina um einn peníng til dag-launa, sendi hann þá í sinn víngard. Og nær þridju stund géck hann út og leit adra ydjulausa standa á torginu, og sagdi til þeirra: farid þér og svo í víngardinn, og hvad rétt er mun eg géfa ydur. Þeir geingu og þángad. Og enn géck hann út aptur, um sjøttu og níundu stund, og gjørdi svo líka. En um elleftu stund géck hann út, og fann enn adra standa ydjulausa, og sagdi til þeirra: hvar fyrir standid þér hér allann dag ydjulausir? þeir søgdu til hans: þvíad einginn hefur leigt oss, hann sagdi til þeirra: farid þér og í víngard-

inn, og hvad rétt er skulud þér fá. En þá qvöld var komid, sagdi herrann víngardsins til síns ráds-manns, kalladu verkamennina, og gjald þeim verd-kaupid. Og tak til á enum seinasta, og allt til hins fyrsta. Þá komu þeir sem um ellefu stund leigdir vóru, og hvör fékk sinn peníng. En er hin-ir fyrstu komu, meintu þeir þad, þeir mundu fá meira, og hvör þeirra fékk sinn peníng, og þá er þeir höfdu hann medtekid, mögludu þeir á móti húss-födurnum og sögdu: þessir, seinustu hafa eina stund ervidad, og þú gjördir þá oss jafna, vér sem borid höfum byrdi og hita dagsins. En hann svaradi og sagdi til eins þeirra: vinur! eigi gjöri eg þér ó-rétt. Ertu eigi ásáttur ordinn vid mig um einn peníng? tak hvad þitt er, og far burt. En þess-um seinasta vil eg géfa svo sem þér, eda hef eg ecki magt til ad gjöra af mínu hvad eg vil? ertú þar fyrir rángeygdur, þó ad eg sé gódgjarn? svo munu sídastir verda hinir fyrstu, og fyrstir hinir sídustu. Því ad margir eru kalladir, en fáir útvaldir.

Og b) þar lá einn sjúkur madur, Lazarus ad nafni, af Bethanía, í hýbílum Maríu, og hennar syst-ur Marthæ. En María var sú sem Herrann hafdi smurt med salve og þurkad hans fætur med sínum hár-lockum, hvörrar bródir var sá Lazarus sem sjúkur lá. Systur hans sendu þá til Jesú, svo seigjandi: Herra! sjá! nú sá þú elskar, hann liggur sjúkur. Þá Jesús heyrdi þad, sagdi hann: þessi sótt er eigi til dauda, heldur til Guds dýrdar, svo ad Guds Sonur verdi þar af prísadur. En Jesús elskadi Martham og systur hennar, og svo Lazarum. Þá hann hafdi þad heyrt, ad hann var sjúkur, bleif hann samt tvö

daga í þeim stad sem hann var. Eptir þad talar hánn til sinna Lærisveina: gaungum vér aptur í Júdeam. Þá sögdu hans Lærisveinar til hans: Meistari! næst þá vildu Júdar grýta þig, og þó viltu fara þángad aptur? Jesús svaradi: eru eigi tólf stundir í deigi? hvør hann geingur um daginn sá steitir sig eigi, þvíad hann sjer þessa heims ljós. En hvør hann geingur um nætur sá steitir sig, því þar er eckért ljós í honum. Þettad mælti hann, og eptir þad sagdi hann til þeirra: Lazarus vinur vor hann sefur, en eg fer ad vekja hann. Þá sögdu hans Lærisveinar: Herra! ef hann sefur, þá batnar honum. En Jesús taladi um hans dauda, en þeir ætludu ad hann mundi seigja, um líkamlegann svefn. Þá sagdi Jesús þeim opinberlega: Lazarus er látinn. Og eg fagna fyrir ydar sakir, þad eg var ei þar, svo ad þér trúid, en látum oss nú ferdast til hans. Þá sagdi Tómas sem kalladist Tvíburi, til Lærsveinanna: gaungum vær med, svo ad vér deyum med honum.

## 10. Kapítuli.

Um reisu Kristí til Jerúsalém, og hvørnin hann sagdi fyrir Postulunum á veiginum um sína pínu og dauda, einnin óst módur þeirra Zebedæi sona, og lækning blinds manns, nær borginni Jerichó. Matth. 20. Marc. 10. Lúc. 18.

En b) þeir voru á veiginum, og fóru upp til Jerúsalem, og Jesús géck fyrir þeim, og þá setti hljóda vid, fylgjandi honum þó eptir, og óttudust. a) Og hann ferdadist upp til Jerúsalem, b) og tók aptur þá tólf Lærisveina sérílagi til sín á veiginum og sagdi

þeim, hvad yfir hann mundi koma. Sjáid! vèr förum nú upp til Jerúsalem, e) og Mannsins Son mun ofurseljast Prèsta-höfdíngjum og Skriftlærdum, og þeir munu fordæma hann til dauda, c) og þad mun allt fullkomnad verda, hvad skrifad er fyrir Spámennina af Mannsins Syni. Því hann mun framseldur verda heidíngjum, a) til ad spottast, húdstríkjast, og krossfestast, c) og hann mun, smádur verda, b) þeir munu og spíta á hann, og lístáta c) og á hinum þridja deigi, mun hann upp aptur rísa. En þeir undirstódu ecke'rt þar af, og sú ræda var hulin fyrir þeim, og eigi vissu þeir hvad ed sagt var.

Þá a) gèck módir Zebedeí barna til hans med sonu sína, fallandi fyrir hann fram, og bad nockurs af honum. Og hann sagdi til hennar: hvad viltu? hún sagdi til hans: lát þessa mína tvo sonu sitja í ríki þínu, einn til þinnar hægri handar, og annann til þinnar vinstri handar. b) Þá geingu þeir Jacobus og Jóhannes, synir Zebedeí til hans, og sögdu: Meistari! vid viljum ad þú gjörir fyrir ockur þad, sem vid bidjum þig. Hann sagdi til þeirra: hvad vilji þid ad eg skuli gjöra yckur? þeir sögdu til hans: géf ockur ad vid sitjum í þinni dýrd, einn til hægri hlidar þèr, og annar til hinnar vinstri: c) En Jesús svaradi og sagdi til þeirra: þèr vitid ei hvørs þèr bidjid; kunnid þèr ad drecka þann kaleik, hvørn eg mun drecka, og skírast' þeirri skírn, hvørri eg mun skírast? þeir sögdu til hans: þad getum vid. Jesús sagdi þá til þeirra: ad sönnu munud þid drecka minn kaleik, hvørn eg dreck, og medur þeirri skírn skírdir verda, hvørri eg mun skírast. En þad ad sitja til minnar hægri og vinstri handar er eigi mín ad géfa

yckur, heldur þeim sem það er fyrirbúið, af mínum Fodur. Og þá er þeir tíu heyrdu það, misþócknadist þeim við þá tvo brædur Jacobum og Jóhannem. En Jesús kalladi þá til sín, og sagdi til þeirra: þér vitið það, að veraldlegir høfdíngjar drottna, og voldugir á medal þeirra hafa vald. En það skal ei svo vera ydar á milli, heldur hvør hann vill vera mikill ydar á milli, sá skal ydar þénari vera, og hvør hann vill ydar á milli ædstur vera, sá skal allra ydar þjón vera. Þvíað líka svo sem Mannsins Sonur er eigi kominn til þess að láta þjóna sér, heldur það, að hann þjónaði og gæfi sitt líf út, til endurlausnar betalíngs fyrir marga.

En c) það skédi þá hann tók að nálgast Jerícho, að nockur mann blindur sat við veiginn, og bað ølmusu. En þá er hann heyrdi fólkið sem þar fram hjá géck spurdi hann að, hvað það væri? þeir søgdu honum: að Jesús af Nazareth geingi-þar hjá, Þá kalladi hann og sagdi: Jesús, Sonur Davíðs! miskuna þú mér. En þeir sem undan geingu, høstudu á hann, að hann þegdi. Hann kalladi því meir, Sonur Davíðs! miskuna þú mér. Þá stód Jesús kirr og baud að leida hann til sín, og er hann var kominn hart nær honum, spurdi hann hann að og sagdi: hvað viltu eg gjøri þér? hann sagdi: Herra! það eg mætti sjá; Jesús sagdi til hans: vert skiau, þín trú gjørdi þig hólpinn. Og jafnsnart féck hann sýnina og fylgdi honum og eptir, vegsamandi Gud, og allt það fólk er þetta sá, lofadi Gud.

# 11. Kapituli.

Um Zacheum tollheimtumann, og eptirlíkíng um þau tíu pund. Item lækníng þeirra blindu, þegar Krist-ur ferdadist frá Jerichó. Lúc. 19. Matth. 20. Marc. 10.

Og e) hann fór burt, og géck í gégnum Jerichó; og sjá! ad madur sá er Zacheus var ad nafni, hvør ed var foríngi tollheimtumanna, og var audugur, hann gyrntist ad sjá Jesúm hvør hann væri, og gat eigi fyrir fólkinu, þvíad hann var lítill vexti, hann hljóp þá fram undan, og klifradi upp í nockurt morberja-tré, svo ad hann gjæti sjed hann, því þar átti hann fram um ad fara. Og sem Jesús kom ad þeim sama stad, leit hann upp, og vard hans var, og sagdi til hans: Zachee! stig þú med skindi ofan, þvíad í dag skal eg koma í þitt hús. Og hann sté skindilega ofan, og tók vid honum fagnandi. Og er þeir sáu þad, møglndu þeir allir, þad hann skyldi herbergja sig hjá bersyndugum manni. En Zacheus géck fram og sagdi til Drottins: sjá þú, Herra! helftina minna eigna géf eg fátækum, og ef eg hef nockurn tælt, þá géf eg ferfaldt aptur. Jesús sagdi til hans: í dag þá veitist þessu húsi sáluhjálp, med því ad hann er Abrahams sonur, því ad Mannsins Sonur er kominn eptir ad leita, og sáluhólpid ad gjøra, þad sem tapad er.

Þá þeir nú tilheyrdu, sagdi hann þeim framveigis eina eptirlíkíng, af því ad hann var hart nærri Jerúsalem, og þad þeir ætludu ad Guds ríki mundi þá strax opinbert verda, og sagdi:

Nockur edalborinn madur ferdadist í fjarlægt land, ad hann afladi sér ríkis, og kjæmi svo aptur.

Þessi kalladi á tíu sína þjóna, og fékk þeim tíu pund, og sagdi til þeirra: sýslid þar med til þess eg kém aptur. En hans borgar-menn hötudu hann, og sendu bod eptir honum, og létu segja hónum: vær viljum ei þennann ríkja láta yfir oss. Þad skédi og þá hann kom aptur, sem hann hafdi ríkid undir sig tekid, skipadi hann ad kalla á þá sömu þjóna, hvörjum hann hafdi féd feingid, svo ad hann vissi hvad mikid hvör hafdi sýslad. Hinn fyrsti kom og sagdi: herra! þitt pund hefur afrekad tíu pund. Hann sagdi til hans: eya, þú gódi þjón! af því þú varst trúr í minnstu, skaltu vald hafa yfir tíu borgum. Hinn annar kom einninn, og sagdi: herra! þitt pund hefur saman dreigid fimm pund. Til hans sagdi hann einninn: og þú skalt vera yfir fimm borgum. Og hinn þridji kom og sagdi: herra! sjá hér! þar er þitt pund, hvört eg hefi í sveita dúki fólgid, eg hræddumst þig, því þú ert einn hardur madur, tekur þad upp hvad þú hefur eigi nidurlagt, og uppskér þad hvad þú sádir eigi. Hann sagdi til hans: af þínum munni þá dæmi eg þig, þú skálkur! vissir þú þad, ad eg er hardur madur, takandi þad hvad eg lagdi eigi nidur, og uppskérandi þad hvad eg sádi eigi. Hvar fyrir gafstu eigi minn pening á mángarans bord? ad nær eg kjæmi, hefdi eg þess med okri krafid. Og hann sagdi til þeirra, sem þar hjá stódu: takid þad pund frá honum, og fáid þeim sem tíu pund hefur, þeir sögdu honum: herra! tíu pund hefur hann. En eg seigi ydur þad: ad hvör ed hefur, honum mun géfid verda, en frá þeim sem ekkert hefur, mun þad burtnúmid verda, hvad hann hefur. Þó þá mína óvini, sem eigi vildu mig ríkja láta yfir sér, leidid

híngad, og deydid þá hér frammi fyrir mér. Og sem hann sagdi nú þetta, fór hann áfram, og ferdadist upp til Jerúsalem.

Og a) þá er þeir geingu út af Jerichó, fylgdi honum margt fólk eptir, og sjá! ad tveir blindir sátu vid veiginn, og þá þeir heyrdu þad, ad Jesús gékk þar fram hjá, køllubu þeir og søgdu: ó Herra, Sonur Davíds! miskuna þú ockur. En fólkid hastadi á þá, ad þeir þegdi, en þeir køllubu því meir og søgdu: ó Herra, Sonur Davíds! miskuna þú ockur. Og Jesús stadnæmdist, kalladi á þá og sagdi: hvad viljid þid ad eg skuli gjøra ydkur? þeir søgdu til hans: Herra! þad, ad ockar augu uppljúkist. En Jesús sá þar aumur á, snart augu þeirra, og jafnskjótt urdu þeirra augu sjáandi aptur, og fylgdu honum eptir.

Og b) ad honum burtfarandi úr Jerichó, og hans Lærisveinum, og miklum fólks-fjølda, sat einn blindur Bartímeus son Timeí vid veiginn, og bád ølmusu. Og er hann heyrdi ad þad var Jesús af Nazareth, tók hann til ad kalla, og seigja: Jesús, Sonur Davíds! miskuna þú mér. Og margir høstudu á hann, ad hann skyldi þeigja. En hann kalladi þess miklu meir, Sonur Davíds! miskuna þú mér. Og Jesús stód vid, og lét kalla á hann. Og þeir køllubu á hinn blinda, seigjandi til hans: vertu med gódu gédi, statt upp, hann kallar á þig. Og hann kastadi sínum klædum af sér, stód upp, og kom til Jesú. Jesús svaradi og sagdi til hans: hvad viltu ad eg skuli gjøra þér? en hinn blindi sagdi honum: **Rabboni**, þad eg yrdi sjáandi. Jesús sagdi til hans: gack hédan, þín trúa gjørdi þig hólpinn, og strax þá sá hann, og fylgdi honum eptir á veiginn.

## 12. Kapítuli.

**Um apturkomu Jesú til Bethaníam, og uppvakníng Lazari af dauda. Item Pharísearanna rádsløgun ad fyrirkoma honum og lífláta hann. Jóhann. 11.**

Jesús kom þá (til Bethaníam) og fann ad (Lazarus) hafdi þegar fjóra daga í grøfinni leigid. En Bethanía lá hart nærri Jerúsalem, svo sem fimtán akra-leingd. Margir Gydíngar voru þar komnir til Mártham og Maríu, ad þeir huggudu þær eptir sinn bródur. Sem Martha heyrir ad Jesús kémur, rennur hún í móti honum, en María sat heima. Þá sagdi Martha vid Jesúm: Herra! ef þú hefdir verid hér, þá væri bródir minn ei látinn, en eg veit enn nú, ad hvørs þú beidist af Gudi, þad géfur Gud þér. Jesús sagdi til hennar: bródir þinn skal upprísa. Martha sagdi til hans: eg veit vel ad hann mun rísa upp í upprisunni á efsta deigi. Jesús sagdi vid hana: eg em upprisan og lífid, hvør hann trúir á mig, sá mun lifa þótt hann deyi, og hvør hann lifir og trúir á míg, sá skal aldrei deya; trúir þú þessu? hún sagdi til hans: já Herra! eg trúi ad þú ert sá Kristur Sonur Guds, sem í heiminn er kominn.

Þá hún hafdi þetta sagt, fór hún og kalladi heimuglega á systur sína Maríu, svo seigjandi: Meistarinn er þar og kallar á þig. Þá hún heyrdi þad, stód hún skyndilega upp og kom til hans. Þvíad Jesús var enn ei kominn í þorpid, heldur var hann enn í þeim stad sem Martha hafdi í móti honum komid. En þeir Júdar sem í húsinu voru hjá henni, og hana huggudu, þá þeir sáu Maríam, þad hún

stód svo fljótt upp og géck út, fylgdu þeir henni eptir, og søgdu: hún fer til grafarinnar ad gráta þar. Þá María kom nú þángad sem Jesús var, og hún leit hann, féll hún til fóta hans og sagdi honum: Herra! ef þú hefdir hér verid, þá væri bródir minn ei látinn. Sem Jesús sá hana gráta, og þá Gydínga líka grátandi, er med henni komu, bistist hann vid í andanum og ángradist þúnglega, og sagdi: hvar hafid þér lagt hann? þeir søgdu honum: Herra! kom og skoda. Þá táríeldi Jesús, þá søgdu Gydíngar: sjá! hvørsu kjærann hann hefur haft hann. En adrir af þeim søgdu: mátti hann sem opnadi blinds manns augu, eigi gjøra vid því ad þessi hefdi ecki dáid? Jesús bistist þá enn med sjálfum sér, og kom til grafarinnar, en þad var ein grifja, og einn steinn var þar og yfir lagdur. Jesús sagdi: takid af steininn, þá sagdi Martha, systir hins dauda til hans: Herra! hann lycktar nú ílla, þvíad hann hefur leigid fjóra daga. Jesús sagdi til hennar: sagdi eg þér ecki, ad ef þú trydir, þá mundir þú sjá Guds dýrd? þá tóku þeir steininn af þar sem hinn daudi lá. En Jesús hóf þá sín augu upp og sagdi: Fadir! eg þacka þér, ad þú bænheyrdir mig, en eg veit þó ad þú heyrdir mig jafnan, heldur fyrir fólksins sakir, sem hér stendur í kríng, þá segi eg þad, svo ad þad trúi því ad þú sendir mig. Þá hann hafdi þetta sagt, kalladi hann hárri røddu: Lazare! kom þú út híngad. Og sá daudi kom út, reyrdur med líkbøndum ad høndum og fótum, og um hans ásjáu, var sveipad med sveitadúki. Jesús sagdi til þeirra: leysid hann og látid hann gánga. Margir af Gydíngum sem komid høfdu til Maríam, og sáu hvad

Jesús gjørdi, trúdu á hann. En sumir af þeim geingu burt til Pharisearanna, og søgdu þeim hvad Jesús hefdi gjørt.

Þá søfnudu Kénnimanna-høfdíngjar og Pharísei einu rádi, og søgdu: hvad skulum vær tilgjøra? því þeßi madur gjørir mørg teikn. Og ef vér sleppum honum svo, þá trúa allir á hann, og þá koma Rómverjar og taka frá oß lønd og lýdi. En einn af þeim Caiphas, sá sem þad sama ár var ypparsti Prestur, sagdi til þeirra: þér vitid eckért og hugleitid ecki, ad betra er fyrir oß ad einn madur deyi fyrir fólkid, enn ad allur lýdur tapist. En þetta sagdi hann ei af sjálfum sér, heldur af því ad hann var þeß árs ædsti Prestur, þá spádi hann ad Jesús skyldi deya fyrir fólkid, ei einasta fyrir þad fólk, heldur þad ad hann safnadi í eitt þeim Guds børnum, er sundur voru dreyfd. Og upp frá þeim deigi, samtóku þeir med sér, hvørnin þeir gjæti liflátid hann.

Jesús géck þá ei þadan af berlega hjá Gydíngum, heldur fór hann burt í eitt bygdarlag, nærri eydimørku í eina borg sem kallast Ephraim, og þar dvaldist hann med sínum Læriosveinum. En þá voru Páskar Gydínga nálægir, og margir úr þeirri sveit geingu upp til Jerúsalem fyrir Páskana, ad hreinsa sig. Þeir spurdu þá eptir Jesú, og tøludu sín á milli í Musterinu, hvad sýnist ydur þad hann kémur ei til hátídarinnar? en Høfud-Prestarnir og Pharíseí høfdu látid þadbod útgánga, ef nockur vißi hvar hann væri, þá skyldi undirvísa þeim, svo ad þeir mættu høndla hann.

13. Kap.

# 13. Kapítuli.

Kristur verdur smurdur í Bethaníu af María, Höfudprestarnir taka ráð saman að líflata Lazarum. Matt. 26. Marc. 14. Jóh. 12.

Sex d) døgum fyrir Páska kom Jesús í Bethaníam, þar sem Lazarus hinn framlidni var, hvørn ed Jesús uppvakti af dauda. En þeir bjuggu honum þar eina Qvøldmáltíd, og Martha þjónadi, Lazarus var einn af þeim sem til bordsins sat med honum. e) En þá Jesús var nú í Bethanía, í húsi Símonis hins spitelska og sat vid bord, kom ein kona María, hafandi Alabastrum, m) og tók eitt pund salve af ómeingudu dýrmætu Nardus, gékk ad honum, d) og smurdi med fæturnar Jesú, og þurkadi svo hans fætur med sínu hári, b) hún braut glasid, og hellti því yfir høfud honum, à) þar hann sat vid bordid, d) húsid fylltist og upp af ilm smirslanna. Þá sagdi einn af hans Lærisveinum, Júdas Símonisson Iscaríoth, sá er hann sveik þar eptir: fyrir því er þetta salve ei selt fyrir þrjú hundrud peninga, og géfid fátækum? þetta sagdi hann eigi af því ad hann hirdti um fátæka, heldur var hann þjófur, og hafdi fé-píngjuna, og bar þad sem géfid var. e) En er þad sáu nockrir hans Lærisveinar, þycktust þeir vid og søgdu: til hvørs skal þessi spillíng? þvíad þetta salve mátti seljast meir enn fyrir þrjú hundrud peninga, og géfast fátækum, og þeir deildu á hana. En þá Jesús fornam þad, sagdi hann til þeirra: hvad erud þér ýfnir vid þessa konu? látid hana í fridi, því gott verk gjørdi hún á mér. Fátæka hafid þér jafnan hjá ydur, og nær þér viljid, meigid þér

gjøra þeim gott, en mig þá hafid þér ei jafnan. b) Hún gjørdi þad hún kunni, a) þad hún hellti símu smyrsla vatni yfir minn líkama, þad gjørdi hún ad eg yrdi greftradur, d) þetta gjørdi hún til míns greftrunardags, b) hún kom fyrirfram ad smyrja minn líkama til greftrunar. e) Sannlega segi eg ydur: hvar helst í heimi øllum þetta gudsspjall verdur prédikad, þá mun seigjast í hennar minníng hvad hún nú gjørdi. d) En er fjøldi mikill af Gydíngum fornam ad hann var þar, komu þeir ei alleinasta þángad fyrir Jesú sakir, heldur ad þeir sæi Lazarum þann sem hann hafdi af dauda reist. En Presta - høfdíngjarnir ásettu sér ad slá í hel Lazarum, því ad fyrir hans sakir geingu margir út af Gydíngum þángad, og trúdu á Jesúm.

## 14. Kapítuli.

Um konúnglega innreid Kristí í borgina Jerúsalem, og hvørnin hann grét yfir borginni, og útrak þá sem seldu og keyptu í Musterinu. Matth. 21. Marc. 11. Lúc. 19. Jóh. 12.

Og c) þad skédi, d) annann dag eptir, l) þá er þeir nú komu nærri Jerúsalem, og vóru komnir til Betphage og Bethaníam vid fjallid Olíveti, sendi Jesús út tvo af sínum Lærisveinum og sagdi til þeirra: farid þid í þad kauptún, hvørt gégnt ydkur er, og strax er þid komid þar inn, munud þid finna øsnu bundna, og fola bundinn hjá henni, á hvørjum aldrei enn nú hefur nockur madur setid, leysid þau og leidid híngad til mín, og ef einhvør seigir nockud til ydkar, og spyr ydkur, því gjørid þér þetta?

því leysið þér (þau?) þá seigið honum svo: að Herrann hafi þeirra þørf, og strax mun hann láta þau laus, og senda híngað. a) En allt þetta skèði svo að uppfylltist hvað sagt er fyrir Spámanninn er seigir: seigið dótturinni Zíon, sjá! þinn kóngur kèmur til þín hógvær, sitjandi á øsnu og á fola klifbærrar øsnu. l) En Lærisveinarnir sem sendir voru geingu í burt, og gjørðu svo sem Jesús hafði boðið þeim, og fundu sem hann hafði sagt þeim, b) folann bundinn hjá dyrunum úti á gatnamótinu og leystu hann. h) Og er þeir leystu folann, søgðu hans drottnar og nockrir af þeim þar stóðu, til þeirra: hvað gjørið þið leysandi folann? b) en þeir søgðu til þeirra svo sem Jesús hafði þeim boðið, c) Herrann þarf hans við, b) og þeir leifðu þeim það, l) og þeir færðu øsnuna og folann til Jesúm, og løgðu yfir þau sín klæði, og settu Jesúm þar uppá. d) En er Jesús fèck øsnuna, reið hann þar á, svo sem að skrifað er: Ottast eigi þú dóttir Zíon, sjá! þinn kóngur kèmur, ríðandi á einum øsnu-fola. En þetta skildu eigi hans lærisveinar í fyrstu, heldur þá eð Jesús var auglýstur, þá hugleiddu þeir að þetta var af honum skrifað, og þeir høfðu honum þetta gjørt. c) En er hann fór af stað, l) breiddi margt af fólkinu sín klæði á veginn, e) og aðrir hjuggu qvistu af trjánum, og dreifðu þeim á veginn. d) Þá er það mikla fólk heyrði, sem til hátíðardagsins var komið, að Jesús kom til Jerúsalem, þá tóku þeir sér qvisti af Pálmaviði, og geingu út í móti honum. c) Og þá hann tók að nálgast, og fór ofan af fjallinu, hóf upp allur flockur hans Lærisveina af fagnaði, Guð,

ad lofa med hárri røddu, yfir øllum þeim furdu-verkum, sem þeir høfdu sjed. d) En þad fólk hrós-adi hans gjørníngi, sem hjá honum var, þá hann kalladi Lazarum úr grøfinni, og af dauda uppvakti. Af því géck og fólkid út í móti honum, ad þad heyrdi ad hann hafdi gjørt svoddan teikn, e) en þeir er fyrirgeingu, og hinir sem eptirfylgdu, p) kølludu og søgdu: Hósíanna a) syni Davíds, p) lofadur sé sá sem kémur í nafni Drottins, d) kóngur Israels, l) og lofad sé ríki fødurs vors Davíds, þad ed kémur í nafni Drottins, e) Hósíánna í hærstum hæd-um! e) Fridur sé á himni, og dýrd á upphædum. Og nockrir af Phariseis þeir. ed voru med fólkinu søgdu til hans: Meistari! straffa þína Lærisveina, hann svaradi og sagdi til þeirra: eg segi ydur þad, ef þessir þegdu, þá mundu steinarnir hljóda.

Og sem hann tók meir ad nálgast, sá hann á borgina, og grét yfir henni, og sagdi: ef þú vissir þad, mundir þú á þessum tíma hugleida hvad til þíns fridar þénadi, en nú er þad dulid fyrir þín-um augum. Því ad sá tími mun yfir þig koma, þad þínir óvinir munu um þig skjaldborg setja, og þér umsát veita, og á alla vegu ad þér þreingja, og þeir munu þig eydileggja, og þín børn med þér, og ei munu þeir láta einn stein yfir ødrum standa, af því ad þú þecktir eigi þinn vitjunar tíma.

Og a) er hann fór inn í Jerúsalem, var øll borgin uppvægd, og sagdi: hvør er þessi? en fólkid sagdi: þetta er Jesús Spámadur af Nazareth úr Galilea. d) En Pharísei søgdu sín á milli: þér sjáid nú, ad þér orkid aungvu; sje! allur heimur hleypur eptir honum. l) Og Jesús géck inn í Must-

eri Guds, b) umskyngdi alla hluti; f) og tók út ad reka alla þá sem seldu og keyptu þar inni, a) og bordum verslunar=manna, og stólum þeirra er dúfur seldu hratt hann um, f) og sagdi til þeirra: skrifad er; mitt hús skal bæna hús kallast, en þér hafid gjört þad ad spillvirkja bæli. a) Og til hans geingu blindir og halltir í Musterid; og hann læknadi þá. En er Kénnimanna=höfdíngjar og Skriftlærdir sáu þá dásamlega gjörnínga, er hann gjördi, og þad börnin kölludu í Musterinu og sögdu: Hósianna! þeim syni Davíds, reiddust þeir og sögdu til hans: heyrir þú nockud hvad þessir seigja? Jesús sagdi til þeirra: hafid þér aldrei lesid þad, af munni úngbarna og brjóstmylkínga hefur þú lófid tilreidt? c) Og hvörs daglega kénndi hann í Musterinu, en Kénnimanna höfdíngjar og Skriftlærdir og yfirmenn lýdsins, sóktu eptir ad fyrir koma honum; og fúndu ei hvad þeir skyldu honum gjöra, því ad allt fólkid var honum áhángandi og heyrdi honum.

## 15. Kapítuli.

Grýskir girnast ad sjá Jésúm, en ad morgni forméelir hann Því óvaxtarlausa fikju=tré, og hreinsar Musterid enn ad nýu, og prédikar fyrir sínum Lærisveinum um krapt og verkan trúarinnar, út af Því uppvisnada fikju=tré. Matth. 21. Marc. 11. Jóhann. 12.

Og d) þar voru nockrir grýskir, medur þeim sem upp höfdu farid, ad tilbidja um hátídina. Þeir geingu til Philippum, hvör ed var úr Bethsaida af Galilæa, bádu hann og sögdu: herra! vér vildum fá

ad sjá Jesúm. Philippus kom og sagdi þad Andreas, en Philippus og Andreas søgdu þad Jesú. En Jesús ansadi þeim og sagdi: sá tími er nú kominn, ad Mannsins Sonur auglýsist.

Sannlega, sannlega seigi eg ýdur: nema þad ad hveiti-kornid falli í jørdina, og deyi, þá blífur þad einsamallt, en ef þad deyr, þá færir þad mikinn ávøxt. Hvør hann elskar sitt líf, hann glatar því, en hvør hann hatar sitt líf í þessum heimi, sá vardveitir þad til eilífs lífs. Ef nockur vill mér þjóna, þá fylgi hann mér eptir, og hvar eg em, þar skál og minn þénari vera, ef nockur þjónar mér, þá mun minn Fadir hann heidra.

Mín sála er nú hrygg, og hvad skal eg seigja? Fadir! hjálpa mér af þessum tíma, en fyrir því kom eg þó í þennann tíma. Fadir! byrtu nafn þitt, þá kom rødd af himni: eg hefi þad uppbyrt, og eg skal þad enn aptur uppbyrta. Þá sagdi fólkid sem hjá stód, og á heyrdi: þar urdu reidarþrumur; adrir søgdu: eingillinn taladi vid hann. Jesús svaradi og sagdi: eigi kom þessi rødd fyrir mínar sakir, heldur fyrir ydar sakir. Nú byrjast dómur yfir þessum heimi. Nú mun og þessa heims høfdíngi útrekast. Og þegar eg verd upphafinn frá jørdu, þá mun eg draga alla til mín; en þetta sagdi hann, teiknandi med hvørjum dauda er hann skyldi deya. Þá svaradi fólkid honum: vér høfum heyrt í løgmálinu, ad Kristur blífi ad eilífu. Hvørnin seigir þú þá ad Mannsins Syni byrjar upp ad hefjast? hvør er sá Mannsins Sonur? þá sagdi Jesús til þeirra: ljósid er enn litla stund hjá ýdur. Gángid því á medan þér hafid ljósid, svo ad myrkurin yfirfalli ýdur ecki;

sá er geingur í myrkrunum, hann veit eigi hvert hann fer. Á medan þér hafid ljósid, þá trúid á það, uppá það þér séud ljóssins børn. Þetta taladi Jesús, b) og þá qvøld var nú komid, a) forlét hann þá, d) gékk burt og fordadi sér fyrir þeim, a) og gékk út af borginni c) til Bethaníam b) med þeim tólf, a) og dvaldi þar. d) Og þó hann gjørdi slík teikn fyrir þeim, þá trúdu þeir þó eigi á hann, svo ad uppfylltist ordsaga Esaíæ Spámanns, þá hann sagdi: Herra! hvør trúir vorri prédikun, og hvørjum er armleggur Drottins opinberadur? fyrir því kunnu þeir eigi ad trúa, þvíad Esaías segir enn aptur: hann blindadi augu þeirra, og forherdti hjørtu þeirra, svo ad þeir sæi eigi med augunum, né skildi med hjartanu, ad þeir umsnúist og eg hjálpi þeim. Þetta sagdi Esaías, þá hann leit hans dýrd, og taladi um hann. Margir af høfdíngjum trúdu þó á hann, en fyrir sakir Pharíseanna, þá medkéndu þeir það eigi, svo ad þeir væri ei forbodadir, þvíad þeir vildu heldur hafa vegsemd hjá mønnum, enn vegsemd hjá Gudi.

En c) ad morgni annars dags, er hann gékk aptur til borgarinnar út af Bethanía, húngradi hann. Og hann sá álengdar eitt fíkjutré vid veginn, b) það er laufblód hafdi, þá gékk hann ad vita hvørt hann finndi nockud á því, og þá hann kom þángad ad, c) fann hann eckért á því nema laufblødin alleina, b) þvíad þá var eigi fíknanna tíminn kominn. Jesús svaradi og sagdi til þess: a) hédan í frá vari aldrei nockur ávextur af þér, (og) hér b) eptir eti einginn af þér ávøxt ad eilífu, og hans Lærisveinar heyrdu á það, a) og það fíkjutré visnadi upp jafn=

snart. b) Þeir komu og til Jerúsalem, og Jesús gèck inn í Musterid, tók til út ad reka þá sem seldu og keyptu í Musterinu, bordum þeirra er reidi-peníngum skiptu, og stólum þeirra er dúfur seldu, hratt hann um, og ei lofadi hann ad nockur bæri nockurt kér um Musterid, og hann kénndi og sagdi til þeirra: stendur þad eigi skrifad, ad mitt hús skuli kallast bæna hús af øllum þjódum? en þér hafid gjørt þad ad spillvirkja bæli. Og þetta kom fyrir þá Skriftlærdu, og Kénnimanna høfdíngja, og þeir þeinktu um hvørnin þeir mættu fyrirkoma honum. En þeir óttudust hann, af því ad allur lýdur dádist ad hans kénníngu. d) Og Jesús kalladi og sagdi: hvør sem trúir á mig, hann trúir eigi á mig, heldur á þann sem mig séndi, og hvør hann sjer mig, hann sjér þann sem mig sendi. Eg er eitt ljós í heiminn komínn, svo ad hvør sem á mig trúir sé eigi í myrkrunum. Og hvør sem heyrir mín ord og trúir ecki, hann mun eg ei dæma, því ad eg kom eigi til ad dæma heiminn, heldur ad frelsa heiminn. Hvør hann fyrirlítur mig, og medtekur eigi mín ord, hann hefur nú þegar þann hann dæmir. Þad ord sem eg taladi, þad mun dæma hann á efsta deigi. Því ad eg taladi ei af sjálfum mér, heldur Fadirinn sem mig sendi, hann gaf mér eitt bodord, hvad eg skyldi gjøra og mæla; og eg veit ad hans bodord er þad eilífa líf. Þar fyrir þad ég tala, þad tala ég svo sem Fadirinn sagdi mér. b) Og um qvøldid gèck hann út af borginni.

Og ad morgni þá geingu þeir þar fram hjá og sáu fíkjutréd þurt ordid ad rótum. a) Og er Lærisveinarnir sáu þad, undrudust þeir og søgdu: hvørnin

er fíkjutréd svo snart visnad? b) og Pétur minntist þar á og sagdi vid hann: Rabbí! sjádu fíkjutréd hvørju þú formæltir, er uppvisnad, c) en Jesús svaradi og sagdi til þeirra: b) hafid trú til Guds. Sannléga c) seigi ég ydur: a) ef þér hafid trúna og efid eigi, þá munud þér eigi einasta gjöra slíkt vid fíkjutréd, heldur b) hvør helst hann segdi til þessa fjalls, lypt þú þér upp, og fleyg þér í sjóinn, og efadi eigi í sínu hjarta, heldur trydi ad þad mundi svo ské hvad hann seigir, þá mun þad og ské hann, hvad hann seigir. Fyrir því seigi ég ydur: c) allt hvad helst þér bidjid í ydvarri bæn, trúid ad þér ødlist þad, þá mun þad henda ydur. b) Og nær þér standid og bidjist fyrir, þá fyrirgéfid ef þér hafid nockurskonar ødrum í gégn, svo ad ydar Fadir sem er á himnum fyrirgéfi ydur ydar brot. Hvíad ef þér fyrirgéfid eigi, þá fyrirgéfur og eigi ydar Fadir ydur, sem er á himnum, ydar brot.

## 16. Kapítuli.

Andsvar Kristi sem hann gaf Kennimønnunum og Øldúngunum, þá þeir spurdu hann af hvørjum myndugleika hann kenndi. Eptirlíking af þeim tveimur sonum, sem fadirinn sendi í víngard sinn, og um víngardinn er leigdur var þeim íllu akurmønnum. Matth. 21. Marc. 11. og 12. Lúc. 20.

Þeir b) komu og aptur til Jerúsalem, c) og þad skédi á einum þessara daga, a) sem hann kom b) og géck i Musterinu, c) þá hann var ad kénna fólkinu, og ad prédika Evangelíum, l) geingu til

hans Prestahøfdíngjar, Skriftlærdir og Öldúngar lýdsins, tøludu til hans, og søgdu: seig oss af hvørri makt þú gjørir þetta? og hvør hefur géfid þér vald til ad þú gjørir þetta? en Jesús svaradi og sagdi til þeirra: eg vil og svo spyrja ydur ad einu ordi, e) ef þér seigid mér þad, vil eg seigja ydur út af hvada makt eg gjøri þetta. h) Svarid (og) seigid mér: l) skírn Jóhannis hvadan var hún? hvørt af himni edur af mønnum? svarid mér, en þeir hugsudu med sjálfum sér og søgdu: ef vér seigjum ad hún væri af himni, þá seigir hann til vor, því trúdud þér honum þá eigi? en ef vær seigjum, hún hafi verid af mønnum, þá meigum vær óttast fólkid (og) þá mun allur lýdur lemja oss grjóti, því allir héldu ad Jóhannes væri sannur Spámadur, og þeir svørudu og søgdu til Jesú: ad þeir vissi ei hvadan hún væri. Og Jesús svaradi og sagdi til þeirra: þá seigi eg ydur og eigi heldur, af hvørri makt ad eg gjøri þetta. l) Hann tók og til ad tala vid þá í eptirlíkíngum, a) En hvad lítst ydur? madur nockur hafdi tvo sonu, og géck til hins fyrsta og sagdi: son minn! far þú í dag ad vinna í víngardi mínum. En hann svaradi og sagdi: ei vil eg þad gjøra; eptir á ydradi hann þess og géck í burt. Og hann géck til hins annars, og sagdi slíkt hid sama, en hann svaradi og sagdi: já herra! og fór ecki; hvør af þeim tveimur gjørdi fødursins vilja? þeir søgdu til hans: hinn fyrsti; Jesús sagdi til þeirra: sannlega seigi eg ydur, ad tollheimtarar og pútur meiga fyrri komast í himna-ríki enn þér. Jóhannes kom til ydar og kénndi ydur þann rétta veg, og eigi trúdud þér honum, en tollheimtumenn og pútur trúdu honum.

Og þó ad þér sæud þetta vel, gjørdu þér aungva yfirbót, svo ad eptir á hefdud þér honum trúad.

En c) hann tók þá ad seigja til fólksins þessa eptirlíking (seigjandi): heyrid a) enn adra eptirlíking. Hús-fadir nockur var þar, l) sá ed plantadi víngard, e) og gjørdi gard í kríngum hann, og gróf í honum vín presßu og bygdi þar upp turn l) og leigdi hann sídan víngards mønnum, og ferdadist lángt í burt utanlands lángann tíma. Og er ávaxtar tíminn var kominn, h) sendi hann einn sinn þjón til víngards-mannanna, ad hann tæki af víngards-mønnunum (og) þeir gjæfi honum ávøxt af víngardinum, en víngards-mennirnir handtóku hann, slóu hann og létu hann tóm-hendtann frá sér fara. Og enn aptur sendi hann annan þjón til þeirra, en þeir strýktu hann, og høfudlestu hann grjóti, dárudu hann, og létu erindisláusann í burt frá sér fara. Og enn yfir þad fram, sendi hann út hinn þridja, hvørn þeir lemstrudu sárum, ráku burt og aflífudu sídan. e) (Framar) sendi hann adra þjóna út sem fleiri voru hinum fyrri, og þeim gjørdu þeir slíkt hid sama, suma húdstrýktu þeir, en suma drápu þeir. c) Þá sagdi herrann víngardsins, hvad skal eg tilgjøra? eg vil senda son minn elskulegann, h) þá hafdi hann einn eptir einn einka son sem hann hafdi kjærann, og hann sendi hann seinastann til þeirra, og sagdi: l) má vera ad þá þeir sjá hann, þá feili þeir sér fyrir syni mínum. En þeir hinir sømu víngards-menn er þeir sáu soninn, þeinktu þeir med sjálfum sér, og søgdu hvør til annars: þessi er erfínginn, komid þér og aflífum vær hann, svo ad vor verdi arfurinn, og leggjum vér undir oss hans arfleifd. Og þeir gripu hann, ráku hann út af

víngardinum, og lífletu hánn. a) En nær herraun víngardsins kémur, hvad mun hann gjøra vid þessa víngards-menn? þeir søgdu til hans: þeim vondu mun hann vondslega fyrirfara og sinn víngard byggja ødrum víngards-mønnum, þeir ed honum ávøxt gjalda í réttaun tíma. Jesús sagdi til þeirra: (já) hann h) mun koma og tortína þessum víngardsmønnum, og byggja sinn víngard ødrum; c) þá þeir heyrdu þad, søgdu þeir: fjærri sé því. En hann horfdi á þá og sagdi: hvad er þá þad sem stendur skrifad? e) hafid þér aldrei lesid í Ritníngunni þessa skrift? l) þann stein hvørn uppbyggendur burtkøstudu, hann er ordinn ad hyrníngar steini, af Drottni er þad gjørt, og er undarlegt fyrir vorum augum. a) Fyrir því seigi eg ydur: ad Guds ríki mun frá ydur takast, og heidíngjum géfid verda, þeir sem þar af ávøxt fæta. f) En hvør yfir þennann stein fellur, hann mun sundurmeljast, en yfir hvørn hann fellur, þann mun hann sundurmerja. Og þá þeir yppurstu Prestar, Skriftlærdir og Pharisei heyrdu hans eptirlíkíngar, l) leitudu þeir vid, hvørnin þeir feingi hendur á hann lagt í þad sinn, þvíad þeir skildu vel ad hann sagdi þessa eptirlíkíng í móti þeim (og) uppá þá. En þeir óttudust fólkid, a) því þad héllt hann fyrir Spámann.

## 17. Kapítuli.

**Eptirlíkíng um brúdkaupid og brúdkaups klædid, item andsvar Kristí uppá spurnínguna um Keysarans skatt og Sadúcearanna spurníng um upprisu framlidinna. Matth. 22. Marc. 12. Lúc. 20.**

Og Jesús a) svaradi og taladi i annad sinn í eptirlíkíngum til þeirra og sagdi: himnaríki er

líkt þeim Kóngi sem brúdkaup gjordi syni sínum, og sendi út sína þjóna ad kalla bodsmennina til brúdkaupsins og þeir vildu eigi koma. Í annad sinn sendi hann adra þjóna út, og sagdi: seigid bodsmønnunum, sjáid! mína máltíd hefi eg tilbúid, mínir uxar og alid fé eru slátradir, og allt er til reidu búid, komid til brúdkaupsins, en þeir forsmádu þad, og geingu í burt, einn á sinn akur, en annar til sinnar sýslunar. En nockrir gripu hans þjóna, dárudu þá og drápu. En þá Kóngurinn heyrdi þad, vard hann reidur, og sendi út sinn her og fyrirfór þessum mordíngjum, og brendi borg þeirra.

Þá sagdi hann til sinna þjóna: brúdkaupid er er ad sønnu reidubúid, en géstirnir þeir voru þess ei verdugir. Fyrir því farid út á strætin, og bjódid til brúdkaupsins hvørjum sem þér finnid, og þjónarnir geingu út á strætin, og samansøfnudu øllum þeim þeir fundu, vondum og gódum, og bordin urdu alskipud. Þá géck Kóngurinn inn ad sjá géstina, og hann sá þar mann, eigi klæddann brúdkaups klædum, og sagdi til hans: vinur! hvørnin gécksttu inn híngad hafandi ecki brúdkaups klædi? en hann þagdi, Kóngurinn sagdi þá til sinna þénara: bindid hans hendur og fætur, og varpid honum í ytstu myrkur, þar mun vera óp og tannagnýstran, því ad margir eru kalladir en fáir útvaldir.

Og e) Pharisei forlétu hann, geingu í burt og heldu rád hvørnin þeir skyldu veida hann í ordum. e) Þeir høfdu og vardhald á honum, b) og sendu út til hans tals-menn, sína Lærisveina, nockra af Phariseis, med Heródis þénnrum, c) hvørjir sér áttu ad breyta sem væri þeir aldyggvir, svo ad þeir gætu veidt

hann í ordum, hvar med þeir kynnú ad afhenda hann valdinu, og makt landstjórnarans.

l) Og þeir komu, spurdu hann ad og sögdu: Meistari! vær vitum ad þú ert sannsögull, seigir og kénnir rétt, og skeitir eigi nockrum, því ad þú ser ei ad mannvirdíngum, heldur kénnir þú Guds veg réttilega. a) Fyrir því seig oss hvad þér lítst, l) er þad rétt ad menn skuli géfa Keysaranum skatt edur eigi? b) skulum vær hann géfa edur ecki géfa? l) en þá Jesús formerkti þeirra slættskap, sagdi hann til þeirra: hvad freistid þér mín, hræsnarar? færid mér einn peníng ad eg sjái hann, og sýnid mér myntina skattsins. e) Og þeir feingu honum einn peníng. Og hann sagdi til þeirra: hvörs er þessi mynd og yfirskrift? l) þeir svörudu og sögdu honum: Keysarans. Þá svaradi Jesús og sagdi til þeirra: géfi þá Keysaranum hvad Keysarans er, og þad Gudi sem Guds er. a) Og er þeir heyrdu þad, furdadi þá á honum. c) Og þeir gátu eigi straffad hans ord fyrir fólkinu, undrandi hans andsvar og þögnudu, a) forlétu hann og geingu íburt.

l) Á þeim sama deigi geingu nockrir af Sadúceis til hans, hvörjir ed halda upprisuna ei vera, og spurdu hann ad og sögdu: Meistari! Móyses hefur sagt, (og) oss svo fyrir skrifad, ad ef ad nockurs manns bródir andadist, og hefdi eigin-konu eptir, og léti eingin börn eptir sig, þá skyldi hans bródir eiga þá sömu hans eigin-konu, og uppvekja svo sínum bródur sædi. En hjá oss voru sjö brædur, og hinn fyrsti fastnadi sér eigin-konu, og hann andadist, og af því hann hafdi eckért sád, lét hann bródur sínum eptir sína eigin-konu. Og sá annar tók hana og andadist, lét

og eigi sæði eptir. Og líka hinn þriðji átti hana, og einnin þeir sjø tóku hana allir, og létu eigi børn eptir og ønduðust. Seinast epir þá alla andaðist og konan. En í upprisunni þá er þeir rísa upp, hvørs þeirra sjø eigin-kona þá verður hún? því að allir þeir sjø hafa hana haft til eignarkonu. Og Jésús svaraði og sagði til þeirra: c) er eigi svo að þér villist þar fyrir, að þér vitið ei Ritníngarnar, og eigi heldur Guðs krapt? c) børn þessarar veraldar gyptast, og láta gypta sig, en þeir sem verðugir verða að øðlast hinn annann heim, og upprisuna af dauðum, þeir munu hvørki gyptast né sig gypta láta. b) Því að þá þeir rísa upp af dauða, qvongast þeir ei né gyptast, c) því þeir géta ei síðan dáið, l) heldur eru þeir líkir Einglum Guðs á himnum, og eru Guðs børn,, með því þeir eru upprisunnar børn. En um þá dauðu að þeir skuli upprísa, c) hefur Móyses auðsýnt. b) Hafið þér ecki lesið í Móysis bók, a) hvað af Guði er yður sagt? b) hvørnin sagði Guð til hans hjá skógar-runninum? l) eg em Guð Abrahams, Guð Isaacs og Guð Jacobs. En Guð er ei Guð dauðra, heldur Guð lifandi manna, c) þvíað þeir lifa honum allir, b) af því villist þér mjøg. a) Og er fólkið heyrði þetta, undraðist það hans kénníng. c) Þá svøruðu nockrir af hinum Skriftlærðu og søgðu: Meistari! þú hefur rétt sagt. Og þeir dyrfðust eigi framar að spyrja hann nockurs.

## 18. Kapítuli.

Spurníng þess Skriftlærða, hvørt að væri hæðsta boðorð í løgmálinu. Item spurníng Kristi hvørs Son hann væri. Matth. 22. Marc. 12. Lúc. 20.

En a) þegar Pharisei heyrdu þad hann hafdi þagg-
ad Sadúceos, söfnudust þeir saman. e) Og
einn lögvitríngur medal þeirra af Skriftlærdum, b)
gékk til hans, sá er heyrt hafdi þá spyrjast á, og sá
þad hann hafdi svarad þeim vel, og spurdi hánn ad,
a) freistadi hans og sagdi: Meistari! e) hvört er
þad ædsta bodord af öllum í lögmálinu? en Jesús
svaradi og sagdi til hans: b) þad er þad ædsta bod-
ord af öllum: heyr þú Israel! Drottinn Gud
vor er einn Gud. e) Og elska skaltu Drottinn Gud
þinn af öllu hjarta þínu, og af allri sálu þinni, og
af öllu þínu hugskoti, og af öllum kröptum þínum.
Þetta er hid helsta og mesta bodord, en annad er
og þessu líkt, elska skaltu náúnga þinn sem sjálfann
þig, b) Eigi eru þar önnur bodord þessum meiri.
a) J þessum tveimur bodordum heingir allt lögmál
og Spámennirnir. b) Og hinn skriftlærdi sagdi til
hans: Meistari! í sannleika sagdir þú vel, því ad
einn er Gud, og einginn er þar annar enn hann.
Og elska hann af öllu hjarta, og af öllu hugskoti, af
allri sálu, og af öllum kröptum, og ad elska náúnga
sinn sem sjálfann sig, þad er öllum brennifórnum
meira og öllu offri. En er Jesús sá ad hann svar-
adi vislega, sagdi hann til hans: eigi ertu lángt
frá Guds ríki. Og einginn þordi þá ad spyrja hann
framar meir.

En a) þegar Pharisei voru nú til samans, spurdi
Jesús þá ad, h) er hann kénndi í Musterinu og sagdi
til þeirra: a) hvad virdist ydur um Kristum? hvörs
Son hann sé? þeir sögdu Davíds. l) Jesús svaradi
og sagdi til þeirra: h) hvörnin seigja Skriftlærdir
Kristum vera Davíds son? (og) hvörnin a) kallar

Davíð hannþá í anda einn Drottinn? b) hvíað Davíð seigir sjálfur fyrir heilagann Anda, c) í Psálmabókinni: l) Drottinn sagði mínum Drottni, sit þú til minnar hægri handar, þar til eg legg óvini þína til skarar þinna fóta. h) Þar nefnir Davíð hann sinn Drottinn, hvørnin er hann þá hans sonur? a) og einginn gat honum einu orði svarað, og eigi dyrfðist nockur upp frá þeim deigi hann framar að spyrja. b) Og margt fólk heyrði honum gjarnan.

## 19. Kapítuli.

Avítunar prédikun Herrans Kristí sem hann framsetti fyrir fólkinu um lesti þeirra Skriftlærðu og Pharíseanna, hótandi þeim hørðu straffi. Matth. 23. Marc. 12. Lúc. 20.

Þá l) talaði Jesús til fólksins og til sinna lærisveina, b) kénndi þeim og sagði til þeirra: a) á Móysis stóli sitja Skriftlærðir, og Pharíseí. Allt hvað þeir seigja yður þér skuluð halda, það haldið og gjørið, en eptir þeirra verkum skuluð þér eigi gjøra. Því að þeir seigja það, og gjøra ei. Þeir samanbinda þúngar byrðir og óbærilegar, og leggja þær mønnum á herðar, en sjálfir vilja þeir ei áhræra þær fíngri sínum, þvíað øll sín verk gjøra þeir að þeir sjáist af mønnum. Sín minníngar-bløð breiðka þeir, og faldi sinna klæða stækka þeir. l) Þeir sitja gjarnan efst til borðs í géstaboðum, og í samkunduhúsum, og vilja gjarnan qveðjur á torgum. b) Varið yður við Skriftlærðum, þeim sem gánga vilja í síðum klæðum, a) og af mønnum **Rabbi** kallaðir verða. En þér skuluð ei láta kalla yður **Rabbi**, þvíað

einn er ydar Meistari Kristur, en þér allir erud brædur. Og aungvann skulud þér fødur kalla á jørdu, þvíad einn er ydar Fadir sá sem á himnum er. Og þér skulud ei láta ydur Meistara kalla, því einn er ydar Meistari Kristur. Sá sem ad mestur er ydar, sé hann ydar þénari. Því hvør sjálfann sig upphefur, sá mun nidurlægjast, og hvør sjálfann sig nidurlægir, hann mun upphafinn verda. Vei ydur Skriftlærdum og Phariseis, þér hræsnarar! hvørjir apturlokid himnaríki fyrir mønnum, ei gángid þér þar inn, og þeim er þar inn vilja gánga, þá lofid þér ei þar inn. Vei ydur Skriftlærdum og Pariseis, þér hræsnarar! l) hvørjir eckna hús uppetid med yfirhylmíngu lángra bæna, fyrir þad munud þér þess meiri fordæmíng ødlast. a) Vei ydur Skriftlærdum og Phariseis, þér hræsnarar! hvørjir um kríng farid sjó og lønd, svo ad þér gjørid einn ad gydíngi, og nær hann er þad ordinn, gjøri þér hann ad barni helvítis, tvøfaldt meir enn þér erud. Vei ydur blindum leidtogurum! þér sem seigid: hvør hann sver vid Musterid, þad er eckért, en hvør hann sver vid gullid Musterisins, sá er sekur, þér heimskir og blindir! hvørt er meira gullid eda Musterid, hvørt ed helgar gullid? og hvør ed sver vid alltarid, þad er eckért, en hvør hann sver vid þad offur sem á því er, sá er sekur. Þér heimskir og blindir! hvørt er meira offrid edur altarid þad sem offrid helgar? fyrir því, hvør hann sver vid altarid, sá sver vid þad sama, og vid allt hvad þar er uppá, og hvør hann sver vid Musterid, sá sver vid þad, og vid þann sem þar byggir inni. Og hvør hann sver vid himininn, sá sver vid Guds sæti, og vid þann sem þar uppá situr. Vei ydur

Skriftlærdum og Phariseis, þér hræsnarar! hvørjir tíundid Myntu, Aneth og Kumen, og yfirgéfid þad hvad þíngst er í løgmálinu, einkum dóminn, miskunsemd og trúna, þetta byrjadi ad gjøra og hitt eigi eptir ad skilja. Þér blindir leidtogarar! sem sýid mífluguna, en svelgid úlfaldann. Vei ydur Skriftlærdum og Phariseis, þér hræsnarar! sem hreinum haldid hid ytra bikurum og diskum, en innan eru þér fullir ráns og óhófsemi. Þú blindur Pharisear! hreinsa fyrst hid innra á bikurum og diskum, svo ad hid ytra verdi og hreint. Vei ydur Skriftlærdum og Phariseis, þér hræsnarar! hvørjir líkir erud forfágudum leidum framlidinna, hvør ed utan sýnast føgur, en innan eru þau full af daudra manna beinum, og allri óþeckt. Svo erud og þér, hid ytra sýnist þér ad vera gódir fyrir mønnum, en hid innra erud þér fullir hræsni og ódygda. Vei ydur Skriftlærdum og Phariseis, þér hræsnarar! hvørjir upphyggid Spámanna leidin, og prýdid grafir rettlátra manna, og seigid: ef vér hefdum verid á døgum fedra vorra, skyldum vær eigi verid hafa hluttakandi med þeim í blódi Spámannanna. Svo berid þér sjálfir ydur vitni, ad þér erud þeirra børn sem Spámennina aflífudu, nú vel. Uppfyllid mælíng fedra ydvarra. Þér eitur ormar! þér nødru kyn! hvørnin viljid þér umflýa helvítska fyridæmíng.

Fyrir því, sjáid! eg sendi til ydar Spámenn, Spekínga og Skriftlærda menn, og nockra af þeim munud þér aflífa og krossfesta, og suma munud þér húdstríkja í samkundu-húsum ydar, og af annari borg í adra munud þér þá ofsækja. Svo ad yfir ydur komi allt réttlátt blód, sem á jordina út er hellt,

ífrá blóði Abels réttláta, allt til blóðs Zacharíæ, sonar Barrachía, hvørn þér dráþuð á milli Musterís og altarísins. Sannlega seigi eg ydur: að allt þetta mun koma yfir þessa kynslóð. Jerúsalem! Jerúsalem! þú sem aflífar Spámennina, og grýtir þá sem til þín eru sendir, hvørsu opt hef eg viljað samansafna børnum þínum, líka sem hænan safnar úngum sínum undir vængi sér, og þér hafið eigi viljað? sjáið! ydvart hús skal ydur í eydi látið verda, því að eg seigi ydur: þér munuð eigi sjá mig upp frá þessu, þar til þér seigið: lofaður sé sá sem kémur í nafni Drottins.

## 20. Kapítuli.

Kristur hrósar gjøf þeirrar fátæku ekkjunnar, sem kastaði tveimur skørfum í Guðs kistuna, og seigir fyrir eydileggíng Musterisins, og Jerúsalems borgar. Matth. 24. Marc. 12 og 13. Lúc. 21.

Og h) Jesús settist þvert yfir frá Guðs kistunni, en hann leit upp og sá hvørnin fólkið varpaði peníngum í Guðs kistuna, og margir ríkir løgðu þar mikið í, þá sá hann og svo eina ekkju fátæka sem kom og lét tvo skarfa inn, það er einn peníng. Hann kallaði sína Lærisveina til sín, og sagði þeim: sannlega seigi eg ydur, að þessi fátæka ekkja lét meir í Guðs kistuna, enn allir þeir sem létu þar í, því þeir hafa allir af sínni yfirfljótanlegri eign innlagt til Guðs offurs, en þessi hefur af volæði sínu þar innlagt allt hvað hún hafði, sína bjørg alla.

Og e) þá Jesús gékk út af Musterinu, b) sagði einn af hans Lærisveinum við hann: Meistari! sjá

hvílíkir steinar og hvílík bygging þetta er? Jesús svaradi og sagdi til hans: sjer þú allar þessar stóru byggingar? hér mun eigi eptirlátast steinn yfir steini, sá er ei verdi sundurbrotinn. a) Og hans Lærisvein-ar geingu til hans, ad þeir sýndi hönum bygging Musterisins. e) Og er nockrir sögdu um Musterid ad þad væri fágad med fagra steina, og klenódíum, f) sagdi hann til þeirra: sjáid þér ecki allt þetta? sannlega seigi eg ydur, ad sá tími mun koma á hvørjum ad allt þetta, hvad þér sjáid, mun einginn steinn yfir ødrum látinn, sá er eigi muni nidurbrot-inn verda.

En e) sem hann sat á fjallinu Olíveti, gégnt Musterinu, geingu hans Lærisveinar til hans eins-lega, Petrus og Jacóbus og Jóhannes og Andreas, spurdu hann ad og sögdu: l) Meistari! seig þú oss nær allt þetta skal ské, og hvørt teikn skal verda, þá þetta skal allt fullkomnast, og hvørt teikn er þinnar tilkomu, og veraldarinnar enda? en Jesús svaradi og sagdi til þeirra: sjáid til ad ei fái nockur villt yd-ur, þvíad margir munu koma í mínu nafni og seigja: eg em Kristur, og sá tími tekur ad nálgást, og þeir munu marga villa; fylgid þeim ei eptir. En nær þér heyrid af bardøgum, upphlaupum og hernadar-tídindum, sjáid til ad þér skelfist eigi, þvíad allt þetta hlýtur fyrst ad ské. En þó er þá ei endirinn strax kominn. Þá sagdi hann til þeirra: þvíad þar mun ein þjód hefja sig upp í móti annari, og eitt kóngaríki í móti ødru, og miklir jardskjálftar munu þar verda allstadar, húngur og drepsóttir, hrelling-ar og skélfingar, og stór teikn munu þar ské af himni, þetta er upphaf eymdanna. En sjáid þér ydur fyr-

ir. c) En fyrir allt þetta munu þeir hendur á ydur leggja, og ofsókn veita, l) og ydur munu þeir framselja í rádstefnur, og í sín samkundu-hús og myrkvastofur, dragandi ydur fyrir kónga og lands-höfdíngja, fyrir míns nafns sakir, og þér munud stríktir verda minna vegna. Og þetta mun ydur henda til eins vitnisburdar yfir þá. a) Þá munu þeir ofurselja ydur í hardqvæli, og ydur munu þeir líf fyrra, og þér verdid hatadir af öllum þjódum, fyrir míns nafns sakir, og þá munu margir hneixlast, og innbyrdis hvör annann svíkja og hata. Og margir falsspámenn munu sig þá upphefja, og marga afvega leida. Og af því ad ránglætid mun yfirgnæfa, mun kjærleikur margra kólna. c) Og Evangelíó ríkisins byrjar ádur ad prédikast um allann heim, a) til vitnisburdar yfir allar þjódir, og þá mun endirinn koma. b) Þá þeir nú leida ydur og framselja, sorgid eigi fyrir hvad þér skulud tala, verid ekki heldur þar um forþeinktir ádur, heldur hvad ydur gésst á sömu stundu, þad talid, þvíad ei erud þér (þeir) sem tala, heldur heilagur Andi. c) Því setjid ydur í hjarta þad þér hugsid eigi fyrir, hvörnin þér skulud forsvara ydur, þvíad eg mun géfa ydur munn og vitsku, hvörjum ad eigi skulu í gégn standa, né móti mæla allir ydar mótstödu menn. En þér munud og framseldir verda af foreldrum og brædrum, frændum og vinum, og nockra af ydur munu þeir lísi svipta. b) Einn brodir mun selja annann í daudann, og fadir soninn, börnin munu setja sig í móti foreldrunum, og styrkja til ad deyda þá. h). Og þér munud verda hatadir af hvörjum manni fyrir míns nafns sakir. c) Og eckért hár af

ydar høfdi skal þó farast. Eignist med þolinmædi sálir ydar. e) En hvør ed stadfastur blífur allt til enda, mun hólpinn verda. e) En nær þér sjáid Jerúsalem umkríngda af her, þá skulud þér vita ad nálgast tekur hennar eydileggíng. e) En þá þér sjáid nú svívyrdíng foreydslunnar, af hvørri sagt er fyrir Spámaninn Daníel, ad hún stendur í þeim heilaga stad hvar eigi byrjadi, hvør ed þad les, hann hyggi þar ad. l) Hvør þá er á Gydíngalandi, flýi sá uppá fjøll, e) og hvør þá er midt inni, fari hann út þadan, og hvør á løndum uppi er, hann komi eigi þar inn. e) Og hvør hann er á ræfri, hann fari eigi nidur í húsid, og komi ecki þar inn nockud ad taka úr sínu húsi, og sá sem er á akri, hann snúist eigi á bak sér aptur ad sækja klædi sín, e) þvíad þad er hefndar dagur, svo ad uppfyllt verdi allt hvad skrifad er. l) En vei þúngudum konum, og þeim sem hafa børn á brjósti á þeim tímum. e) En bidjid ad flótti ydar verdi ei um vetur edur á Sabbatz-deigi, e) þvíad mikil harmqvæli munu verda á jørdu, og reidi yfir þetta fólk, (og) á þessum e) døgum verda slíkar hørmúngar sem ei hafa verid hér til frá upphafi sképnunnar þá sem Gud skapadi, og allt til þessa, og eigi heldur mun verda. e) Og fyrir sverds eggjum munu þeir falla og herleiddir verda medal allra þjóda, og Jerúsalem mun undirtrodast af heidíngjum, þar til ad uppfyllast tímar heidíngja. e) Og ef Drottinn stytti ecki þessa daga, yrdi einginn madur hólpinn, en fyrir útvaldra sakir, hvørja hann útvaldi, þá skulu þeir dagar styttast. Og ef nockur seigir þá til ydar, sjá! hér er Kristur, eda sjá! þar er hann, þá skulud þér eigi

því trúa, þvíað upp munu rísa margir fals-kristar og fals-spámenn, og þeir munu gjöra stór teikn og undur, svo að í villu munu leiðast ef ské mætti einnsinn útvaldir. Því sjáið yður fyrir; sjé! ég sagði yður allt þetta fyrir, a) þar fyrir nær þeir seigja til yðar, sjáið! hann er á eyðimörku, þá gángið eigi út, sjáið! hann er í herbergi, þá trúið eigi, þvíað svo sém elding útgengur af austri, og skín allt til vesturs, líka svo mun vera tilkoma Mannsins Sonar. Þvíað hvar helst að hræið er, þángað safnast ernirnir.

## 21. Kapítuli.

Kristur spáir fyrir um þann síðasta dag, og sína aðra tilkomu, einnin þau teikn er áður ské muni, og hvörnin menn skuli sig þar tilbúa. Matth. 24. Marc. 13. Lúc. 21.

En c) á þeim tíma, strax eptir þessa hörmúng, c) mun það ské teikn á sólu og túngli og stjörnum, c) sólin og túnglið munu missa sitt skin, og stjörnurnar munu af himnum hrapa, c) og á jörðu mun fólkið qvíðandi verða, og þeir munu örvínlast, sjór og bylgjur munu þjóta, og menn munu fyrir hræðslu vanmegnast, og af eptirbíðingu þeirra hluta, hvörjir eð koma skulu á jörðina; l) þvíað kraptar himnanna munu hræra sig, a) og þá mun teikn Mannsins Sonar birtast á himni, og munu þá gráta allar kinqvíslir jarðar, og þá munu þeir sjá Mannsins Son komandi í skýum himins, með stórum krapti og mikillri dýrð. c) Og þá mun hann útsénda sína Engla með básún og stórri raust, og hans útvöldum munu þeir samansafna af fjórum vindum, allt af enda

jardar til himins enda. c) En nær þettad tekur ad ské, þá lítid upp, og upphefjid ydar høfud, af því ad ydar endurlausn tekur ad nálgast. Og hann sagdi þeim eina eptirlíking. Skodid fíkjutréd, c) nær þess kvistir gjørast frjófir, og laufin útsprettà, c) og øll tré, nær þeirra alldin tekur út ad springa, l) þá sjáid þér á þeim og merkid þad sumarid er í nánd. Svo og líka nær þér sjáid allt þetta byrjast, þá vitid ad Guds ríki er nærri fyrir dyrum. Sannlega segi eg ydur: ad þessi kynslód mun eigi forgánga, þar til ad allt þettad ské. Himin og jørd munu forgánga, en mín ord munu eigi forgánga. c) En af þeim degi og stundu veit einginn, ecki Englar á himnum, og eigi Sonurinn, nema minn Fadir einsamann. c) En varid ydur ad ydar hjørtu þyngist eigi af ofáti og ofdrykkju, og med sorgum þessarar næríngar, ad eigi komi þessi dagur hastarlega yfir ydur, þvíad líka svo sem snaran mun hann koma yfir alla þá sem á jørdu byggja. a) En líka sem var um daga Nóa, svo mun og verda tilkoma Mannsins Sonar, því svo sem þeir voru á þeim døgum fyrir flódid, ad þeir átu, þeir drucku, þeir giptust og létu gipta sig, allt til þess dags, á hvørjum Nói gécк í Ørkina, og þeir sættu því ei, þar til ad flódid kom, og tók þá alla í burt. Svo mun og vera í tilkomu Mannsins Sonar, þá munu tveir á akri vera, og mun einn upptekinn, en annar forlátinn verda, tvær munu í einu qvernhúsi malandi verda, og mun ein upptekin, og ønnur forlátin verda. l) Fyrir því sjáid til, vakid og bidjid alla tíma, c) svo ad þér mættud verdugir vera ad umflýa allt þetta, hvad eptirkomandi, er, og ad standa svo frammi fyrir Mannsins Syni c) þvíad

þér vitid eigi nær tíd er, (og) á hvørri stundu ydar Herra mun koma. a) En þad skulud þér vita, ad ef hús-fadirinn vissi á hvørri stundu ad þjófurinn kjæmi, mundi hann vaka, og láta ei sitt hús í sundur-grafa. Fyrir því verid þér reidubúnir, þvíad Mannsins Son mun koma á þeirri stundu þér meinid ecki, b) svo sem sá madur er ferdadist lángt burt, forlét sitt hús, og gaf sínum þjónum yfirvald, sérhvørjum sitt verk, og baud dagverdinum ad hann vekti. a) En hver hann er trúr þjón og forsjáll, sem Herrann hefur sett yfir sín hjú, ad hann gefi þeim fædu í réttann tíma. Sæll er sá þjón nær hans herra kémur, og finnur hann svo gjøranda. Sannlega seigi eg ydur: ad hann mun setja hann yfir sín audæfi. En ef einn af þeim vondu þjónum seigir í sínu hjarta: minn herra dvelur enn nú leingi ad koma, og tekur ad slá sína samlags-þjóna, etur og dreckur med dryckjurútunum. Þá kémur herra þess þjóns, á þeim degi sem hann vonar eigi, og á þeirri stundu er hann meinar ei, og mun í sundur parta hann, og mun gefa honum laun med hræsnurum, þar mun vera óp og tannagnístran. b) Því vakid nú, þvíad þér vitid ei, nær herrann húsins kémur, hvørt hann kémur ad qvøldi, eda um midnætti, edur þá haninn gelur, ellegar ad morgni. Svo ad ei komi hann skyndilega, og finni ydur sofandi. En hvad eg seigi ydur, þad seigi eg øllum. Vakid þér.

## 22. Kapítuli.

**Eptirlíking um þær tíu Jómfrúr, og þau pund sem herrann léck sínum þjónum til verslunar. Matth. 25,**

Þá mun himnaríki líkt vera tíu meyum, hvørjar að tóku sína lampa, og geingu útí móti brúdgumanum. En fimm af þeim voru fávísar, og fimm forsjálar. Þær sem fávísar voru, tóku sína lampa, en tóku þó ecki vidsmjør med sér, en hinar forsjálu tóku í sínum kérum vidsmjør med lømpunum. Og er brúdguminn gjørdi dvøl á að koma, sifjadi þær allar, og sofnudu. En um midnætti kom kall, sjáid! brúdguminn kémur, gángid þér út í móti honum. Þá stódu upp allar þessar meyar, og prýddu sína lampa. En þær fávísu søgdu til hinna forsjálu: géfid oss af vidsmjøri ydru, þvíad vorir lampar slockna út. Hinar forsjálu svørudu og søgdu: ecki svo, má vera ad ei sé nóg fyrir oss og svo ydur, farid þér heldur til sølumanna, og kaupid ydur sjálfar. En er þær geingu ad kaupa, kom brúdguminn, og þær sem reidubúnar voru, geingu med honum inn til brúdkaupsins, og hurdinni var aptur lokad. Ad síðustu komu og hinar adrar meyar, og søgdu: herra! herra! lúk þú upp fyrir oss. En hann svaradi og sagdi: sannlega segi eg ydur: ad eg þecki ydur eigi. Fyrir því vakid, þvíad þér vitid eigi þann dag né stund, á hvørri Mannsins Son mun koma.

Líka sem sá madur er ferdadist utanlands, kalladi sína þjóna, og féck þeim sitt góts. Og einum féck hann fimm pund, en ødrum tvø, hinum þridja eitt, hverjum einum eptir sínum mætti, og ferdadist strax af stad. Þá géck sá til sem fimm pund hafdi medtekid, og kaupslagadi med þeim sømu, og vann þar med ønnur fimm pund. Líka einnin sá sem tvø pund hafdi medtekid, vann og á tvø ønnur. En sá er eitt pund hafdi medtekid, fór burt, gróf í jørdu,

og faldi þar síns herra fé, en eptir lángann tíma liðinn, kom herrann þessara þjóna, og héllt reikníngskap við þá. Þá géck sá til sem fimm pund hafði meðtekið, og lagði ønnur fimm pund þar til, og sagði: herra! fimm pund féckstu mér, sjá! ønnur fimm hef eg áunnið. Hans herra sagði honum: ey! þú góði og trúlyndi þjón, þú hefur verið trúr yfir litlu, eg vil setja þig yfir mikið, gack inn í þíns herra føgnuð. Þá géck og sá að sem tvø pund hafði meðtekið, og sagði: herra! tvø pund féckstu mér, sjá! ønnur tvø pund hef eg með þeim áunnið. Hans herra sagði til hans: ey! þú hinn góði þjón, og trúlyndi, þú varst trúr yfir litlu, eg vil setja þig yfir mikið, gack inn í þíns herra føgnuð. Þá géck sá að sem eitt pund hafði meðtekið og sagði: herra! eg veit að þú ert harður mann, þú uppskér hvar þú sáðir eigi, og samansafnar hvar þú dreyfðir eigi, og óttasleginn fór eg burt, og faldi pund þitt í jørðu, sjá! þar hefur þú það hvað þitt er. En hans herra svaraði og sagði til hans: þú vondur þjón og latur, vissir þú að eg skér upp hvar eg sáði ei, og samansafna hvar eg dreifði eigi? því byrjaði þér að fá minn pening verslunar-mønnum, og nær eg kæmi, hefði eg hvað mitt er, til mín tekið með okri. Fyrir því takið af honum það pund, og gefið honum sem tíu pund hefur, þvíað hvør hann hefur, honum mun géfið verða, og mun hann nægð hafa: en hvør eð eigi hefur frá þeim mun tekið verða, og það hann hefur. Og þeim ónýta þjón kasti þér í hin ytstu myrkur, þar mun vera óp og tannagnístran.

# 23. Kapítuli.

Kristur seigir fyrir sínum Lærisveinum, hvørnin til mundi gánga á þeim sídasta dómsins deigi. Matth. 25. Lúc. 21.

En þá a) Mannsins Son mun koma í sdýrd, og allir helgir Englar med honum. Hann mun þá sitja í sæti sinnar dýrdar. Og allar þjódir munu saman safnast fyrir honum, og hann mun þá sundur skilja hvørja frá ødrum, svo sem hyrdir sundur greinir saudi frá kidum. Og saudunum mun hann skipa til sinnar hægri handar, en kidunum til vinstri. Þá mun Kóngurinn seigja til þeirra, sem á hægri hønd eru, komid hér þér blessadir Fødur míns, og eignist þad ríki, sem ydur var tilbúid frá upphafi veraldar. Þvíad húngradur var eg, og þér gáfud mér ad eta, þyrstur var eg, og þér gáfud mér ad drecka. Géstur var eg, og þér hýstud mig. Nakinn var eg, og þér klæddud mig. Sjúkur var eg, og þér vitjudud mín. Í mirkvastofu var eg, og þér komud til mín. Þá munu hinir réttlátu svara og seigja: Herra! hvønær sáum vær þig húngradann og mettudum þig? eda þyrstann og gáfum þér ad drecka? eda hvønær sáum vær þig géstkominn og hýstum þig? eda nakinn og klæddum þig? eda hvønær sáum vær þig sjúkann, edur í myrkvástofu, og komum til þín? og Kongúngurinn mun svara og seigja til þeirra: sannlega seigi eg ydur, hvad þér gjørdud einum af þessum mínum minnstu brædrum, þad gjørdud þér mér. Þá mun hann og seigja til þeirra sem til vinstri handar eru, farid burt frá mér þér bølvadir í eilífann eld, þann sem fyrirbúinn er

fjandanum og hans árum, húngradur var eg, og þér gáfud mér eigi ad eta. Þyrstur var eg, og þér gáfud mér eigi ad drecka. Géstur var eg, og þér hýstud mig eigi. Nakinn var eg, og þér klæddud mig eigi. Sjúkur og í myrkvastòfu var eg, og þér vitjudud mín eigi. Þá munu þeir svara honum og seigja: Herra! hvønær sáum vær þig húngradann, þyrstann, eda gést, edur nakinn, sjúkann edur í myrkvastofu, og høfum þér ecki þjónad? þá mun hann svara þeim og seigja: sannlega seigi eg ydur, hvad þér gjørdud eigi einum af þessum enum minstu, þad gjørdud þér mér eigi. Og munu þeir gánga í eilífar píslir, en réttlátir í eilift líf.

Og c) um daga kénndi hann í Musterinu, en um nætur géck hann út, og dvaldist um nætur á olíu-fjallinu. Og allt fólk tók sig snemma upp til hans í Musterid, honum ad heyra.

## 24. Kapítuli.

**Kristur seigir enn fyrir sína tilstandandi pínu, innan tveggja daga; en Kénnimanna-høfdíngjarnir og Skriftlærdir gjøra rádsløgun ad høndla Jesúm med kjænsku, og gjøra kaup vid Júdam Iscarioth, ad svíkja hann. Lærisveinarnir tilreida Páska-Lambid eptir Kristí lilsøgn. Matth. 26. Marc. 14. Lúc. 22.**

Og a) þad skédi, þá Jesús hafdi lycktad alla þessa rædu, sagdi hann til sinna Lærisveina: þér vitid ad eptir tvo daga eru Páskar, og Manns-ins Son mun ofurseljast' ad hann krossfestur verdi. c) En þá var nálæg hátíd hins sæta-brauds, hvør ed kalladist Páskar.

Þá l) söfnuðust saman þeir æðstu Prestar og Skriftlærðir, og Öldúngar lýðsins, í höll Kennimanna-höfðíngjans þess er Caiphas hét, héldu ráð og leituðu eptir, hvornin þeir gjæti með slægð gripið Jesúm og liflátið hann. c) En þeir sögðu: eigi þó á hátíðar-deiginum, svo að eigi verdi upphlaup með fólkinu, c) því að þeir óttuðust lýðinn. En andskotinn var hlaupinn í Júdas hann kallaður var Iscarioth, og var einn af tölu þeirra tólf. l) Og hann gékk burt til Kennimanna-höfðíngjanna, og talaði við þá æðstu Presta og höfuðs-mennina, hvornin hann vildi selja hann þeim. h) Og er þeir heyrðu það, glödduft þeir, og hétu að géfa honum penínga. a) Og (hann) sagði: hvað viljið þið géfa mér, og vil selja ydur hann? en þeir buðu honum þrjátíu silfur-penínga. c) og hann lofaði þeim því. l) Og þaðan í frá leitaði hann lags, hvornin hann gjæti forráðið hann sem hægast án upphlaups.

En l) á hinum fyrsta sæta-brauðs deigi, á hvörjum offra skyldi Páska-Lambinu h) sendi hann út tvo af sínum Lærisveinum, Petrum og Jóhannem og sagði til þeirra: c) farið þið, búið oss til Páska-Lambið, svo að vér neytum þess. l) En Lærisveinarnir geingu til Jesúm og sögðu til hans: hvört viltu vér förum að vér til tilreiðum þér Páska-Lambið að eta? hann sagði til þeirra: gángið inn í staðinn; sjáið! nær þér komið í borgina, h) mun maður mæta ydur berandi vatns-krús, fylgið honum eptir í það hús sem hann inngeingur. Og hvar helst hann geingur inn, þá seigið hús-herranum: l) Meistarinu lætur seigja þér, a) minn tími er í nánd, hjá þér vil eg Páska halda, h) hvar er það herbergi

er eg kann ad neyta Páska-Lambsins medur mínum Lærisveinum? og hann mun sýna ydur einn stórann sal steinlagdann og tilbúinn, reidi þér þad þar til fyrir oss. Og Lærisveinannir geingu út, og komu inn í stadinn, og fundu svo sem hann hafdi sagt þeim, a) og gjørdu svo sem Jesús hafdi þeim bodid, l) og reiddu til Páska-Lambid. En um qvøldid þá er stundin kom, kom hann, setti sig til bords, og þeir tólf Postular med honum c) og hann sagdi til þeirra: mig hefur hjartanlega eptirlángad, ad eta þetta Páska-Lamb med ydur, ádur enn eg líd. Þvíad eg seigi ydur: ad hér eptir mun eg ei optar af því neyta, þar til ad þad fullkomnast í Guds ríki. Og hann tók kaleikinn gjørdi þackir og sagdi: medtakid hann og skiptid honum á millum ydar, þvíad eg seigi ydur: eg mun ei drecka af vínvidar ávexti fyrr enn Guds ríki kémur.

## 25. Kapítuli.

Kristur þvær fætur sinna Lærisveina, og innsetur þad heilaga sacramentum síns holds og blóds, seigir einnin fyrir hvør sig svíkja muni. Matth. 26. Marc. 14. Lúc. 22. Jóh. 13.

Fyrir d) Páska-hátídina, þá Jesús vissi ad hans tími var kominn, ad hann geingi úr þessum heimi til Fodursins, líka sem hann elskadi sína, þá er hér voru í heimi, svo elskadi hann þá allt til enda. Og eptir qvøldmáltídina, þegar djøfullinn hafdi alla reidu sendt í hjarta Júdæ Símonis Iscarioth, ad hann sviki hann. Þá vissi Jesús þad Fadirinn hafdi allt géfid sér í hendur, og þad ad hann var af

Gudi kominn, og til Guds þá færi hann. Þá stód hann upp frá qvøldmáltídinni, lagdi af sér klædin, og tók eitt lín-klædi, og gyrdti um sig, eptir þad helti hann vatni í eina munnlaug, og tók til ad þvo fæturnar á Lærisveinunum, og þurkadi med því lín-klædi er hann var med gyrdtur. Þá kom hann til Símonar Péturs, og hann sagdi til hans: Herra! skyldir þú þvo mínar fætur? Jesús svaradi og sagdi honum: hvad eg gjøri, þad veitst þú nú ei, en seinna skaltu skilja þad. Þá sagdi Petur til hans: aldrei skaltu mína fætur þvo. Jesús svaradi honum: þvoi eg eg þig ecki,. þá hefur þú ei hlutdeild med-ur mér. Símon Petrus sagdi þá til hans: Herra! ecki einasta fæturnar, heldur einnin fætur og høfud. Jesús sagdi til hans: Sá þveginn er, hann þarf eigi ad þvo nema fæturnar, því ad hann er øldúng-is hreinn; þér erud og hreinir, en eigi allir: því hann vissi af sínum svikara vel, því sagdi hann: þér erud ecki allir hreinir.

En sem þad hann hafdi þveigid fætur þeirra, tók hann sín klædi, settist nidur aptur, og sagdi þá enn til þeirra: vitid þér hvad eg gjørdi ydur? þér kallid mig Meistara og Herra, þér seigid þad og rétt, þvíad eg er hann og. Nú ef eg ydar Herra og Meistari þvæ ydar fætur, þá skulud þér og inn-byrdis þvo hvør annars fætur. Þetta gaf eg ydur til eptirdæmis, svo þér gjørid líka sem eg gjørdi vid ydur. Sannlega, sannlega seigi eg ydur: ad þjón-inn er eigi meiri sínum Herra, né Postulinn þeim er hann útsendi. Ef þér vitid þetta, þá erud þér sælir ef þér gjørid þad. Eigi seigi eg um ydur alla, eg veit hvørja eg hefi útvalid, heldur þad ad upp-

fyllist Ritníngin, sá sem ad etur braud mitt, hann tredur míg undir fætur. Nú seigi eg ydur þad, ádur enn þad skér, svo ad þér trúid þá þad er skéd, ad eg em hann. Sannlega, sannlega seigi eg ydur: hvør hann medtekur, ef eg sendi nockurn, sá medtekur mig, en hvør hann medtekur mig, hann medtekur þann er mig sendi.

Og c) þá þeir neyttu, l) tók Jesús braudid, gjørdi þackir og braut þad, gaf þad Lærisveinunum og sagdi: e) takid og etid, l) þetta er mitt hold, c) þad fyrir ydur géfid verdur, gjørid þetta í mína minníng. Líka einnin eptir qvøldmáltídina, l) tók hann kaleikinn, c) gjørdi þackir, gaf þeim hann og sagdi: a) dreckid allir þar af, e) þad er mitt blód þess Nýa Testamentis sem fyrir marga úthellist, a) til fyrirgéfníngar syndanna, c) þessi er kaleikur hins Nýa Testamentis í mínu blódi, hvørt fyrir ydur verdur úthellt; b) og þeir druckn allir af honum. (Jesús sagdi:) sannlega c) seigi eg ydur: ad eg mun eigi hédan í frá drecka af þessum vín=vidar ávexti, allt til þess dags er eg mun drecka þad nýtt med ydur í ríki Guds míns Fødurs.

Og c) er þeir sátu til bords og átu, d) þá Jesús hafdi þetta sagt, hryggdist hann í anda, vottadi og sagdi: c) en þó sjáid ad hønd þess er mig svíkur er á bordi med mér. m) Sannlega, sannlega seigi eg ydur: ad einn af ydur sem etur med mér, forrædur mig. En Lærisveinarnir urdu hryggvir vid, leit hvør til annars, d) uggandi af hvørjum hann segdi. Og e) þeir tóku sín á milli ad spyrja: hvør af þeim væri sá er þetta mundi gjøra. c) Og þeir hriggdust mjøg vid, og hvør einn eptir annann, sagdi

til hans: er eg þad nockud Herra? b) og hinn annar, er eg þad nockud? e) en hann svaradi og sagdi til þeirra: einn af þeim tólf, sá er hendinni drepur í fatid med mér, sá mun míg forráda. c) Og ad sønnu fer Mannsins son eptir því sem ályktad er, (og) skrifad l) er af honum. En þó vei þeim manni, fyrir hvørn Mannsins Sonur verdur forrádinn. e) Betra væri þeim sama manni ad aldrei hefdi hann fæddur verid. d) En þar var einn af hans Lærisveinum, sem sat til bordsins hjá brjósti Jesú, hvørn ad Jesús elskadi, honum bendti Símon Petrus, ad hann spyrdi hann: hvør sá væri er hann hefdi um talad, af því hann lá á brjósti Jesú, og hann sagdi til hans: Herra! hvør er sá? Jesús svaradi: sá er hann hinn sami er eg dísi þennann bita og gef, og dísdi í bitanum, og gaf hann Júdæ Símonis Iscaríoth, og eptir þann bita fór Satan í hann. Þá sagdi Jesús til hans: hvad þú gjørir, þá gjør þad skjótt. En einginn af þeim sem til bordsins sátu, vissi til hvørs hann sagdi honum þad, sumir ætludu, af því ad Júdas hafdi fé-píngjuna, ad Jesús mundi seigja honum: kaup þad oss gjørist þørf til hátídardagsins, eda ad hann gæfi nockud fátækum. a) Þá svaradi Júdas sá sem forréd hann, og sagdi: er eg þad nockud Rabbi? hann sagdi til hans: þú sagdir þad. d) Og þá hann hafdi bitann tekid, gékk hann strax út, og þá var nótt. En þá hann var útgeinginn, sagdi Jesús: nú er Mannsins Sonur auglýstur, og Gud er auglýstur í honum. Fyrst Gud er auglýstur í honum, þá mun Gud auglýsa hann í sjálfum sér, og snarlega mun hann auglýsa hann.

27. Kap.

## 26. Kapítuli.

Kristur, niðurſetur þrættan Poſtulanna,[1] ſem reis útaf því, hvør þeirra helſtur vera mundi; áminnir þá til innbyrdis elſku, ſeigir fyrir fall Peturs, og að þeir væri viðbúnir yfirhángandi háſka. Lúc. 22. Jóhann. 13.

En c) þar hófſt upp þræta þeirra á milli, hvør þeirra mundi meſtur haldinn verða. En hann ſagði til þeirra: veraldlegir kóngar drottna, og hvørjir-yfir-maktina hafa, þá kalla menn náðuga herra. En þér eigi ſvo, heldur ſá ſem meſtur er ydar á milli, veri hann ſvo ſem hinn ýngſti, og hinn æðſti ſem annar þénari. Því hvør er meiri ſá ſem til borðſins ſitur, eður ſá ſem þjónar? er eigi ſvo, að hann ſem við borðið ſitur? en eg em á millum ydar, ſem einn þjón. En þér eruð þeir, hvørjir hjá mér hafa ſtaðnæmſt í mínum freiſtíngum. Og eg vil ſkicka ydur ríkið, ſvo ſem minn Faðir hefur mér ſkickað. Svo að þér ſkuluð eta og drecka yfir mínu borði í mínu ríki, og ſitja á ſtólnum, dæmandi tólf kynqvíſlir Iſraels.

Kjæru d) börn! eg em enn litla ſtund hjá ydur, þér munuð leita mín, og líka ſem eg ſagði við Gyðínga, hvørt eg fer, þángað kunni þér ecki að koma, og nú ſeigi eg ydur: eitt nýtt boðorð þá géf eg ydur, að þér elſkið hvør annann, líka ſem eg elſkaði ydur, ſvo ſkuluð þér og elſkaſt innbyrðis. Og af því munu allir þeckja að þér eruð mínir Læriſveinar, ef þér hafið kjærleikann ydar á milli. Símon Petrus ſagði til hans: Herra! hvørt fer þú? Jeſús ſvaraði honum: þángað ſem eg fer, máttu nú að

finni eigi fylgja mér; en seinna meir þá muntu fylgja mér. Pétur sagdi til hans; Herra! því má eg nú ei ad finni fylgja þér? eg vil setja mitt líf út fyrir þig. k) En Drottinn Jesús svaradi hönum og sagdi: d) skyldir þú setja þitt líf út fyrir mig? e) Símon, Símon, sjá þú! ad Andskotinn hefur gyrnst ydar, ad hann mætti sælda ydur sem hveiti, en eg bad fyrir þér, ad þín trúa skyldi ecki linna. Og þegar þú snýst einusinni, þá styrk þú brædur þína. En hann sagdi til hans: Herra! reidubúinn em eg med þér í fjøtur og dauda ad gánga. Þá sagdi hann: Petur! k) sannlega, sannlega seigi eg þér: ad í dag mun ei haninn gala, fyrr enn þú hefur þrísvar afneitad því, ad þú þecktir mig.

Og e) hann sagdi til þeirra: þá eg sendi ydur út án púngs, án tøsku, og án skó, hvørt brast ydur þá nockud? en þeir søgdu: eckért. Þá sagdi hann til þeirra: en nú hvør ed púng hefur, sá taki hann, líka og einnin tøskuna, og sá er eigi hefur, selji hann kyrtil sinn og kaupi sverd. Þvíad eg seigi ydur, ad þad hlýtur á mér ad fullkomnast hvad skrifad er, þad hann er med íllvirkjum reiknadur. Því hvad af mér skrifad er, hefur einn enda. En þeir søgdu: Herra, sjá! tvø sverd eru hér, hann sagdi til þeirra: þad er nóg.

## 27. Kapítuli.

Kristur huggar sína Lærisveina margvíslega, sem hryggvir voru ordnir af hans prédikun um sína burtfør, og géfur þeim fyrirheit heilags Anda. Jóhann. 14.

Og hann sagdi til sinna Lærisveina: ydar hjörtu hrædist ecki, trúi þér á Gud, þá trúi þér og svo á mig. Í míns Födurs húsi eru margar verur. En ef ei svo væri, þá vildi eg seigja, ad eg færi ad tilbúa ydur stad. Og þá eg fer hédan ad tilbúa ydur stad, þá vil eg aptur koma, og taka ydur til mín, svo þér séud þar sem eg er. Og hvört eg fer, þad viti þér, og veiginn viti þér einnin. Thómas sagdi til hans: Herra! vér vitum eigi hvört þú fer, eda hvörnin meigum vér þá veiginn vita? Jesús sagdi til hans: eg em vegurinn og sannleikurinn og lífid. Einginn kémur til Födursins, nema fyrir mig. Ef þér þeckid mig, þá þeckid þér og minn Fodur, og nú hédan í frá, þá þeckid þér hann, og hafid sjed hann. Philippus sagdi til hans: Herra! sýn oss Födurinn, þá nægir oss. Jesús sagdi þá til hans: svo leingi er eg hjá ydur, og þú þeckir mig eigi? Philippe, hvör mig sjer, sá sjer Födurinn, og hvörnin seigir þú þá? sýn oss Födurinn. Trúir þú eigi, ad eg em í Födurnum og Fadirinn í mér? þau ord eg tala til ydar, þau tala eg ecki af sjálfum mér, Fadirinn sem er í mér, hann gjörir þau verk. Trúid mér ad eg er í Födurnum, og Fadirinn í mér; viljid þér þad eigi, þá trúid mér þó fyrir verkanna sakir. Sannlega, sannlega seigi eg ydur: hvör hann trúir á mig sá mun einnin gjöra þau verk sem eg gjöri, hann mun og gjöra þessum meiri, þvíad eg fer til Födursins. Og hvörs þér bidjid í mínu nafni þad vil eg gjöra, svo Fadirinn dýrkist í Syninum. Hvörs þér bidjid í mínu nafni, þad vil eg gjöra.

Ef þér elskid mig þá haldid mín bodord. Og

eg mun biðja Föðurinn, og hann mun géfa yður annann Huggara, svo að hann sé hjá yður eiliflega. Þann sannleiks anda, hvørn heimurinn fær ei meðtekið, því hann sjer hann eigi, og þeckir hann eigi, en þér þeckið hann, þvíað hann blífur hjá yður, og mun vera í yður. Eigi vil eg yður föðurlausa eptirláta, eg kém til yðar. Það er enn nú lítill tími, þá mun heimurinn ei sjá mig meir, en þér skuluð sjá mig, þvíað eg lifi, og þér munuð lifa einnin. Á þeim deigi munuð þér skilja, að eg er í mínum Föður, og þér í mér, og eg í yður. Hvør hann hefur mín boðorð, og heldur þau, hann er sá sem mig elskar, en sá mig elskar sá elskast af mínum Föður, og eg mun elska hann, og eg opinbera mig fyrir honum. Þá sagði Júdas eigi Iskaríoth, til hans: Herra! hvað er það, að þú villt opinbera þig oss en eigi heiminum? Jesús svaraði og sagði til hans: hvør hann elskar mig sá heldur mín orð, og minn Faðir mun elska hann, og við munum koma til hans, og gjöra í hjá honum vistar-veru. En hvør hann elskar eigi mig, sá heldur eigi mín orð, og það orð er þér heyrið er eigi mitt, heldur Föðursins þess er mig sendi. Þetta sagði eg yður, á meðan eg var hjá yður. En Huggarinn hinn heilagi Andi, þann er minn Faðir mun senda í mínu nafni, hann sjálfur mun kénna yður það allt, og áminna yður á allt hvað eg sagði yður. Frið læt eg yður eptir, minn frið géf eg yður, ei géf eg yður svo sem heimurinn géfur, yðvart hjarta hræðist eigi né skélfist. Þér heyrðuð það eg sagði yður: eg fer burt, og kém til yðar aptur, ef þér elskuðuð mig þá gleddust þér við það, að eg sagði: eg fer til Föðursins, þvíað Faðir-

inn er mér meiri. Og nú sagdi eg ydur þad fyrr enn þad skér, svo ad þér trúid þá þad er skéd. Hér eptir mun eg ei tala margt framar vid ydur, því höfdíngi þessa heims kémur, og med mig hefur hann eckért. Heldur þad ad heimurinn þecki þad eg elska Födurinn, og eg gjöri svo sem Fadirinn hefur mér bodid. Standid upp og látum oss gánga burt.

## 28. Kapítuli.

*Samlíking af vín-trénu og qvistunum, hvar af Kristur upphvetur sína Lærisveina ad vera stödugа í trúnni, elskast innbyrdis, og hafa þolinmædi í offsóknunum. Jóhann. 15 og 16.*

Eg em sannur vín-vidur, og mínn Fadir er víngards-madurinn. Hvörn þann qvist á mér, er eigi færir ávöxt, mun hann aftaka, og hvörn þann sem ávöxt færir, mun hann hreinsa, svo ad hann færi meira ávöxt. Þér erud nú hreinir fyrir sakir þess ords sem eg taladi til ydar. Blífid í mér og eg í ydur, líka sem vín-qvisturinn fær eigi fært ávöxt af sjálfum sér, nema hann sé á vín-trénu, svo og eigi heldur þér, nema þér blífid í mér. Eg em víntréd, en þér erud qvistirnir, hvör hann blífur í mér og eg í honum, sá færir mikinn ávöxt, þvíad án mín fáid þér eckért gjört. Hvör sá er ei blífur í mér, hann mun útkastadur verda sem annar qvistur, og uppþorna, og þeir samanlesa þá, og kasta á eld ad brenna. Nú ef þér blífid í mér, og mín ord blífa í ydur, bidjid þá hvörs þér viljid, og þad skal ydur ské. Þar med verdur minn Fadir dýrkadur, ad þér færid mikinn ávöx, og verdid mínirLærisveinar.

Svo sem minn Faðir elskaði mig, líka svo elska eg ydur, blífid í minni ástsemd. Ef þér varðveitið mín boðorð, þá blífið þér í minni ástsemd, líka sem eg varðveitti míns Föðurs boðorð, og eg blíf í hans ástsemd. Þettað tala eg því til ydar, að minn fögnudur blífi hjá ydur, og ydar fögnudur uppfyllist. Það er mitt boðorð, að hvør ydar elski annann, svo sem eg elskaði ydur. Einginn hefur meiri ástsemd enn þessa, að hann lætur sitt líf út fyrir sína vini, þér erud mínir vinir, ef þér gjørið það eg bíð ydur. Og héðan af seigi eg ei leingur að þér séuð þénarar; því þjóninn veit ei af hvad hans herra gjørir, en ydur hefi eg sagt, að þér erud vinir, því allt hvað eg heyrði af mínum Föður, það kunngjørði eg ydur. Ei útvølduð þér mig, heldur hefi eg útvalið ydur, og eg skickaði ydur til, að þér geingud burt og færdud ávøxt, og ydar ávøxtur blífi til þess, ef þér biðjið Föðurinn í mínu nafni, það géfi hann ydur.

Það bíð eg ydur, að þér elskið hvør annann. Ef heimurinn hatar ydur, þá vitið, að hann hefur hatað mig fyrr enn ydur, ef þér værud af heiminum, þá elskaði heimurinn það hans væri; en med því þér erud ei af þessum heimi, heldur útvaldi eg ydur af heiminum, fyri það hatar ydur heimurinn. Minnist á mín orð, er eg sagði ydur, þénarinn er ei meiri sínum herra.

Ef þeir hafa ofsókt mig, þá munu þeir og ofsækja ydur, hafi þeir geymt mín orð, þá munu þeir og geyma ydar orð. En allt þetta munu þeir gjøra ydur fyrir míns nafns sakir, þvíað þeir þeckja eigi hann, þann er mig sendi. Ef eg væri eigi kominn,

og hefdi sagt þeim það, þá hefðu þeir aungva synd, nú hafa þeir eckert það þeir afsaki sína synd með. Hvør sem mig hatar, sá hatar og minn Fødur. Ef eg hefdi eigi gjört þau verk á medal þeirra, sem einginn hefur annar gjört, þá hefdu þeir aungva synd, en nú hafa þeir sjed þau, og hata þó bædi mig og minn Fødur. Heldur það, að það ord sem skrifað er í þeirra løgmáli uppfyllist, án sakar høfdu þeir mig að hatri.

En þá sá Huggarinn kémur hvørn eg mun senda ydur af Fødurnum, sem er sannleiksins Andi, hvør af Fødurnum framgeingur, hann mun bera vitni af mér. Þér munuð og bera vitni af mér, þvíað þér hafið í frá upphafi hjá mér verið.

En þetta hefi eg talad til ydar, svo að þér hneixlist eigi. Því þeir munu forboða ydur, og sá tími kémur, að hvør ydur lífletur, hann meinar sig gjøra þægt verk Gudi þar með. Og þetta munu þeir gjøra ydur af því, að þeir þeckja hvørki Fødurinn né mig. En þetta tala eg því til ydar, að nær sú stund kémur, þá skulud þér minnast þar á, að eg sagdi ydur það, en þetta sagdi eg ydur ei í upphafi, því eg var hjá ydur.

## 29. Kapítuli.

Kristur hughreystir enn framar sína Lærisveina af fyrirhelti Huggarans heilags Anda, og kénnir hvørt að sé hans embætti, einnin samlíkir mótlætingum trúaðra við jódsjúka konu. Jóhann. 16.

Og nú fer eg til hans sem mig sendi, og einginn ydar spyr mig að, hvørt fer þú? heldur af því

eg talaði þetta til yðar, þá uppfylltist yðvart hjarta af hrygð. En eg seigi yður sannleikann, það batar yður að eg fari héðan, því ef eg fer eigi héðan, þá kémur eigi Huggarinn til yðar, en ef eg fer héðan, þá mun eg senda hann til yðar. Og þá hann kémur, straffar hann heiminn fyrir synd, og fyrir réttlæti, og fyrir dóm. Fyrir syndina, því þeir trúa ei á mig. En fyrir réttlætið, þvíað eg fer til Föðursins, og þaðan af sjáið þér mig ei. En fyrir dóminn, þvíað þessa heims höfðíngi er dæmdur. Enn hefi eg margt að seigja yður, en þér fáið ei allt borið að sinni. En nær að kémur sá sannleiksins Andi, þá mun hann leiða yður í allann sannleik; þvíað ei talar hann af sjálfum sér, heldur hvað hann heyrði, það talar hann, og hvað eptkomandi er, það kunngjörir hann yður. Hann sami mun og auglýsa mig, þvíað af mínu mun hann það taka og kunngjöra yður. Allt hvað minn Faðir hefur, það er mitt, fyrir því sagði eg: að af mínu mun hann það taka, og kunngjöra yður.

Um lítinn tíma munuð þér ecki sjá mig, og enn aptur um lítinn tíma munuð þér sjá mig, þvíað eg fer til Föðursins.

Þá sögðu nockrir af hans Lærsveinum sín á milli: hvað er það að hann seigir oss: um lítinn tíma þá munuð þér ei sjá mig, og enn aptur um lítinn tíma þá munuð þér sjá mig, og eg fer til Föðursins. Þá sögðu þeir: hvað er það hann seigir? um lítinn tíma? vér vitum eigi hvað hann seigir. Þá fornam Jesús, að þeir vildu spyrja hann að, og sagði til þeirra: þér spyrjið að því yðar á milli, að eg sagði: um lítinn tíma þá munuð þér ei sjá mig,

og þá aptur um lítinn tíma þá munuð þér sjá mig. Sannlega, sannlega seigi eg ydur: þér munuð gráta og syrgja, en heimurinn mun fagna. Þér verdið hryggvir, en ydar hrygð skal snúdst í fögnud. Konan nær hún fædir, þá hefur hún hrygd, því að hennar stund er komin, en þá hún hefur barnið fædt, minnist hún ei framar þess harmqvælis fyrir þess fagnadar sakir, að madur er í heiminn borinn. Þér hafið nú einnin hrygd, en eg skal sjá ydur aptur, og ydvart hjarta skal fagna, og ydvarn fögnud skal einginn af ydur taka. Og á þeim deigi munuð þér mig og einskis spyrja.

Sannlega, sannlega seigi eg ydur: ef þér bidjið Fodurinn nockurs í mínu nafni, þá mun hann gefa ydur það. Híngað til hafið þér ecki bedið í mínu nafni, bidjið þá munuð þér fá, svo að ydar fögnudur fullkomnist. Þetta hef eg talað í ordsqvidum til ydar. Sá tími kémur að eg tala ei leingur ordsqvidi til ydar, heldur kunngjöri eg ydur berlega af mínum Födur. Á þeim deigi munuð þér og bidja í mínu nafni, og eigi seigi eg ydur, að eg muni bidja Fodurinn fyrir ydur, því að sjálfur Fadirinn elskar ydur, af því þér elskið mig, og trúið það eg sé af Gudi útgeinginn. Eg er af Födurnum útgeinginn, og kominn í þennann heim, eg fyrirlæt og aptur þennann heim, og fer til Födursins. Hans Lærisveinar seigja þá til hans: sje, nú talar þú berlega, og mælir aungva ordsqvidu. Nú vitum vér að þú veitst alla hluti, og þú þarft eigi að nockur spyrji þig, fyrir það trúum vér að þú sért af Gudi útgeinginn. Jesús svaradi þeim: nú trúið þér. Sjáið! sú stund kémur, og er nú

þegar komin, ad þér munud tvístrast hvør til sín, og skilja mig eptir einnsamann, en eg er þó ei einnsamann, þvíad Fadirinn er med mér. Þetta taladi eg til ydar, svo ad þér hefdud frid í mér, í heiminum hafid þér þreyngíng, en verid þó hughraustir, því eg yfirvann heiminn.

## 30. Kapítuli.

Sú hjartnæma bæn Kristí til síns himneska Födurs, um auglýsíng sinnar dýrdar, og síns kristilegs safnadar vardveitslu og vidurhalds. Jóhann. 17.

Þetta taladi Jesús, og hóf upp sín augu til himins og sagdi: Fadir! stundin er komin, ad þú auglýsir Son þinn svo ad þinn Sonur auglýsi og þig. Svo sem þú gafst honum yfirvald alls holds, ad hann gæfi þeim öllum, er þú gafst honum, eilíft líf. En þad er eilíft líf, ad þeir þekki þig alleina einn sannann Gud, og þann þú sendir Jesúm Kristum, Eg auglýsti þig á jördu, og fullkomnadi þad verk er þú fékst mér ad gjöra. Og nú auglýs mig Fadir hjá sjálfum þér, med þeirri dýrd er eg hafdi hjá þér, ádur enn heimurinn var. Eg hefi opinberad nafn þitt fyrir mönnum, þeim er þú gafst mér af heiminum, þeir voru þínir, og þú gafst mér þá, og þeir geymdu þín ord. Nú vita þeir ad allt hvad þú gafst mér, er af þér, því þau ord er þú gafst mér, þá gaf eg þeim, og þeir hafa þau medtekid, og þeckja sannlega, þad eg em af þér útgeinginn, og trúa því ad þú sendir mig. Eg bid fyrir þeim, eigi bid eg fyrir heiminum, heldur

fyrir þeim, hvørja þú gafst mér, því þeir eru þínir. Allt hvað mitt er, það er þitt, og hvað þitt er, það er mitt og í þeim er eg auglýstur. Og eigi em eg nú meir í heiminum, en þeir eru í heiminum, og eg kém til þín. Heilagur Fadir! geym þá í þínu nafni, hvørja þú gafst mér, að þeir séu eitt sem við. Á medan eg var hjá þeim í heiminum, þá geymdi eg þá í þínu nafni, hvørja þú gafst mér, þá varðveitti eg, og einginn af þeim er glataður nema það gløtunar barn, svo að Ritníngin uppfylliſt; en eg kém nú til þín, og þetta tala eg í heiminum svo að þeir hafi minn fullann føgnuð með sjálfum sér. Eg gaf þeim þín orð, og heimurinn hatar þá, því að þeir eru eigi af heiminum, líka sem það að eg er ei af heiminum. Eg bið eigi, að þú takir þá af heiminum, heldur að þú geymir þá frá íllu. Þeir eru eigi af heiminum, svo sem að eg er eigi af heiminum. Helga þú þá í þínum sannleika, þín orð eru sannleikur. Líka sem þú sendir mig í heiminn, svo sendi eg þá í heiminn. Fyrir þá helga eg sjálfann mig, svo að þeir séu og helgaðir í sannleikanum.

Eg bið ei einasta fyrir þeim, heldur og jafnvel, fyrir þeim sem trúa munu á mig, fyrir þeirra orð. Svo að þeir séu allir eitt, svo sem þú Fadir ert í mér, og eg í þér, að þeir séu og eitt í ockur, svo að heimurinn trúi það þú sendir mig. Og þá dýrð sem þú gafst mér, þá gaf eg þeim, að þeir séu og eitt, svo sem að við erum eitt; eg í þeim og þú í mér, svo að þeir séu fullkomnir í eitt og það að heimurinn kunni að þeckja, að þú

sendir mig, og það þú elskar þá, svo sem þú elskar mig. Faðir! hvørja þú gafst mér, vil eg, að hvar sem eg er, þá séu þeir með mér, svo þeir sjái mína dýrð, þá þú gafst mér, því að þú elskaðir mig, fyrr enn heimurinn var grundvallaður. Réttvísi Faðir! heimurinn þeckir þig eigi, en eg þecki þig, og þessir þeckja að þú sendir mig. Og þitt nafn gjørði eg þeim kunnugt, og eg vil gjøra þeim það kunnugt, svo að þín ástsemd með hvørri þú elskaðir mig, sé í þeim, og eg í þeim.



# Sjötti Partur,

## Hefur inni ad halda historíu pínunnar og daudans vors Drottins Jesú Krísti, hans sigursællrar upprisu frá daudum, og dýrdlegrar uppstigníngar til himins.

## 1. Kapítuli.

Um útgaungu Kristí af því húsi, hvar hann hafdi Páska-Lambsins neytt, og qvøldmáltídina haldid, til fjallsins Olíveti, item um hans qvøl og bæn í Grasgardinum. Matth. 26. Marc. 24. Lúc. 22. Jóh. 18.

Þá d) Jesús hafdi nú þetta talad, e) og ad súngnum lof-saungnum p) gékk hann út sem hann var vanur med sína Lærisveina, yfir um lækinn Kedron til fjallsins Olíveti, c) og hans Lærisveinar fylgdu honum eptir. e) Þá sagdi Jesús til þeirra: á þessari nóttu munu þér allir hneixlast á mér, þvíad skrifad er: hirdirinn mun eg slá, og saudir hjardarinnar munu í sundur tvístrast. En eptir þad eg er upprisinn, mun eg gánga fyrir ydur í Galílea. En Pétur svaradi og sagdi til hans: og þó allir hneixlist þeir á þér, þá skal eg -þó aldrei hneixlast. Jesús sagdi til hans: sannlega seigi eg

þér: ad í dag á þessari nótt, ádur enn haninn galar tvisvar, muntu afneita mér þrisvar. En Pétur taladi enn framar og sagdi til hans: einnin þó mér byrjadi med þér ad deya, skyldi eg þó ei neita þér, slíkt hid sama søgdu og allir Lærisveinarnir.

Jesús c) kom þá med þeim, í þad gerdis-tún, sem kalladist Gethsemane, d) þar var jurta gardur, og Jesus gékk þar inn med sína Lærisveina. En Júdas sá er hann sveik, vissi og þennann stad, því opt safnadist Jesús þángad med sína Lærisveina. c) Og þá hann kom þángad, l) sagdi hann til sinna Lærisveina: c) setjist hér á medan eg geing burt þángad, og bidst fyrir, c) bidjid þér ad ei falli þér í freistni, c) og hann tók med sér Petrum, Jacobum og Jóhannem, þá tvo sonu Zebedei, og þá tók hann til ad hryggjast, skjálfa og titra, (og harmþrúnginn ad verda.) Þá sagdi hann til þeirra: sála mín er næsta hrygg all til dauda, blífid hér og vakid med mér, c) og hann sleit sig frá þeim, c) og gékk litlu einu fram leingra, c) nær einu steins-snari, l) féll á kné fram á sína ásjónu til jardar, bidjandi: ef þad væri møgulegt, ad sú stund hjá lidi, og sagdi: a) Fadir minn! ef møgulegt er, þá lídi af mér kaleikur þessi, b) Abba, Fadir minn! allt er þér møgulegt, tak burt þennann kaleik frá mér, i) þó ei svo sem eg vil heldur svo sem þú villt. c) Og hann kom til sinna Lærisveina, og fann þá sofandi, og sagdi til Péturs: b) Símon! sefur þú? c) hvørt gátud þér ecki eina stund vakad med mér? vakid og bidjid, svo þér fallid ecki í freistni, Andinn er reidubúinn en holdid er veikt. Í annad sinn gékk hann aptur burt, bad, taladi hin

sømu orð og sagði: a) Faðir minn! sé það ecki møgu-legt að þessi kaleikur líði frá mér, utan eg drecki hann, þá verði þinn vilji. c) Og hann kom og fann þá aptur sofandi, því að þeirra augu voru full af svefni. b) Og eigi vissu þeir hvørju þeir svoruðu honum, a) og hann lét þá kyrra, og géck í burt aptur, og bað í þriðja sinn, og talaði þau sømu orð, c) og sagði: Faðir! ef þú villt, þá tak þennann kaleik af mér, en þó verði eigi minn, heldur þinn vilji. En honum byrtist Engill af himni, styrk-jandi hann. Og þar kom að hann stríddi við dauðann, og tók ákafar að biðja. En hans sveiti varð svo sem blóð-dropar, þeir féllu á jørðina. Og hann stóð upp af bæninni, l) og kom til sinna Lærisveina b) í þriðja sinn, c) og fann þá sofandi af hrygð, l) og sagði til þeirra: e) Æ! vilji þér nú sofa og hvílast, c) hvað sofi þér? b) það er nóg, e) standið upp og biðjið, svo þér fallið eigi í freistni. a) Sjá! sú stund tekur að nálgast, b) og er komin, e) að Mannsins Son mun ofurseljast í syndugra hendur, standið upp, látum oss gánga héðan, sjáið! sá er mig forræður, hann er í nánd.

## 2. Kapítuli.

Um komu Júdasar í gras-garðinn, hans flærð-ar-koss, og Postulanna vørn og flótta. Matth. 26. Marc. 14. Lúc. 22. Jóh. 18.

Og b) strax sem hann var enn þetta að tala, sjá! l) einn af þeim tólf sem Júdas hét, d) þá (hann) hafði nú til sín tekið flock manna, og einnin af Kénnimanna-høfðíngjanna og Phariseanna þénur-

um, kom hann þángað, c) og með honum flockur mikill, m) með blísum, lømpum, sverðum, staungum og vopnum, e) útsendur af Kénnimanna-høfdíngjunum, Skriftlærðum og Ødlúngunum, c) og (hann) géck fyrir þeim.

d) Nú sem Jesús vissi allt hvað yfir hann átti að koma, þá géck hann út, og sagði til þeirra: að hvørjum leitið þér? þeir svøruðu honum: að Jesú af Nazareth, þá sagði Jesús til þeirra: eg em hann. En Júdas sá er hann forréð, stóð þar einnin hjá þeim, og þá Jesús sagði til þeirra: eg em hann, hørfuðu þeir á bak aptur, og duttu til jarðar. Hann spurði þá enn aptur að, að hvørjum leitið þér? en þeir sogðu: að Jesú af Nazareth. Jesús svaraði: eg sagði yður það; eg em hann. Og ef þér leitið að mér, þá látið þessa burtu gánga, svo að uppfyldist það orð er hann sagði: aungvum glataði eg af þeim sem þú gafst mér.

e) En svikarinn, sá er hann forréð, hafði géfið þeim eitt teikn og sagt: hvøru helst sem eg kyssi, sá er það, grýpið hann, b) og leiðið vareygdarlega. l) Og þá hann kom, nálgaðist hann Jesúm að hann kysti hann, e) og jafnsnart géck hann að Jesú og sagði til hans: heill sértu **Rabbi! Rabbi!** og kysti hann. a) En Jesús sagði til hans: vinur! hvar til komstu híngað? c) Júdas! svíkur þú Mannsins Son með kossi? c) þá geingu þeir þángað, og løgðu sínar hendur á Jesúm og gripu hann. c) En er þeir er hjá honum voru, sáu hvað verða vildi, søgðu þeir til hans: Herra! skulum vær slá með sverði? e) og sjá! að einn af þeim sem með Jesú voru og þar stóðu, d) Símon Pétur, hafði

eitt sverd, m) rétti út høndina, rickti því, p) og sló til eins Kénnimanna-höfdíngjans þénara, og hjó af honum hans hid hægra eyra, d) en þénarinn hét Malchus, e) Jesús svaradi og sagdi: leifid þeim ad giøra allt hid frekasta, g) og sagdi til Péturs: sticktu þínu sverdi aptur í slídrir, a) og sinn stad, þvíad hvør sem sverdid tekur, hann mun fyrir sverdi farast, edur meinar þú ad eg kummi ecki ad bidja minn Fødur, ad hann skickadi mér meir enn tólf Legíon Eingla? d) skal eg þá ei drecka þann kaleik sem mér gaf minn Fadir? e) edur hvørnin uppfyllast þá Ritníngarnar? svo byrjar ad allt skuli ské. e) Og hann snart hans eyra, og læknadi hann.

a) A þeim tíma e) svaradi Jesús og sagdi til fólksins, e) og þeirra ædstu Presta og Høfudsmanna Musterisins, og Oldúnganna, hvørjir til hans voru komnir. l) Þér erud útgeingnir líka sem til annars ræníngja, med sverdum og staungum ad grípa mig, daglega hefi eg þó hjá ydur verid og setid í Musterinu og kennt, og løgdud þér eigi hendur á mig, og ei gripud þér mig, e) en þetta er ydar tími og makt myrkranna, b) svo ad Ritníngin uppfyldist.

a) En allt þetta er skéd, svo ad uppfylduft Ritníngar Spámannanna. e) Þá forlétu hann allir Lærisveinarnir og flýdu, b) og þar var einn úngur madur, sem fylgdi honum eptir, hann var klæddur lín-klædi yfir bert hørund, og hann gripu ønnur úngmenni; en hann sleppti lín-klædinu, og flýdi nakinn í burt frá þeim.

3. Kap.

# 3. Kapítuli.

Kristur fángadur og bundinn, verdur fyrst leiddur fyrir Hannam, sídan fyrir Caípham; hvar Pétur afneytadi hönum í fyrsta sinn, Matth. 26. Mark. 14. Lúc. 22. Jóh. 18.

En d) flockurinn og hinn yppársti høfuds-madur, og Gydínga þénarar høndludu Jésúm, og bundu hann, og leiddu hann fyrst burt til Hannas, sá var mágur Caíphæ, er þá var þess árs ædsti Prestur. e) En þeir sem Jesúm høfdu gripid, leiddu hann til Caíphas þess ypparsta Prests, d) en Caíphas var sá er Gydíngum gáf þad ád, ad betur færi þad einn madur væri líflátinn fyrir lýdinn. e) Og þeir leiddu hann í þess yppársta Prests hús, e) þar ed saman vóru komnir allir þeir yppurstu Prestar, Øldúngar og Skriftlærdir. p) En Símon Petrus fylgdi Jesú eptir áleingdar allt í salinn Kennimanna-høfdíngjans, d) og einn annar Lærisveinn, sá sami Lærisveinn var kunnugur Kennimanna-høfdíngjanum, og géck inn med Jesú í Kennimanna-høfdíngja salinn. En Pétur stód fyrir dyrunum úti. Þá géck út hinn annar Lærisveinn, sem Kennimanna-høfdíngjanum var kunnugur, og taladi vid hana sem dyrnar geymdi, og leiddi Petrum inn. a) Og (hann) géck inn. c) Þénatarnir qveiktu þá upp eld í midri hollinni, og settust til samans, l) og Pétur setti sig á milli þeirra, b) og vermdi sig vid ljósid, a) svo hann sæi hvor endir þar á yrdi. c) Pétur sat þar utan fyrir nidri í salnum. p) Þá kom ein af ambáttum høfud-Prestsins sem dyrnar geymdi, og þá hún

leit Petrum sitja vid logann og verma sig. h) starði hún á hann, a) géck ad honum og sagdi: ertu eigi einn af þess manns Lærisveinum? l) þú varst og med Jesú af Galílea (og) Nazareth. i) En hann afneitadi fyrir øllum og sagdi: p) kona! eigi er eg, eg þecki hann eigi, og eigi veit eg hvad þú seigir. b) Og hann géck út í for-gardinn, og haninn gól. d) En þénarar og undirménn stódu, og høfdu gjørt einn kola-eld, og vermdu sig, þvíad kuldi var, Pétur stód þar hjá þeim og vermdi sig.

## 4. Kapítuli.

Kristur, adspyrst af Biskupinum um sínar kénníngar og Lærisveina, Pétur afneitar honum í annad sinn, fals-vottar framleidast, en Kristó verdur skuld gésin fyrir Gudlastan. Matth. 26. Marc. 14. Lúc. 22. Jóh. 18.

En d) Kénnimanna-høfdínginn spurdi Jesúm þá ad um hans Lærisveina, og um hans kénníng. Jesús svaradi honum: eg hefi opinberlega talad, fyrir heiminum, eg kéndi og jafnan í Samkundu-húsum og Musterinu, þar sem allir Gydíngar komu saman, og á laun hefi eg eckért talad; því spyr þú mig þar ad? spyr þú þá þar ad sem heyrt hafa hvad eg hefi talad til þeirra. Sjá! þeir vita hvad eg hefi sagt. En sem hann sagdi þetta, þá gaf einn þeirra þénara sem þar hjá stódu, Jesú pústur og sagdi: skaltu svo svara Kénnimanna-høfdíngjanum? Jesús svaradi: ef eg taladi ílla, þá vitna þú þad vondt vera; en ef eg taladi rétt, því slær þú mig þá? og Hannas sendi hann bundinn til Caiphan, Kénnimanna-høfdíngja.

Og b) ambáttin sá (Petrum) og tók aptur ad seigja þeim er þar hjá stódu: þessi er einn af þeim. a) En sem hann gëck út um dyrnar, leit hann ein ønnur og sagdi til þeirra sem þar voru: þessi var og med Jesú af Nazareth. c) Og litlu sídar þar eptir, sá hann einn annar madur og sagdi: þú ert og einn af þeim. d) Og er Símon Petrus stód þar og vermdi sig, þá tøludu þeir til hans; ertu eigi einn af hans Lærisveinum? p) og í annad sinn neitadi hann aptur med eidi og sagdi: madur! ei ëm eg, ei þecki eg þann mann.

e) En þeir ædstu Prestar og Øldúngar, og allt rádid leitudu ljúgvitna í gëgn Jesú svo ad þeir gætu seldt hann til dauda, og fundu eingin. a) Og þó ad mørg falsvitni geingi fram ad, þá fundu þeir ecként, b) því ad margir báru falsvitni í móti honum; en þeirra vitnisburdir voru eigi samlátandi. c) En ad sídustu stódu upp (og) geingu fram nockrir tveir falsvottar og báru falsvitni í móti honum og søgdu: vér høfum heyrt hann seigja, eg kann (og) vil nidur brjóta þetta Musteri Guds sem med høndum er gjørt, og innan þriggja daga uppbyggja eitt annad þad ei er med høndum gjørt. c) En þeirra vitnisburdir komu enn þá eigi saman. c) Sá ædsti Prestur stód þá upp á medal þeirra, spurdi Jesúm ad og sagdi til hans: svarar þú aungvu til þess sem ad þessir vitna í móti þér? en Jesús þagdi og svaradi aungvu. Þá ansadi enn aptur sá ædsti Prestur, spurdi hann ad og sagdi til hans: b) ertú Kristur Sonur hins Blessada? a) eg særi þig vid lifanda Gud, ad þú seigir oss, ef þú ert Kristur Sonur Guds. c) Jesús sagdi til hans: þú seigir þad, eg ëm; þó

seigi eg ydur: hér eptir mun þad ské, ad þér munud sjá Mannsins Son sitja til hægri handar Kraptarins, og komanda í skýum himins. Þá reif Kennimanna=höfdínginn sín klædi og sagdi: hann gudlastadi, hvad þurfum vér meir vitnanna vid? sjá! þér heyrdud nú sjálfir hans gudlastan, hvad virdist ydur? en þeir fordæmdu hann allir, svörudu og sögdu: hann er daudans sekur.

## 5. Kapítuli.

Um þridju afneitun Peturs í höll Caiphæ, og hans ydran. Item um högg, slög, hædni og hráka sem Kristur vard þar ad lída med fordæmingar ályktun. Sömuleidis um útleidslu Kristi til þínghúsins fyrir Landsdómarann, og örvæntíng Júdasar Iscariothis, Matth. 26. og 27. Marc. 14. og 15. Lúc. 22. og 23. Jóh. 18.

Og b) litlum tíma þar eptir e) nær einni stundu, styrkti nockur annar þad og sagdi: ad sönnu var og þessi med honum, því hann er Galílear. e) Og aptur geingu þeir ad er hjá stódu, og sögdu til Peturs: sannlega ertu einn af þeim, því ad þú ert einn Galílear, og þitt mál hljódar svo, (og) opinberar þig. d) Þá sagdi einn af Kennimanna=höfdíngjans þénurum, frændi þess sem Pétur hjó af eyrad, sá eg þig eigi í Grasgardinum hjá honum? þá neitadi Pétur því enn aptur e) og sagdi: madur, eigi veit eg hvad þú seigir.

e) Þá tók hann til ad formæla sér, og sverja, eigi þecki eg þann mann, um hvörn þér talid. Og jafnsnart, e) ad honum nú þetta enn talandi l) gól

haninn b) í annað sinn. c) Og Drottinn sneríst við og leit til Péturs. l) Þá minntist Pétur orðanna Jésú er hann sagði til hans: áður enn haninn galar tvisvar, muntu afneita mér þrisvar. Og hann gékk út og grét beisklega.

b) Þá tóku nockrir að spíta á hann a) í hans ásján, og børðu hann með knefum. En h) þénararnir, og c) þeir menn sem héldu Jesú, dárudu hann, og slóu, h) og byrgðu hans ásjánu, og slóu hann pústra í hans andlit með knefum, spurðu hann l) og søgðu: spá þú oss, Kriste, hvør er sá er þig sló? c) og margt annað háðuglegt søgðu þeir við hann.

l) Og strax um morguninn er dagur var, søfnuðust saman og héldu ráð-stefnu allir æðstu Prestar með Oldúngum lýðsins og Skriftlærðum, og þar að auk øllu Ráðinu, a) móti Jesú, svo að þeir gjætu hann líflátið, c) og leiddu hann upp fyrir sitt Ráð, og søgðu: ef þú ert Kristur seig oss það. Og hann sagði til þeirra: ef eg seigi yður það, þá trúið þér því eigi, en ef eg spyr yður, þá svaríð þér mér ei; og látið mig ei þó lausann. Nú héðan í frá mun Mannsins Sonur sitja til hægri handar Guðs kraptar. En þeir søgðu allir: ertu þá Guðs Sonur? hann sagði til þeirra: þér seigið það, því að eg em hann. Þá søgðu þeir: hvað þurfum vér nú vitnisburðinn leingur? vér sjálfir heyrðum það af hans munni.

c) Og allur sá hópur stóð upp p) og bundu Jesúm, og leiddu hann í burt, d) frá Caíphas og í Pínghúsið, e) og framseldu hann Lands-høfðíngjanum Pontió Pílató, d) en það var snemma (morguns); a) Þá er Júdas sá er hann hafði forráðið,

sá þad, ad hann var til dauda dæmdur, ydradist hann þess, og færdi aptur þeim ædstu Prestum og Öldúngum, þá þrjátíu silfur-penínga, og sagdi: ílla gjørdi eg, ad eg forréd saklaust blód. En þeir søgdu: hvad kémur þad vid oss? sjá þú þar fyrir. Og hann snaradi þeim silfur-peníngum í Musterid, skundadi þadan, géck í burt, og heingdi sjálfann sig. En þeir ædstu Prestar tóku silfur-peníngana og søgdu: eigi hæfir ad vér látum þá í Guds kistuna, þvíad þad er blóds peníngur. En þeir héldu eitt rád, og keyptu med þeim einn Leyrsmids-akur, vegfarendum til greftrunar. Fyrir þad er sá akur kalladur blóds-akur allt til þessa dags. Þá er uppfyllt hvad sagt er fyrir Jeremíam Spámann, seigjandi: þeir tóku þá þrjátíu silfur-peninga, er hinn seldi var med betaladur, hvørn þeir keyptu af Israels børnum, og hafa géfid þá fyrir Leyrkérasmids akur, eptir því sem Drottinn hafdi mér bodid.

## 6. Kapítuli.

**Kristur verdur klagadur fyrir Pílató, svo sem uppblaups-madur, og Keisaranum ótrúr. En Pílatus yfirheyrir hann, vottar af hans sakleysi, og sendir hann til Heródem, hvar hann var hæddur og spottadur.** Matth. 27. Mark. 15. Lúk. 23. Jóh. 18.

Og d) Høfud-prestarnir og Öldúngarnir geingu ei sjálfir inn í þínghúsid, ad þeir saurgudust ecki, heldur svo þeir mættu neyta Páskanna. Pílatus géck þá út til þeirra og sagdi: hvørja ákjæru færid þér í gégn þessum manni? þeir svørudu og

sögdu til hans: ef þessi væri ei íllrædis-madur, þá hefdum vér eigi í hendur fengid þér hann. Þá sagdi Pílatus til þeirra: takid þér hann þá, og dæmid eptir ydrum lögum. Gydíngar sögdu þá til hans: ei þorum vér ad lífláta nockurn, svo ad þad ordid Jesú uppfylltist er hann sagdi: teiknandi til med hvörjum dauda hann ætti ad deya. a) En Jesús stód frammi fyrir Lands-dómaranum. c) En þeir tóku ad áklaga hann og sögdu: þennann finnum vér ad hann frásnýr fólkinu, og fyrirbídur Skatt ad géfa Keisaranum, og seigir sig ad vera Kónginn Kristum. d) Pílatus géck þá inn aptur í Þínghúsid, kalladi Jesúm og sagdi til hans: p) ertu Kóngur Gydínga? d) Jesús svaradi: talar þú þad af sjálfum þér, eda hafa adrir sagt þér þad um mig? Þá svaradi Pílatus: er eg nockud Gydíngur? Þín þjód og Kénnimanna-höfdíngjar seldu þig mér, hvad hefur þú gjört? Jesús svaradi: mitt ríki er ei af þessum heimi, ef ad mitt ríki væri af þessum heimi, þá mundu mínir þénarar strída þar fyrir, svo ad eg seldist ei Gydíngum, en nú er mitt ríki eigi þadan. Þá sagdi Pílatus til hans: þá ertu þó Konúngur? p) Jésús svaradi og sagdi til hans: þú seigir þad, d) eg em og Konúngur, til þess er eg fæddur, og í heiminn kominn, ad eg beri vitni sannleikanum, og hvör hann er af sannleikanum, sá heyrir mína rödd. Pílatus sagdi til hans: hvad er sannleikurinn? Og þá hann hafdi þetta sagt: géck hann út aptur til Gydínga og sagdi c) til þeirra yppurstu Presta og til Lýdsins: k) aungva sök finn eg med þessum manni. b) Og Höfudprestarnir áklögudu hann hardlega. a) Og sem hann

áklagadist af þeim æðstu Prestum og Öldúngum, svaradi hann aungvu. e) Pílatus spurdi hann aptur ad og sagdi til hans: svarar þú aungvu? heyrir þú ecki? Sjá, hvorsu hardlega þeir ákloga þig. En Jesús svaradi honum aungvu framar til nockurs ords, svo ad Landsdómarinn undradist þad næsta. e) En þeir voru þess ákafari og sögdu: hann hefur uppæst fólkid, med því hann hefur kénnt á öllu Gydíngalandi, og hefur tilteckid í Galílea, allt híngad.

En er Pílatus heyrdi Galíleam nefnda, spurdi hann ad hvørt hann værí einn Galíleari. Og er hann fornám ad hann var undir Heródis valdi, sendi hann hann burt til Heródem, sem einninn var á þeim sömu døgum í Jerúsalem. En er Heródes sá Jesúm, vard hann næsta gladur, því ad hann hafdi fyrir laungu gyrnst ad sjá hann, af því ad hann hafdi margt heyrt af honum, og hann vænti ad hann mundi sjá eitt teikn af honum, og adspurdi hann á marga vega, en hann svaradi honum aungvu. En Kénnimanna-høfdíngjar og Skriftlærdir stódu og ásøkudu hann hardlega. En Heródes med sínum Strídsmønnum forsmádi hann og spottadi, færdi hann í hvítt fat, og sendi hann aptur til Pílatum; og á þeim deigi urdu þeir Pílatus og Heródes vinir aptur, því ad ádur voru þeir óvinir sín á milli.

## 7. Kapítuli.

Gydíngar bidja ad manndráparinn Barrabas laus látist, en Kristur krossfestist. Matth. 27. Mark. 15. Lúk. 23. Jóh. 18.

En e) Pílatus samankallaði Presta = höfðíngja, og Höfuðs = menn og Lýðinn og sagði til þeirra: Þér hafið þennann mann til mín haft, svo sem þann er fráśnýr fólkinu, og sjáið, eg hefi yfirheyrt hann hér fyrir yður, og á þeśsum manni finn eg aungva af þeim sökum, þar um þér klagið hann, og ei heldur Heródes. því að eg sendi yður til hans, og sjáið, að eckért er af honum gjört það dauða sé verðugt, fyrir því vil eg géfa honum ráðníng og láta lausann.

En l) á Hátíðardeiginum hlaut Landsdómarinn eptir venju, fólkinu lausann að láta einn bandíngja, e) hvørn helst þeir vildu, (og) eptir hvørjum þeir beiddust. a) En þá hafði hann einn frábærann bandíngja, framar ødrum, e) sá er Barrabas hét, l) með upphlaups = mønnum bundinn, hvør í upphlaupinu hafði víg unnið. a) Sem þeir voru til samans komnir, sagði Pílatus til þeirra: d) það er yðar siðvenja, að eg géfi yður einn lausann á Páskum. l) Og fólkið géck upp, og bað að hann vildi gjøra sem hann var vanur. En Pílatus svaraði þeim og sagði: l) vilji þér að eg géfi yður nú Gyðínga Kónginn lausann? a) Hvørn vilji þér að eg géfi yður lausann, Barrabam eða Jesúm, um hvørn að sagt er, að hann sé Kristur? e) Því að hann vißi vel, að Høfuð = Prestarnir høfðu af øfund ofurselt hann. a) Og sem hann sat á Dómstólnum, sendi hans Húsfrú til hans, og lét segja honum: haf þú eckért að gjøra með þann réttláta, þvíað margt hefi eg liðið í dag í draumi fyrir hann. e) En þeir æðstu Prestar og Ødúngar réðu fólkinu (og) eggjuðu, að það skyldi biðja að hann

gjæfi þeim milku heldur Barrabam lausann, a) en Jesúm skyldu þeir deyda. e) Þá svaradi Laudsdómarinn Pílatus og sagdi til þeirra: a) hvorn af þessum tveimur vilji þér ad eg láti ydur lausann? e) Þá kalladi upp allur hópurinn og sagdi: burt med þennann, og géf oss Barrabam lausann. l) Þá svaradi aptur Pílatus, kalladi og sagdi til þeirra, og vildi Jesúm lausann láta: e) hvad viljid þér þá ad eg skuli gjøra vid Jesúm, af hvørjum sagt er ad hann sé Kristur Kóngur Gydínga? l) En þeir kølludu þá allir aptur upp og søgdu: Krossfestu, Krossfestu hann. Þá sagdi Landsdómarinn enn í þridja sinn til þeirra: hvad íllt hefur þá þessi gjørt? e) aungva dauda-søk finn eg med honum, fyrir því vil eg hegna honum og láta hann lausann. e) En þeir kølludu því meir seigjandi: Krossfestu hann. d) Og allir kølludu aptur seigjandi: eigi þennann heldur Barrabam. En Barrabas var einn manndrápari, e) hvør ed var fyrir upphlaup og mannslag, er skéd var í Borginni, innsettur í fángelsi. Og þeir stódu því fastara þar á med miklum hljódum, ófskandi þad ad hann yrdi Krossfestur, og þeirra hljód og Høfud-Prestanna tóku yfir.

## 8. Kapítuli.

Kristur húdstrýktur, þyrnikrýndur og spottadur, yfirheyrist enn framar af Pílató, dæmist sídan af honum til Krossins qvalar. Matth. 27. Mark. 15. Lúk. 23. Jóh. 19.

Þá d) tók Pílatus Jesúm, og húdstrýkti hann, e) en Strídsmenn Landsdómarans tóku hann

(og) leiddu hann með sér inn í Þínghúsið, kölludu saman og söfnuðu að honum allt liðið, a) og afklæddu hann, m) og færðu hann í eina Purpurakápu, og fléttuðu eina kórónu af þyrnum, og settu hana á hans höfuð, a) og reyr í hans hægri hönd, og beigðu kné fyrir honum, spjöðu hann, b) og tóku að heilsa honum m) og sögðu: heill sértu Kóngur Gydínga, d) og gáfu honum pústra, e) og hræktu á hann, tóku reyrinn og börðu um hans höfuð, b) féllu á kné og tilbáðu hann. d) Þá géck Pílatus út aptur og sagði til þeirra: sjáið, eg leiði hann nú út híngað til yðar, svo að þér vitið það eg finn aungva sök með honum. Svo géck Jesús út, berandi þyrni-kórónu og purpura-klæðið, og hann sagði til þeirra: sjáið, hvílík manneskja. Þá er Kénnimanna-höfðíngjarnir og þénararnir sáu hann, kölludu þeir og sögðu: Krossfestu, Krossfestu. Pílatus sagði til þeirra: takið þér hann og Krossfestið, því að eg finn aungva sök með honum. Þá svöruðu honum Gydíngar: vér höfum lög, og eptir þeim lögum skal hann deya, því að hann gjörði sig sjálfann að Guðs Syni.

Þá Pílatus heyrði það orð, óttaðist hann enn meir, og géck inn aptur í Þínghúsið, og sagði til Jesú: hvaðan ertu? En Jesús gaf honum eckért svar. Þá sagði Pílatus til hans: talar þú eigi við mig? Veistu eigi að eg hefi vald til að Krossfesta þig, og eg hefi vald til að géfa þig lausann? Jesús svaraði: eigi hefðir þú nockuð vald yfir mér, nema þér væri það géfið hér ofan að, fyrir því hefur sá meiri synd, er mig seldi þér. Og eptir það leitaði Pílatus við, hvörnin hann

gjæti látid hann lausann, en Gydíngar hrópudu og søgdu: ef þú lætur þennann lausann, þá ertu ecki Keisarans vinur, því ad hvør sem sig gjørir ad Konúngi, hann er á móti Keisaranum. Þá Pílatus heyrdi þad ord, leiddi hann Jesúm út, og setti sig á Dómstólinn í þeim stad, sem kallast hinn Steinlagdi, en á Ebresku Gabbatha; en þad var affánga dagur Páska, nærri sjøttu stund. Þá seigir hann og til Gydínga: sjáid, þad er ydar Kóngur. En þeir kølludu, burt, burt med hann, Krossfestu hann. Pílatus sagdi til þeirra: skal eg Krossfesta ydvarn Konúng? Kennimanna-hofdíngjarnir svørudu: aungvann Konúng høfum vær nema Keisarann.

Þá a) Pílatus sá þad hann gat ecki adgjørt, heldur þad ad þar yrdi enn meira upphlaup af, tók hann vatn og þvodi hendurnar fyrir fólkinu og sagdi: saklaus em eg í blódi þess hins réttláta, sjáid þér til. Þá svaradi allur Lýdur og sagdi: hans blód komi yfir oss og yfir børn vor. b) En Pílatus þeinkti fólkinu fullnægju ad gjøra, c) og dæmdi ad ské skyldi þeirra beidni, l) og gaf þeim Barrabam lausann, c) þann er inn var settur fyrir upphlaup og manndráp í myrkvastofu, um hvørn þeir bádu. p) En Jesúm húdstrýktann framseldi hann þeim eptir þeirra vilja, ad hann Krossfestur yrdi.

## 9. Kapítuli.

**Utleidsla Kristí úr borginni Jerúsalem til aftøkustadarins, hvar honum var géfid Myrrublandad vín ad drecka. Hans Krossfesting medal**

tveggja íllvirkja, og bæn fyrir þeim hann Krossfestu. Item Kfirskrift Pílatí á Krossinn. Matth. 27. Mark. 15. Lúk. 23. Jóh. 19.

Þá d) tóku þeir Jesúm, e) eptir það þeir høfðu spottað hann, færðu hann úr purpurakápunni, og færðu hann í sín eigin klæði, m) og leiddu hann út, e) að þeir Krossfestu hann, d) og hann bar sinn Kross og gékk út. f) En í því þeir geingu og leiddu hann út, l) fundu þeir einn mann sem fram hjá gékk af Cýrene, Símonem að nafni, h) hvør eð kominn var af Akri, b) føður þeirra Alexandrí og Rúffí, f) hann høndluðu þeir og þreyngdu honum, að hann bæri hans Kross, e) og løgðu Krossinn uppá hann, að hann bæri hann eptir Jesú.

En honum fylgdi eptir mikill fjøldi fólks og qvenna, hvørjar að grétu hann og aumkuðu. En Jesús snérist til þeirra og sagði: þér dætur af Jerúsalem, grátið eigi yfir mér, heldur grátið yfir yður sjálfum og yfir børnum yðar. Því sjáið, sá tími mun koma, á hvørjum seigjast mun: sælar eru óbyrjur, og þeir qviðir er eigi hafa fædt, og þau brjóst, hvør eigi voru mylkt. Þá munu þær taka að seigja fjøllunum, hrynjið yfir oss, og hálsunum, hyljið oss. Því ef menn gjøra þetta við blómgaða tréð, hvað mun þá ské við hið þurra? En tveir spillvirkjar aðrir leiddust og út, að þeir væri aftéknir með honum, p) Og þeir leiddu hann út í þann stað, sem kallast á Ebresku Golgatha, hvað er þýðist Hausaskélja-staður, e) og þeir gáfu honum að drecka í víni myrram, (og) edik galli blandað, b) og hann tók það eigi til sín, (því) þá

a) hann smackadi þad, vildi hann eigi drecka. c) Og sem þeir komu í þann stad, sem kalladist Hofudskélja-stadur, o) þar Krossfestu þeir hann, p) og med honum tvo adra ræníngja á bádar sídur, l) einn til hægri handar, og annann til hinnar vinstri, d) en Jesúm í midid. b) En þad var nær um þridju stund, er þeir Krossfestu hann.

Þá vard sú Ritníng uppfyld sem seigir: medur íllvirkjum er hann reiknadur. e) En Jesús sagdi: Fadir! fyrirgéf þeim, því ad þeir vita ei hvad þeir gjøra. d) Pílatus skrifadi þá eina Yfirskrift, og setti hana upp yfir Krossinn, a) og upp yfir hans høfdi festu þeir hans dauda-søk. o) En Yfirskriftin (og) hvør søk honum var géfin, var ritud yfir honum med Grískum, Latínskum og Ebreskum bókstøfum. p) Þessi er Jesús af Nazareth Konúngur Gydínga. d) Þessa Yfirskrift lásu margir af Gydíngum, því ad sá stadur var nærri borginni, þar Jesús var Krossfestur. Þá søgdu þeir ædstu Prestar Gydínganna, vid Pílatum: skrifa þú eigi Konúngur Gydínga, heldur þad hann hafi sagt: eg em Konúngur Gydínga. Pílatus svaradi: hvad eg skrifadi, þad hef eg skrifad.

## 10. Kapítuli.

**Um skipti á klædunum Kristí, hád og brýzli þeirra er framhjá Krossinum geingu. Annars ræníngians ydran, og hvørnin Kristur fól sína Módur Jóhanni Gudspjallamanni á hendur, klagar yfir því ad hann væri af Gudi yfirgéfinn, og ad smøckudu edikinu, sagdi allt**

fullkomnad, og gaf upp øndina. Matth. 27. Mark. 15. Lúk. 23. Jóh. 19.

Þá m) Stríðsmennirnir høfðu Krossfest Jesúm, tóku þeir hans klæðnad, og gjørðu á fjøgra hluta skipti, sérhvørjum Stríðsmanni einn hlut, h) og vørpuðu þar um hlut-késti, hvað hvør skyldi hafa, d) og þar með kyrtilinn; en kyrtillinn var eigi saumaður, heldur frá ofanverðu allur prjónaður. Þá tøluðu þeir sín á milli: skiptum vær honum eigi í sundur, hlutumst heldur um, hvørs hann skal vera, svo að Ritníngin uppfyllist, a) hvað sagt er fyrir Spámanninn, k) er seigir: þeir skiptu með sér klæðum mínum, og á minn kyrtil þá løgðu þeir hlut-késti, d) og þetta gjørðu Stríðsmennirnir. a) Og þar sátu þeir og varðveittu hann, e) og fólkið stóð og sá til. e) Og þeir sem geingu þar fram hjá hæddu hann, skóku høfuð sín og søgðu: svei! hvørnin niðurbrýtur þú Musterið, og uppbyggir það aptur á þremur døgum? Hjálpa þú nú sjálfum þér, a) ef þú ert Guðs Sonur, c) þá stíg hér niður af Krossinum. e) Og Høfðíngjarnir spottuðu hann með þeim; e) líka einninn hæddu hann þeir æðstu Prestar sín á meðal með Skriftlærðum og Øldúngum, l) og søgðu: øðrum hefur hann hjálpað, sjálfum sér gétur hann eigi hjálpað. c) Sé hann Kristur og Kóngur Israels, þá stígi hann nú niður af Krossinum, að vér sjáum, og meigum svo trúa honum. e) Hjálpi hann nú sjálfum sér, ef hann er Kristur hinn útvaldi Guðs; a) Hann treysti Guði, hann frelsi hann nú, ef hann hefur lyst til hans, því að hann

sagdi: eg em Guds Son. c) Ad honum hæddu og Strídsmennirnir, geingu til hans og færdu honum edik, og søgdu: ef þú ert Kóngur Gyd-ínga, þá hjálpa þér sjálfum. c) Líka einninn hæddu hann ræníngjarnir þeir med honum voru Krossfestir. c) En einn af þeim spillvirkjum sem heingdir voru, lastadi hann og sagdi: ef þú ert Kristur, frelsa sjálfann þig og ockur. Þá svaradi hinn annar, straffadi hann og sagdi: og þú hræd-ist ei heldur Gud, sem ert þó í eins fordæmíngu? Og ad sønnu skér ockur þetta réttilega, því ad vid medtøkum hvad ockar gjørdir voru verdar, en þessi hefir eckért óskickanlegt gjørt. Og hann sagdi til Jesú: Drottinn! minnstu mín þá þú kémur í ríki þitt. Og Jesús sagdi til hans: sannlega seigi eg þér, í dag skaltu vera med mér í Paradís.

En d) þar stódu vid Krossinn Jesú, Módir hans, og Módursystir hans, María húsfrú Cleóphæ, og María Magdalena. Þá Jesús sá nú sína Módir og þann Lærisvein þar nær standandi, er hann elsk-adi, seigir hann til sinnar Módir: kona, sjá-þú, þad er þinn Sonur. Eptir þad seigir hann til Læri-sveinsins: sjá, þad er þín Módir, og upp frá þeirri stundu tók Lærisvéinninn hana ad sér. l) Og þad var nær um hina sjøttu stund ad myrkur gjørdist yfir allt landid, allt nær til níundu stundar, c) og sólin misti sitt skin. e) Og um níundu stundu kall-adi Jesús hárri røddu og sagdi: **Eli Eli Lama Sabachthani**, hvad ed útlegst, Gud minn! Gud minn! hvar fyrir forlétstu mig. Og nockrir af þeim er þar stódu hjá, þá þeir heyrdu þad, søgdu þeir: sjá, hann kallar á Elíam. d) Eptir þad, þá Jesús

vissi ad allt var nú fullkomnad, og ad Skriftin yrdi uppfyld, þá seigir hann: mig þyrstir. Þar stód eitt ker fullt af ediki, e) jafnsnart hljóp einn af þeim til, og tók njardarvott, og fylti af ediki, og setti hann ofan á einn reyrlegg og gaf honum ad drecka, og sagdi: h) lát vera, sjáum hvört Elías kémur ad taka hann ofan. a) En adrir sögdu: bídid, látid sjá hvört Elías kémur ad hjálpa honum. d) En þá Jesús hafdi edikid til sín tekid, sagdi hann: þad er fullkomnad. l) Og Jesús kalladi upp hárri röddu í annad sinn, e) og sagdi: Fadir! í þínar hendur fel eg minn Anda. Og er hann hafdi þetta sagt, d) ad hneigdu höfdi, p) uppgaf hann sinn Anda.

## 11. Kapítuli.

Um teiknin er skédu eptir andlátid Kristí, og hans síduсár. Matth. 27. Mark. 15. Lúk. 23. Jóh. 19.

Og l) sjá ad tjaldid Musterisins rifnadi midt sundur í tvo parta, e) frá ofanverdu allt nidur í gégnum, a) og jördin skalf, og björgin klofnudu, og grafirnar lukust upp, og margir líkamir heilagra risu upp, þeir ed sváfu, og geingu eptir hans upprisu úr gröfunum, og komu í hina heilögu Borg, og auglýstust þar mörgum. l) En er Höfudsmadurinn hvör þar stód gégnt, sá þad hvad þar skédi, (og) ad hann kalladi svo þá ed hann létst, e) prísadi hann Gud og sagdi: ad vísu hefur þetta einn réttlátur madur verid, h) og Guds Sonur, a) og þeir sem med honum voru ad vardveita Jesúm, þá þeir sáu jardskjálftann, og þad hvad þar skédi, urdu þeir mjög óttaslegnir og sögdu:

sannlega var þessi Guds Sonur. Og allt fólk er þar var hjá og horfdi á, sem þeir sáu hvad þar skédi, bardi þad sér á brjóst, og snéri í burt aptur.

En allir hans kunníngar stódu lángt frá. c) Þar voru og margar konur, sem sáu þar uppá áleingdar, á medal hvørra ad var María Magdalena, og María hins litla Jacobs og Jóses módir, og Salóme, módir þeirra Zebedeí Sona, l) þær hönum høfdu eptirfylgt þá hann var í Galílea, c) og þjónad honum, b) og margar adrar, hvørjar med honum høfdu uppfarid til Jerúsalem c) úr Galílea, og horfdu á allt þetta.

En d) Gydíngar, med því þad var Affánga-dagurinn, svo ad líkamarnir væru eigi á Krossinum um Sabbatz-daginn (því ad sá sami Sabbatz-dagur var mikill) þá bádu þeir Pílatum ad þeirra bein britust og ofan tækist. Þá komu Strídsmennirnir, og brutu sundur bein hins fyrsta, og svo hins annars, sem med honum voru Krossfestir. En þá þeir komu til Jesú, og sáu ad hann var allareidu dáinn, þá brutu þeir eigi hans bein, heldur opnadi einn af Strídsmønnunum hans sídu med spjóti, og strax þá rann þar út blód og vatn. Og sá er þad hefur séd bér þar vitni um, og hans vitnisburdur er sannur, og hann sami veit þad ad hann seigir satt, svo ad þér og svo trúid. Því ad þetta er skéd, svo ad Ritníngin uppfyldist: eigi skulud þér brjóta nockud hans bein. Og enn aptur seigir ønnur Ritníng, þeir munu sjá hann í hvørn þeir stúngu.

12. Kap.

# 12. Kapítuli.

Um greftrunina Kristí og vardveitslu grafarinnar.
Matth. 27. Mark. 15. Lúk. 23. Jóh. 19.

Þar eptir m) þá ed qvøld var komid, b) af því þad var Atfángadagur hvør ad er fyrir Sabbatz= daginn, l) kom nockur madur ríkur af borg Gyd= ínga Arimathea, Jóseph ad nafni, einn erlegur Råd= herra, e) gódur mann og réttvís, hann hafdi ei samþyckt þeirra rádi og gjørníngum, g) hvør ed og svo var einn af Lærisveinum Jesú. d) þó heimug= legur, fyrir ótta sakir vid Gydínga, h) sá er og vón= adi eptir Guds ríki, l) hann dyrfdist ad gánga inn til Pílatum, p) og bad um ad hann mætti taka nid= ur líkamann Jesú. b) En Pílatus undradist ad hann væri þegar látinn, og kalladi Høfudsmanninn og spurdi hann ad, ef hann væri fyrir laungu andadur? Og er hann var þess vís ordinn, af Høfudsmannin= um, p) leyfdi hann þad. e) og skipadi ad Jóseph skyldi géfast líkaminn. d) Þá kom hann og tók nidur líkamann Jesú. b) Og hann keypti einn lín= dúk, a) og tók vid líkamanum l) og sveipadi hann í hreinu lérepti. d) Þar kom og Nicódemus, sá er fyrri kom um nótt til Jesú, færandi samblandada Myrru vid Aloe nær hundrad punda. Þá tóku þeir líkam= ann Jesú og sveipudu hann í líni med dýrmætu salve, svo sem Gydínga sidur er til ad greptra. En þar í þeim stad sem hann var krossfestur, var Grasgardur, og í Grasgardinum var ný grøf, í hvørja ad eing= inn hafdi enn verid lagdur, l) og Jóseph lagdi hann í (þessa) sína eigin nýa grøf, hvørja hann hafdi út= høggva látid í steini, e) og velti stórum steini ad

grafarðyrunum, a) og géck í burt, c) og það var Affángadagur, og Sabbatz-dagurinn tók til, d) þángað lögðu þeir Jesúm, fyrir sakir Affánga-dagsins Gyðínga, því að sú grøf var nærri. l) En þar var María Magdaléna; og ønnur María Jóses, og þær konur sem kómnar voru með honum af Galílea, fylgðu eptir, a) sitjandi gégnt yfir frá grøfinni, c) og skoðuðu grøfina; h) sáu til hvar og hvørninn hans líkami var lagður. En þær snéru aptur, reiðandi til dýrmætar jurtir og salve. En um Sabbatzdaginn voru þær kyrrar eptir løgmálinu.

Og annann dag þann sem eptir Affángadaginn er, søfnuðust saman þeir yppurstu Prestar og Pharísei ásamt til Pílatum, og sögðu: Herra! vær minnumst á það að þessi svikari sagði, þá er hann lifði, eptir þrjá daga mun eg uppríſa, af því skipa þú að forvara grøfina allt til hins þriðja dags, svo að ei komi hans Lærisveinar á nóttu og stéli honum í burt, og séigi fólkinu og hann sé upprisinn frá dauða, og verði hin séinni svikin argari þeim fyrri. Pílatus sagði til þeirra: þar hafi þér varðmennina, farið og forvarið sem þér kunnið. En þeir géingu í burt og forvøruðu grøfina með varðmønnunum, og innsigluðu steininn.

## 13. Kapítuli.

**Um qvinnurnar sem géngu til grafarinnar á Páskadags morguninn, og hvørnin Einglarnir boðuðu þeim upprisuna Herrans Kristi. Item um útgaungu Péturs og Jóhannis til grafarinnar og fyrstu opinberan Kristí, er skéði fyrir Maríu**

Magdalenu. Matth. 28. Mark. 16. Lúk. 24. Jóh. 20.

Og b) er Sabbatzdagurinn var lidinn, keyptu þær María Magdalena og María Jacobí og Salóme (sem Kristó hofdu eptir fylgt úr Galílea), dýrdleg smyrsl, ad þær kjæmi og smyrdi hann. a) En ad qvøldi Sabbatz-dagsins, sá er hefst hinn fyrsti heilagur dagur í Sabbatz-døgunum, kom María Magdalena, og hin ønnur María ad sjá grøfina. c) Og mjøg snemma á þeim fyrsta deigi vikunnar, d) þá ad enn var myrkt, b) komu þær til grafarinnar, c) og báru dýrmætt salve, er þær høfdu tilbúid, og nockrar med þeim. a) Og sjá ad þar vard jardskjálfti mikill, því ad Drottins Engill kom nidur af himni, géck þar ad, og velti steininum frá dyrunum, og setti sig þar uppá, og hans ásjána var sem eldíng og hans klædi hvít sem snjór. En vardhaldsmennirnir skélfdust af ótta, og urdu líka sem væri þeir daudir. b) Og (qvinnurnar) søgdu, hvør til annarar: hvør mun velta fyrir oss steininum af grafarmunnanum? Því ad hann var næsta mikill, og þær litu þángad, b) urdu varar vid, og fundu ad steininum hafdi velt verid af grøfinni, c) og stigu þar inn, og fundu ecki líkamann Herrans Jesú. d) Og (er María Magdalena) sjer ad steininum er burt af grøfinni, þá hleypur hún (ad hún kunngjøri þetta Postulunum). Og e) sem (qvinnurnar) efudu hér um, sjá, þá stódu tveir menn hjá þeim í skínandi klædum. En þær urdu hræddar, og slóu sínu ásjónu nidur til jardar, þá søgdu þeir til þeirra: hvad leiti þér hins lifanda hjá daudum? Hann er eigi hér, hann er upprisinn, hugleidid hvad hann taladi fyrir

ydur, þá hann var í Galílea, og sagdi: þad Manns-
ins Syni byrjadi ad seljast í syndugra hendur og
Krossfestur verda, og á þridja deigi upp ad rísa.
Og þær minntust á hans ord.. Og þær geingu frá
grøfinni aptur, og kunngjørdu allt þetta þeim ellefu,
og svo øllum ødrum. En þetta var María Mag-
dalena, og Jóhanna, og María Jacobí og þær adrar
med þeim, sem þetta søgdu Postulunum. Og þeirra
ord virdtist þeim sem væri þad skjal, og trúdu þeim
eigi. d) Og (María Magdalena) kémur til Símon-
ar Péturs, og til hins annars Lærisveins, þann ed
Jesús elskadi, og sagdi til þeirra: þeir hafa tekid
burt Herrann úr grøfinni, og vér vitum eigi hvar
þeir hafa lagt hann. c) Þá stód Pétur upp, d) géck
út, c) hljóp d) og hinn annar Lærisveinn, h) og
komu til grafarinnar. d) En þau tvø hlupu ásamt,
því hinn annar Lærisveinn hljóp vakrara framm enn
Pétur, og kom fyrst til grafarinnar. Og er hann gjægd-
ist þar inn, sá hana línklædin løgd þar, en hann géck
eigi inn. Þá kémur Símon Petrus eptir honum,
h) laut þar inn, og stígur í grøfina, og sjer ad lín-
løkin eru løgd þar einsømul, d) og þann sveitadúk,
er var um Jesú høfud, ei lagdann med línklædun-
um, heldur sérdeilis saman undinn í einum stad. Þá
sté og hinn annar Lærisveinn inn, sá er fyrri kom
til grafarinnar, sá þad og trúdi því, því þeir kunnu
þá ei enn Ritnínguna, þad honum byrjadi upp ad
rísa af dauda. h) Þá geingu Lærisveinarnir burt
aptur til samans, c) og (Pétrum) undradi hvørninn
þad væri skéd.

María d) stód vid grøfina, og grét þar úti fyr-
ir; og er hún grét, þá gjægdist hún í grøfina, og sá

tvo Engla hvítklædda sitjandi þar, einn til høfda, en annann til fóta, þar sem þeir høfdu lagt líkamann Jesú. Og þeir søgdu til hennar: kona! því grætur þú? Hún sagdi þeim: þeir hafa tekid burt Herrann minn, og eg veit eigi hvar þeir hafa lagt hann. Þá hún hafdi þetta sagt: snériſt hún vid, og leit Jesúm standa þar, og veit þó ei ad þad er Jesús. Þá sagdi Jesús til hennar; kona! hvad grætur þú? ad hvørjum leitar þú? En hún ætladi jurtagardsmanninn vera, og sagdi til hans: Herra! ef þú barst hann burt, þá seig þú mér, hvar lagdir þú hann? svo vil eg sækja hann. Jesús sagdi til hennar: María! hún snériſt vid, og sagdi til hans: **Rabbuni!** þad kallaſt Meiſtari. Jesús sagdi til hennar: snertu mig eigi, því ad eg er enn eigi uppſtíginn til míns Fødurs. Far til brædra minna, og seig þeim. Eg fer upp til míns Fødurs, og til ydvars Fødurs, til míns Guds og ydvars Guds. (Þessi var) María Magdalena, b) frá hvørri Jesús hafdi útrekid sjø djøfla, (hvørri) hann byrti sig fyrſt, er hann hafdi snemma morguns uppriſid á fyrſta deigi vikunnar. i) Og hún fór, kom og kunngjørdi Lærisveinunum, b) þeim sem medur honum høfdu verid, sem hormudu og grétu. d) Eg hefi séd Herrann, og þetta sagdi hann mér, b) og er þeir heyrdu ad hann lifdi, og hann væri opinberadur fyrir henni, þá trúdu þeir ei.

## 14. Kapítuli.

Um apturkomu qvennanna til grafarinnar, og Eingilsins prédikun fyrir þeim af upprisunni. Item um Herrans Kriſtí opinberan fyrir qvinn-

unum, þá þær geingu frá grøfinni, og medkénning vardhaldsmannanna, sem og þá tvo Lærisveina, er geingu til Emaus á Páskadaginn. Matth. 28. Marc. 16. Lúc. 24.

Og b) qvinnurnar fóru inn í grøfina, og sáu eitt úngmenni sitja til hægri handar, skrýddann sídu klædi hvítu, og þær urdu hræddar. c) En Eingill Drottins svaradi og sagdi til qvennanna: eigi skulud þér óttast, því ad eg veit ad þér leitid ad Jesú af Nazareth sem krossfestur var, eigi er hann hér, þvíad hann er upprisinn svo sem hann sagdi. Komid hér, og sjáid þann stad hvar Herrann var lagdur, gángid heldur skyndilega burt, og segid þad hans Lærisveinum b) og Pétri, a) ad hann sé upprisinn af dauda, c) og sjáid ad hann mun gánga fyrir ydur í Galíleam, þar munud þér sjá hann, b) eptir því sem hann sagdi ydur. a) Sjáid, eg sagdi ydur þad. c) En þær geingu út skyndilega og flýdu frá grøfinni a) med ótta og fagnadi miklum, og hlupu svo ad þær undirvísudu þad hans Lærisveinum, b) þvíad komin var yfir þær skjálfti og hrædsla. Og þær søgdu aungvum neitt, þvíad þær voru hræddar. a) Og þá þær geingu ad kunngjøra þad hans Lærisveinum, sjá þú, þá mætti þeim Jesús og sagdi: heilar séu þér. Og þær geingu til hans, og héldu um hans fætur, og tilbádu hann. Þá sagdi Jesús til þeirra: eigi skulud þér óttast, farid og kunngjørid mínum brædrum, ad þeir gángi í Galíleam, og þar skulu þeir mig sjá.

En medan þær geingu burt, sjá! þá komu nockrir af vardhalds-mønnunum í borgina, og undirvísudu þeim ædstu Prestum allt hvad til hafdi borid.

Og þeir søfnuðust saman með Öldúngunum, haldandi ráð-stefnu, og gáfu stríðs-mønnunum ærna peníuga, og søgðu: segið, hans Lærisveinar komu um nótt, og stálu honum á meðan vær sváfum. Og ef það kann að heyrast fyrir lands-dómaranum, skulum vér stilla hann, og gjøra að þér séuð traustir. Og þeir tóku peníngana, og gjørðu svo sem þeim var kénnt, og þessi orð-rómur er víðfrægur orðinn meðal Gyðínga allt til þessa dags.

Eptir b) það þá er tveir af þeim ferðuðust, opinberaði hann sig þeim í annari líkíngu, þá er þeir geingu um þorpa-grundirnar, (því að) sjá þú, c) að tveir af þeim geingu þann sama dag til nockurs kauptúns, það eð var frá Jerúsalem sextíu akra-leingð, hvørt eð Emans var að nafni, og þeir tøluðu sín á milli um alla þá hluti sem við høfðu borið. Og það skéði, þá þeir svo tøluðu, og spurðust á sín í millum, kom Jesús til þeirra, og géck með þeim. En þeirra augu voru svo haldinn, að þeir þecktu hann eigi. En hann sagði til þeirra: hvað er það fyrir ræðu, sem þið høndlið reikandi á veiginum ydkar á milli og eruð hryggvir út af? þá svaraði einn er Cleóphas var að nafni, og sagði til hans. Ertú alleina einn af þeim ókénndu í Jerúsalem, að þú veitst eigi hvað á þessum døgum þar inni gjørst hefur? og hann sagði til þeirra: hvað er það? en þeir søgðu til hans: það af Jesú af Nazareth, hvør eð var einn spámaður, megtugur í orðum og verkum fyrir Guði og øllu fólki. Hvørsu að vorir Høfuð-Prestar og høfðíngjar seldu hann í fordæmíng dauðans, og krossfestu hann; en vér vonuðum að hann mundi endurleysa Ísrael, og yfir

allt þetta, er hinn þridji dagur í dag er þetta skédi. Svo hafa og skélft oss nockrar konur af oss til, þær ed snemma høfdu hjá grøfinni verid, og ecki fundid hans líkama, komu og søgdu sig sjed hafa Einglanna sjónir, þeir ed søgdu hann lífa. Og nockrir út af oss geingu til grafarinnar, og fundu eins líka sem konurnar høfdu sagt, en hann fundu þeir ecki. Og hann sagdi til þeirra; ó þér heimskir og tregir í hjarta, ad trúa því øllu hvad Spámennirnir hafa talad? átti Kristur ei þettad ad lída, og inngánga í sína dýrd? og hann tók til frá Móyse og øllum Spámønnum, og lagdi út fyrir þeim allar Ritníngar, þær af honum vóru. Og þeir tóku ad nálgast kauptúnid þad þeir geingu til, og hann lét þá sem vildi hann leingra gánga. Þeir neyddu hann og søgdu: vert hjá oss, þvíad qvølda tekur og á daginn lídur, og hann géck inn ad vera hjá þeim.

Og þad skédi, þá hann sat med þeim til bords, ad hann tók braudid, gjørdi þackir, og braut þad, og rétti ad þeim. Þá opnudust þeirra augu svo þeir þecktu hann, og hann vard ósýnilegur fyrir þeim, og þeir søgdu sín á milli: brann ecki ockart hjarta í ockur, þá hann taladi vid ockur á veiginum, og opnadi fyrir ockur Ritníngarnar? og þeir stódu upp á somu stundu, og sneru aptur til Jerúsalem, og fundu þá ellefu samansafnada, og þá sem med þeim voru, hvørjir ed søgdu: Drottinn er sannarlega upprisinn, og hefur byrtst Simoni. b) Og þeir sømu geingu burt, b) og kunngjørdu hinnm ødrum, c) hvad gjørst hafdi á veginum, og hvørninn hann vard þecktur af þeim, í því hann braut braudid. b) Þeim trúdu þeir og eigi.

# 15. Kapítuli.

Kristur byrtist Postulunum á Páskadags qvøldið, og sýnir þeim sínar hendur og fætur, gefur þeim makt að fyrirgéfa syndirnar, og þeim apturhalda, einninn opinberar sig Thómæ átta døgum síðar. Marc. 16. Lúc. 24. Jóh. 20.

En b) seinast er þeir ellefu sátu til borðs, byrti hann sig, (því) er c) þeir voru að tala þetta, d) þann sama dag, er fyrstur var í vikunni, að qvøldi, þá er Lærisveinarnir voru samankomnir, og dyrnar voru apturlucktar, fyrir hræðslu sakir við Gyðínga, (þá) kom h) Jesús sjálfur og sté mitt í millum þeirra, og sagði til þeirra: friður sé með yður. c) En þeir skélfdust og urðu hræddir, og meintu að þeir sæu Anda nockurn, og hann sagði til þeirra: því eruð þér svo hræddir, og því koma slíkir þánkar í yðar hjörtu? Sjáið mínar hendur og mína fætur, að eg em það sjálfur, þreifið þér á mér og skoðið, því að Andi hefur hvørki hold né bein, svo sem þér sjáið mig hafa. h) Og þá hann sagði þetta: sýndi hann þeim hendur og fætur og sína síðu. d) Þá urðu Lærisveinarnir glaðir, að þeir sáu Drottinn; c) og er þeir trúðu enn eigi fyrir fagnaðar sakir, og undrandi það, sagði hann til þeirra: hafið þér hér nockuð að eta? Og þeir løgðu fyrir hann stycki af steiktum fiski, og hunángs-köku, og hann tók það og át fyrir þeim. b) Og (hann) ávítaði þeirra vantrú og hjartans harðúð, það þeir høfðu eigi trúað þeim, sem hann høfðu séð upprisinn. c) Og hann sagði til þeirra: þetta eru þau orð, hvør eg talaði til yðar, þá eg var enn nú hjá yður, því að það

hlýtur allt ad fullkomnaſt, hvad af mér var ſkrifad í Moyſis løgmáli, Spámanna bókum og Sálmum. Þá opnadi hann þeirra ſkilníng, ſvo ad þeir ſkildu Ritníngarnar, og ſagdi til þeirra: ſvo er þad ſkrifad, og ſvo byrjadi Kriſtó ad líða, og upp ad rísa á þridja deigi af dauda, og prédika láta í ſínu nafni ydran og ſyndanna fyrirgéfníng, á medal allra þjóda, og upphefja til Jerúſalem. En þér erud vottar allra þeſsara hluta. d) Þá ſagdi Jeſús enn aptur til þeirra: fridur ſé med ydur, líka ſem Fadirinn ſendi mig, ſvo ſendi eg ydur, og er hann ſagdi þetta, blés hann á þá og ſagdi til þeirra: medtaki þér heilagann Anda, hvørjum þér fyrirgéfid ſyndirnar, þá eru þær þeim fyrirgéfnar, og hvórjum þér þær apturhaldid, þá eru þær þeim apturhaldnar. En Thómas einn af þeim tólf, ſá er kalladiſt Tvíburi, var eigi med þeim þá Jeſús kom. Þá ſøgdu adrir Læriſveinarnir til hans: vér høfum ſjed Herrann. En hann ſagdi til þeirra: nema eg ſjái naglaførin í hans høndum, og eg láti minn fíngur í naglaførin, og eg leggi mína hønd í hans ſídu, vil eg ecki trúa. Og átta døgum eptir þad, þá vóru hans Læriſveinar þar aptur enn inni, og Thómas med þeim, þá kom Jeſús ad lucktum dyrum, ſtód í midid og ſagdi: fridur ſé med ydur. Því næſt ſeigir hann til Thómam: réttu þinn fíngur híngad og ſkoda mínar hendur, rétt út þína hønd og legg í mína ſídu og vert ei vantrúadur heldur trúadur. Thómas ſvaradi og ſagdi til hans: Drottinn minn og Gud minn. Jeſús ſagdi til hans: því ad þú ſáſt mig Thóma, þá trúdir þú; ſælir eru þeir er ei ſjá og trúa þó. Og mørg ønnur teikn þá gjørdi

Jesús fyrir sínum Lærisveinum, hvør ad eigi eru skrifud í þessari bók; en þessi eru því skrifud ad þér trúid þad Jesús sé Kristus Guds Son, og ad þér skulud hafa lífid fyrir trúna í hans nafni.

## 16. Kapítuli.

Kristur opinberar sig Lærisveinunum vid sjóinn Tyberiadis og heldur samtal vid Petrum. Jóh. 21.

Eptir þad opinberadi sig Jesús enn aptur vid sjóinn Tyberías, en hann opinberadi sig svo, þar voru til samans Símon Petrus og Thómas, sá er kalladist Tvíburi, og Nathanael sá er var af Cana Galíleæ, og synir Zebedeí og adrir tveir af hans Lærisveinum. Símon Petrus sagdi til þeirra: eg vil fara ad fiska, þeir sögdu honum: þá viljum vér og koma med þér. Þeir geingu þá út og stigu strax á skip; og á þeirri nótt feingu þeir ekkért.

En ad morgni komnum, þá stód Jesús í fjörunni, en Lærisveinarnir vissu ei ad þad var Jesús. Jesús sagdi til þeirra: börn! hafid þér ekkért til matar? Þeir svörudu honum: nei. En hann sagdi til þeirra: kastid út netinu til hægri handar vid skipid, og þá munud þér nockud finna. Þá köstudu þeir út, og gátu ei dreigid fyrir fjölda sakir fiskanna. Þá sagdi sá Lærisveinn til Péturs sem Jesus elskadi: Herrann er þad; en þá Símon Petrus heyrdi þad, ad Herrann væri þad, vafdi hann um sig skyrtunni, því ad hann var nakinn, og varpadi sér út á sjóinn. En adrir Lærisveinarnir komu á skipinu, því ad þeir voru ei lángt frá landi, heldur nær tvö hundrud álna, og drógu netid med fiskunum. Og er þeir stigu á land, sáu þeir eldsglædur, og fisk yfirlagdann og braud. Jesús seigir til þeirra: færid híngad af þeim fiskum er þér feingud nú. Símon Petrus sté inn, og dró netid á land, fullt af stórum fiskum, hundrad þremur og fimmtýgu, og þó þeir væru svo margir, þá rifnadi þó eigi netid. Jesús seigir til þeirra: komid þér og snædid; en einginn Lærisveinanna þordi ad spyrja hann ad, hvør ertu? Því ad þeir vissu ad þad var Herrann. Þá kom Jesús og tók braudid, gaf þeim þad, og líka einninn fiskinn. Þetta er nú hid þridja sinn, er Jesús

opinberadi sig sínum Lærisveinum, eptir þad hann var upprisinn af dauda.

Þá þeir hofdu snædt, seigir Jesús til Símonar Peturs: Símon Jóna! elskar þú mig meir enn þessir? hann sagdi honum: já Herra, þú veitst ad eg elska þig; hann sagdi þá til hans: fæd þú lomb mín. Enn seigir hann í annad sinn aptur til hans: Símon Jóna! elskar þú mig? hann seigir honum: já Herra, þú veitst eg elska þig; hann seigir til hans: fæd þú saudi mína. Hann seigir enn aptur í þridja sinn til hans: Símon Jóna! elskar þú mig? Þá hrygdist Pétur vid, því hann sagdi í þridja sinn til hans: elskar þú mig? og sagdi til hans: Herra! Þú veitst alla hluti, þú veitst ad eg elska þig; Jesús seigir til hans: al þú saudi mína. Sannlega sannlega seigi eg þér: þá þú varst úngur, gyrdtir þú sjálfur þig, og gékkst hvört þú vildir, en þá þú eldist, muntu þínar hendur útbreida, og annar mun þá gyrda þig, og þángad leida sem þú villt eigi. En þetta sagdi hann, teiknandi med hvörjum dauda ad hann skyldi Gud dýrka.

Og þá hann hafdi þetta sagt, seigir hann til hans: fylg þú mér eptir. Þá snéri Pétur sér vid, og leit þann Lærisvein eptirfylgjanda, sem Jesús elskadi, sá er og um Qvoldmáltídina hafdi á hans brjósti leigid, og sagt: Herra! hvor er sá er þig mun forráda? Þá Pétur leit þennann, seigir hann til Jesú: Herra! hvad skal þá þessi? Jesús seigir til hans: ef eg vil ad hann blífi til þess ad eg kém, hvad kémur þad vid þig? fylg þú mér eptir. Þá gékk sú ordræda út á medal brædranna, þessi Lærisveinn deyr eigi; og Jesús sagdi eigi til hans: hann deyr eigi, heldur ef eg vil ad hann blífi til þess ad eg kém, hvad kémur þad vid þig? Þessi er sá Lærisveinn, er um þessa hluti ber vitni, og þetta skrifadi, og vér vitum ad hans vitnisburdur er sannur.

## 17. Kapítuli.

Kristur opinberast Lærisveinunum á einu fjalli í Galilea, felur þeim á hendur þad heilaga predikunar embætti, og býdur þeim ad bida í Jerúsalem, eptir fyrirheiti heilags Anda, Matth. 28. Mark. 16. Lúk. 24. Act. 1.

En a) þeir elleſu Læriſveinar geingu í Galíleam á eitt fiall, það er Jeſús hafði þeim fyrirſkipað. Og er þeir ſáu hann, tilbáðu þeir hann, en nockrir eſuðu það. Og Jeſús géck til þeirra, taladi við þá og ſagði: allt vald er mér géfið, bædi á himnum og á jordu. c) Fyrir því farið út um allann heiminn, a) lærið allar þjóðir, og b) predikið Evangelíum allri ſképnu. a) Skírið þær í nafni Fodur, Sonar, og heilags Anda, og kénnið þeim að halda allt hvað ég bauð ydur. b) Hvor hann trúir og verdur ſkírdur, ſá ſkal hólpinn verda, en hvor eigi trúir, hann ſkal fordæmaſt. En teiknin er þeim munu fylgja ér trúa eru þeſsi: í mínu nafni munu þeir djoſla útreka, nýar túngur tala, hoggorma burttaka, og ef þeir drecka nockud banvænlegt, ſkal það þeim eigi granda, yfir ſjúka munu þeir ſínar hendur leggja og þá mun þeim batna. a) Og ſjáið ég em með ydur alla daga, allt til énda veraldar.

(Én Drottinn) eptir q) það hann hafði Poſtulunum befalníng géfið hverja hann hafði útvalið fyrir heilagann Anda, vard uppnuminn, hverjum hann tédi og ſjálfann ſig lifanda, eptir píſl ſína í marghárttaðum bevíſingum, og lét ſjá ſig á medal þeirra um fjorutígir daga, talandi fyrir þeim af Guds ríki. Og ſem hann hafði þeim ſamanſafnad baud hann þeim, ad þeir viki eigi útaf Jerúſalem, heldur að þeir ſkyldu eptirbída fyrirheiti Fodurſins, c) og (ſagdi) ſjáið að eg vil ſenda yfir ydur fyrirheit míns Fodurs, q) ſem þér hafið af mér heyrt. c) En þér ſkulud vera kyrrir í borginni Jerúſalem, þángað til að þér íklædiſt krapti af hædum, q) því að Jóhannes ſkírdi med vatni, en þér ſkulud med heilogum Anda ſkírdir verda, ei lángt eptir þeſsa daga. En þeir ſem þar vóru til ſamans komnir, ſpurdu hann að og ſogdu: Herra! viltu nú á þeſsum tíma uppréttа aptur Ísraels ríki? En hann ſagdi til þeirra: ydur ber ei ad vita tíma edur ſtundir, hvórjar Fadirinn ſetti í ſjálfs ſíns valdi, heldur munud þér odlaſt krapt heilags Anda, þeſs er yfir ydur mun koma; og þér ſkulud mínir vottar vera til Jerúſalem og í allri Júdea og Samaría, og allt til veraldarinnar enda.

18. Kap.

## 18. Kapítuli.

Um dýrdarlega uppstigning Jesú Kristi til himna. Mark. 16. Lúk. 24. Jóh. 21. Act. 1.

En c) Drottinn hafdi þá út allt til Bethaníam, og hóf upp sínar hendur og blessadi þá. Og þad gjördist, b) eptir þad hann hafdi talad vid þá, c) þá hann blessadi yfir þá, q) og sagdi þetta, c) ad hann skildi vid þá, (og) var q) þeim ásjáendum uppnuminn, og eitt ský tók hann upp í burt frá þeirra augum. h) Og (hann) fór upp í himininn, b) og situr til Guds hægri handar. c) En þeir tilbádu hann. q) Og er þeir horfdu eptir honum til himins uppfaranda, sjá! þá stódu tveir menn hjá þeim í hvítum klædum, hvörjir og sögdu: þér menn út af Galílea, til hvörs standi þér og horfid upp í himininn? Þessi Jesús sem uppnuminn er frá ydur til himins, mun koma, líka svo sem þér sáud hann til himins uppfara. Þá snéru þeir aptur til Jerúsalem e) med miklum fagnadi, q) af fjallinu því sem kalladist Vidsmjörs-vidar-fjall, hvört ad er nærri Jerúsalem, og liggur eina Sabbatsdags leid þadann. Og er þeir komu inn, geingu þeir upp í loptid og voru þar, Petur og Jacobus, og Jóhannes og Andreas, Philippus og Thómas, Bartholomeus og Mattheus, Jacobus Alpheison og Símon Zelotes og Júdas Jacobí. Þessir voru allir med einum huga stödugir í bæn og ákalli med qvinnunum, og med María Módur Jesú og hans brædrum, c) og voru alltíd í Musterinu, vegsamandi og lofandi Gud. b) En þeir geingu út (sídar meir) og prediku allstadar, og Drottinn var samverkandi med þeim, og stadfesti ordid fyrir medfylgjandi teikn. d) Þar eru og margir adrir hlutir sem Jesús gjördi, hvörjir ef þeir skyldu allir skrifast eitt eptir annad, þá held eg ad heimurinn mundi ei yfirgrípa þær bækur sem skrifast mættu, Amen.

---

Hér endast Harmonia Evangelica.

---

# APPENDIX TRIPLEX.

## Þrennslags Viðbætir.

### I. Um farsællegann framgang

# Evangelii,

Eptir Kristi uppstigning til himna, og einkanlega um köllun Matthíæ til Postulegs Embættis, og útsending heilags Anda á Hvítasunnudeigi.

Af Postulanna Gjörnínga Bókar 1. og 2. Kapítulum.

Á þeim døgum (eptir það Jesús var uppnuminn til himna) stód upp Pétur á milli Lærisveinanna og sagdi: (en flockurinn ad nafni, var nær hundrad og tuttugu til samans), þér menn og brædur! þeirri Ritníngu byrjadi upp ad fyllast, hvørja heilagur Andi ádur fyrirsagdi fyrir munn Davíds, út af Júda, hvør ed var þeirra leidtogari er Jesúm høndludu, því hann var talinn med oss, og hafdi medtekid þetta Embætti med oss, þessi hefur útvegad akurinn fyrir óréttferdug verdlaun, og heingdi sig, og er í midju sundur í tvo hluti brostinn, og hans innifli eru øll úthlaupin, og þad er øllum kunnugt ord=

id, þeim er Jerúsalem byggja, svo ad sami akur er kalladur á þeirra túngumál Hakeldama, þad er: blóds-akur, þvíad svo er skrifad í Sálma-Bókinni: hans setur skal í eydi verda, og eigi sé sá nockur sem þar innibyggir, og hans Biskups-dóm medtaki annar. Fyrir því skal nú einn af þeim mønnum, sem alla tíma hafa med oss verid frá því er Drottinn Jesús tók ad gánga út og inn vor á milli, frá Skírn Jóhannis, allt til þess dags er hann var uppnuminn í frá oss, vera einn vottur, hans upprisu medur oss.

Og þeir settu til tvo. Jóseph, hann er hét Barsabas, ad vidurnefni Just, og Matthíam, bádu og søgdu: þú Drottinn sem þeckir øll hjørtu, sýn hvørn þú hefur útvalid af þessum tveimur, svo ad einn medtaki þessa þjónustu og Postula embætti, í frá hvørju Júdas er affallinn, þad hann burtfæri í sinn stad. Og þeir løgdu hluti yfir þá, og hluturinn féll yfir Matthíam, og honum var skickad til þeirra ellefu Postula.

Og þá er fullkomnadist Hvítasunnudagurinn, voru þeir allir med einum huga til samans, og þar vard skyndilega þytur af himni, sem mikill vindur, og fyllti upp allt húsid þar þeir sátu í. Og þeir sáu sundurskildar túngur, svo sem ad væri þær glóandi, og hann setti sig yfir sérhvørn þeirra, og þeir urdu allir fullir af heiløgum Anda, og tóku ad tala med annarlegum túngum, eptir því sem heilagur Andi gaf þeim út ad tala.

En þar voru Gydíngar, búandi til Jerúsalem, þeir voru gudhræddir menn út af allrahanda þjód, þeirri sem undir himninum er, og er þessi rødd skédi,

kom almúginn til samans, og vard undrandi, þvíad hvør og einn heyrdi þá tala sína túngu, svo þad allir tóku ad óttast og undrast, og sögdu hvør vid annann: sjá, eru þessir eigi allir sem þar tala út af Galílea? Hvørninn heyrum vér hvør einn sitt túngumál, þar ed vér erum inni fæddir? Parti og Medi, og Elamite, og vér sem búum í Mesopotamia, Júdea, Cappadocia, Ponto og Asía. Phrygia og Pamphilia, á Egyptalandi, og í endimørkum Lybie, sem er nærri Cyrenia, og útlendir af Róm. Júdar og þeir sem Júdar hafa gjørst, Cretar og Arabíar, vér heyrum þá tala med vorum túngum Guds furdu=verk. En allir urdu óttaslegnir, og undrudust þad, segjandi sín á milli: hvad mun þetta vilja verda? En adrir høfdu þad ad spotti, og sögdu: ad þeir væri fullir af sætu víni. Þá géck Pétur upp med þeim ellefu, hóf upp sína raust, og taladi til þeirra: þér Gydíngar gódir menn, og þér allir sem búid til Jerúsalem, þad sé ydur kunnugt, og látid ydur mín ord í eyrum loda, þvíad þessir eru eigi drucknir, sem þér meintud, med því þad er þridja stund dags, heldur er þetta þad hvad sagt var fyrir Spámanninn Jóel. Þad skal ské á sídustu døgum, seigir Gud, ad eg vil úthella af mínum Anda yfir allt hold, og synir ydrir og dætur ydar skulu spá, og úngmenni ydar skulu sjónir sjá, og ydar øldúnga skal drauma dreyma, og eg vil úthella af mínum Anda á þeim sömu døgum yfir mína þjóna, og yfir mínar ambáttir, og þeir skulu spá. Og eg skal gjøra furdanlega hluti á himnum uppi, og teikn á jørdu nidri, blód og eld og reikjarsvælu. Sólin skal snúast í mirkur, en túnglid í blód, ádur enn

sá hinn mikli og alkunni dagur Drottins kémur, og þad skal ské, ad hvør sém ákallar nafnid Dróttins, sá skal hólpinn verda. Pér Israels menn! heyrid þessi ord, Jesúm af Nazareth, einn mann af Gudi medal ydar auglýstann, med kraptaverkum, stórmerkjum og táknum, þau er Gud gjördi fyrir hann á medal ydar, (svo sem þér og sjálfir vitid) þann sama (eptir þad hann var af forþeinktu rádi Guds og fyrirhygan ofur-seldur) hafid þér tekid hann fyrir hendur ránglátra, og krossfest hann og líflátid. Þennann hefir Gud uppreist, ad uppleystum daudans qvølum, fyrir því ad þad var ómøgulegt, ad hann skyldi af honum haldinn verda, þvíad Davíd seigir svo af honum: eg hefi alla tíma Drottinn fyrir minni augsýn settann, því hann er mér til hægri handar, svo ad eg hræriist eigi, fyrir þad er mitt hjarta gladvært, og túnga mín gledst, og þar ad auk mun mitt hold hvílast í voninni, þvíad þú munt eigi forláta mína ønd í helvíti, og eigi leyfa þad ad hinn heilagi skuli rotnan sjá. Kunna gjördir þú mér lífsins vegu, þú munt mig gledi fylla, fyrir þínu augliti. Pér menn gódir brædur, leyfid mér einardlega til ydar ad tala af forfødurnum Davíd, hann er framlidinn og greftradur, og hans grof er hjá oss allt til þessa dags. Af því ad hann var nú Spámadur, og vissi þad ad Gud hafdi honum med eidi fyrirheitid, ad hann vildi af ávexti hans lenda, eptir holdinu uppvekja Kristum, sem skyldi á hans stóli sitja, hefir hann þad ádur fyrirsjed og talad af Kristí upprisu, ad hans sála sé ei í helvíti eptirskilin, og eigi hafi hans hold rotnan sjed.

Þennann Jesúm uppvakti Guð, þar til erum vér allir vottar. Nú hann er fyrir Guðs hægri hönd upphafinn, og hefur meðtekið heilags Anda fyrirheit af Föðurnum, úthellti hann þessu það þér sjáið og heyrið, því að Davíð er eigi uppstíginn til himna, en hann seigir: Drottinn sagði mínum Drottni, sit þú til minnar hægri handar, þar til eg legg óvini þína til skarar fóta þinna. Því vitið það nú fyrir sann, allt Israels hús, að Guð gjörði þennann Jesúm hvörn þér krossfestuð, að einum Drottni og Kristi.

En er þeir höfðu þetta heyrt, gékk það í gégnum þeirra hjarta, og sögðu til Péturs og til annara Postulanna, þér menn og góðir bræður! hvað skulum vær gjöra? Pétur sagði til þeirra: gjörið yfirbot, og hvör yðar einn láti skíra sig í nafni Jesú Kristí, til fyrirgéfníngar syndanna, þá munuð þér meðtaka heilags Anda gjöf. Því að yður og yðar börnum er þetta fyrirheit lofað, og öllum þeim sem í fjarska eru, hvörja helst að Guð Drottinn vor mun hér til kalla. Og mörgum öðrum orðum vitnaði hann fyrir þeim, áminnti þá og sagði: látið hjálpa yður í frá þessu vonda fólki, og þeir sem fúsir meðtóku hans orð, létu sig skíra, og þar urðu á þeim deigi viðauknar, nær þrjár þúsundir sálna. Og þeir blifu stöðugir í Postulanna kénníngu, og í samneyti og brauðsins brotníngu og í bænahaldi, og allra sálir urðu óttaslegnar, og þar gjörðust mörg teikn og stórmerki fyrir Postulana, en allir þeir sem trúaðir voru orðnir, voru til samans og höfðu alla hluti

sameiginlega. Eignir sínar og góts seldu þeir, og sundurskiptu því medal allra, eptir því sem hvørjum var þørf á, og jafnan voru þeir daglega med einum huga, hvør hjá ødrum í Musterinu, og brutu braudin í ýmsum húsum, tóku fædslu, og lofudu Gud med gledi og einføldu hjarta, og høfdu nád hjá øllu fólki, en Drottinn lagdi daglega til safnadarins þá sem hólpnir urdu.





## II. Stutt Agrip

um

# Lífnad, Kénníng og Afgáng Postulanna og Gudspjalla-mannanna.

Ur Theatro Historico Andreæ Handorfii.

---

### I. S. PETRUS.

Hinn heilagi Pétur var ættadur úr einu kauptúni í Galílea landi sem hét Bethsaida, og vard sídar af fátækum fiskara hátt upphýstur Postuli Herrans Krists. Hann var sá fyrsti sem eptir uppstigníng Kristí prédikadi Evangelíum á Hvítasunnu hátíd, og snéri þremur þúsund sálum til réttrar trúar, Actorum 2. Hann var trúr Kristí þénari, stadfastur í sannleikanum, máttugur í verkum, øruggur og óqvíðinn fyrir ædi og umsátri ymsra Týranna og hræsnara, svo sem lesa má í Postulanna Gjørníngа Bók, 3. 4. 5. 8. 10. 11. 12. og 15. Kap. Þá hann veik frá Jerúsalem, fór hann til Joppen, þadan til Cæsaream, og svo í Pontum, Galatiam, Cappadociam, Bithyniam, Asiam, etc. Og prédikadi Evangelíum Kristí med stórum anda-

krapti. Að hann hafi í 25 ár Biskup verið í Róm, efa sumir, en Evsebius skrifar svo um hann í 2. Bókar 14. Kap. Pétur (segir hann) kom úr Austurálfunni svo sem nockur himneskur höndlunarmaður, hafandi með sér ljósins voru, fyrir þá sem hana gyrnast vildu, og var hann sá fyrsti sem í Rómaborg upplauk himnaríkis-hurð með sinni kénníng og lyklum Evangelii. Um dauða hans gétur hinn heilagi Augustinus, að hann hafi undir Nerone Keisara krossfestur verið, og með píslarvætti kórónaður á þann veg, að fæturnir hafi horft upp en höfuðið niður, því hann sagði sig óverðugann vera eins að krossfestast og sinn Herra Jesúm Kristum, hvörju Evsebius er einninn samhljóða, Libro 2. Kap. 25. Skéði þetta (sem sumir reikna) árum eptir Guðs burð 70.

## II. S. ANDREAS.

Hann var bróðir Símonar Petrí, og Lærisveinn Jóhannis Skírara, en þegar hann heyrði af Jóhanni, að Jesús væri Messías, og það Lambið Guðs, sem burt tæki heimsins syndir, fylgdi hann honum strax eptir, og vísaði bróður sínum Petri til hans segjandi: vær höfum fundið Messíam. Eptir uppstigníng Kristí til himna, prédikaði hann Evangelíum í Skythia, (svo sem Evsebíus skrifar) síðan í Achaia, Bithynia og Macedoníа, og leiddi þar marga undan Satans oki og skurðgoða villu á rétta sáluhjálpar leið, á meðal hvörra er helst gétið Maximillæ, sem var húsfrú Ægeæ Lands-Dómara Edessenorum. Það mislíkaði þeim forblindaða heiðna manni svo mjög, að hann lét ei að eins fánga og

binda hinn heilaga Andream, heldur og svo vægdarlaust lemja, og sídan krossfesta, en sá hugprúdi píslarvottur gladdist vid þóílíkann dauda, og mælti til Lands-dómarans: hefdi mér verid vidbjódur á krossinum, þá mundi eg ei hafa svo opt hrósad dýrd eg verdugleika krossins Kristí. Sagt er hann hafi lifad á krossinum í þrjá daga, og med sinni gudlegri játníng og prédikun snúid mørgum til réttrar trúar.

Hann andadist í borg þeirri er Putræ heitir, í Achaia, 80 árum eptir fæding Kristí, þann sídasta Nóvembris, sem Sagna-meistararnir skrifa.

## III. S. JACOBUS Major.

Pessi var bródir Jóhannis Gudspjallamanns, en sonur Zebedæi og Salóme, systur Jósephs festar manns Maríu meyar. Heródes lét setja hann í fangélsi, og sídan med sverdi hálshøggva. Hans verdur gétid, Matth. 4. 10. 17. 20. 26. Marc. 1. 3. 9. Lúc. 5. 6. 8. Act. 12. Um þennann Jacobum skrifar **Clemens Alexandrinus** eina minnilega historíu er hann seigir sig af eldri manna frásøgn heyrt hafa, ad sá hinn sami sem ofurseldi hann í daudann, hási sjálfur komist vid í hjarta sínu, og játad síg líka kristinn mann vera, hafi þeir svo bádir leiddir verid til lífláts undir eins; en á medan þeir voru á veiginum, hafi hinn bedid Jacobum um fyrirgéfníng, en hann hafdi staldrad vid og sagt: fridur sé med þér! og kysti hann, og svo hafi þeir bádir hálshøggnir verid, Anno Kristí 36. Evseb. Lib. 2.

## IV. S. JOHANNES Evangelista.

Jóhannes, sá Lærisveinn sem Jesús elskadi, hvør ed lá á hans brjósti um Qvøldmáltídina, var bródir Jacobí, og vard af fiskara Postuli og Gudspjallamadur, hans verdur gétid, Matth. 10. 20. 27. Mark. 3. 9. Jóh. 13. 19. 20 Á døgum þeirrar ofsóknar er skédi undir Domitiano Keisara, var hann útlægur gjørdur í Eyna Pathmum, hvar hann skrifadi sitt Evangelíum og Apocalypsin edur Opinberíngar Bókina. En eptir dauda Domitiani þá Nerva ríkti, fór hann aptur í Asíam og stýrdi þeim Sofnudum er þar voru hvar hann sætlega sofnadi í Kristó undir ríkisstjórnan Trajani í háum aldurdómi, þá hann hafdi lifad 68 ár, eptir Frelsarans Kristí pínu.

Clemens skrifar eina minnisverda Historíu um Jóhannem Gudspjallamann, ad hann hafi á hendur falid einum Biskupi, úngmenni nockurt mannvænlegt, en þó nockud hardlundad, til ad kénna og uppmennta þad, hvørt úngmenni Biskupinn tók heim til sín, og uppfrædi þad fyrst kostgæfilega; en sem tídir lidu framm, og Biskupinn tók til ad hafa minni adgjætni á þessu úngmenni, og lofadi því ad ráda fyrr enn ský'di, þá forlét þad Biskupinn og gaf sig í soll og selskap annara vondra úngmanna, sem løgdu fyrir sig rán og rupl, og vard svo þeirra foríngi. En sem Gudspjallamadurinn vard þessa var af Biskupinum, tók hann sér strax fylgdar-menn, fór af stad ad leita þess únga manns, vard hann svo gripinn af njósnarmønnum þessara ræníngja, og bad þá ad leida sig

fyrir þeirra Høfuds=mann. En er hann sá Jóhannem til sín koma, vard hann hræddur, snériſt vid og veik á burt þad fljótaſt hann kunni, en Jóhannes, þó hann væri gamall, rann eptir honum og kalladi hárri røddu, ſeigjandi: hvad flýr þú úngur madur undan gømlum kalli, ſonur frá fødur ſínum, vopnadur undan vopnlauſum? óttaſt þú ecki, enn nú er þér hjálpar von; eg ſkal reikníng ſtanda Kriſtó þinna vegna, og ſetja mína ſál í ved fyrir þína, ef þerf gjøriſt, býd þú vid og trú þú því, ad eg ſé þér af Kriſtó ſendur. Þá hann þetta heyrdi, ſtód hann vid, kaſtadi vopnunum, grét og bar ſig aumlega, féll til fóta Poſtulans og bad audmjúklega um fyrirgéfníng á ſinni ávirdíng. En Jóhannes bodadi honum og tilſagdi qvittan og fyrirgéfníng, af Lausnarans hálfu, og féck hann ſvo optur fyrir ſanna ydran, hreinſadann og helgadann Guds Søfnudi. Evſeb. Lib. 3. Kap. 23.

## V. S. PHILIPPUS.

Philippus var ættadur af Bethſaida, hans gétur S. Jóhannes í ſínnar Gudſpjalla=bókar 1. 6. 8. og 14. Kapitulum, og Lúkas í Poſtulanna Gjørnínga=bókar 8. Kap. Hann prédikadi Evangelíum Kriſti í Scytyia í 20 ár, þadan er ſagt hann reiſt hafi í Aſíam á 87 ári ſíns alldurs, og hafi heidarlega greſtran feingid í borginni Hierpolí, Evſeb. Lib. 3. Sumir ſeigja ad hann hafi Kroſsfeſtur verid, og af lýdnum grjóti laminn til dauda, hvad Pólycratis og ſvo ſtadfeſtir.

## VI. S. BARTHOLOMEUS.

Barthólómeus Poſtuli prédikadi Guds ord þeim

Indíanum, sem kallast Fortúnati, og kénndi þeim Evangelíum Matthei. Skúrgodid Astaroth braut hann sundur, og auglýsti svik og pretti djøfulsins, er hann blindadi menn med, í því ad hleypa sjúkdómum á suma, en suma ad lækna. Dóttur Kóngsins Pólemii fríadi hann frá óhreinum anda med gudlegri bæn, og læknadi marga sjúka og vanfæra, hvørs vegna allur lýdurinn sneri sér til Kristum, og játadi hann opinberlega. Sjálfur Kóngurinn Pólemíus med sinni Drottníng og tveimur sonum, tóku af honum heilaga skírn. En þeir vondu Prestar skúrgodsins Astaroth, komu því til leidar hjá Astíagi bródur Pólemii, ad sá heilagi Postuli var fyrst med lurkum laminn, sídann qvikur fleginn og hálshøgginn. En þar lidu valla þrjátíu dagar frá, ad sjálfur Kóngurinn Astíagis og Prestarnir urdu af djøflum hardlega qvaldir, og til heljar færdir, féingu svo verdugt straff síns illvirkis.

Nicephórus skrifar ødruvísi um dauda þessa Postula, nefnilega: ad hann hafi Krossfestur verid í borginni Urbanopolí í Cilicía. Nieph. Lib. 2, Kap. 39.

## VII. S. THOMAS.

Þessi Postuli Herrans Krists var kalladur Tvíburi, Jóh. 10. 20. Hann var svo trúarveikur, ad hann kunni med aungvu móti ad trúa Upprisunni Herrans Kristi frá daudum, nema hann þreifadi á honum og legdi sína hønd í hans sídu og fíngurnar í naglaførin; og var svo í þann máta svo sem speigill og fyrirmindan allra þeirra sem aungvu vilja trúa nema því er þeir sjá fyrir augunum, þreifa á med høndunum og med hoidlegum skilníngi undirstadid géta. En

eptir það sjálfur Kristur jók, efldi og staðfesti hans trú, prédikaði hann Evangelíum þeim Partis, Medis, Persis sem og einninn Pýskum, Hircarum og Bactríanum, sem Héróymus skrifar. Að síðustu þegar hann vildi ecki tilbidja Sólarinnar skurðgoð, heldur bauð djøflinum að møløa það í sundur, var hann af skurðgoðsins Préstum líflátinn og með lensum í síðuna lagður, fór svo til þess, á hvørs síðu hann hafði áður þreifað og tekið, og hvíliſt í borginni Calamía í Indíen.

## VIII. S. MATTHEUS. Evangelista.

Sáncte Mattheus að viðurnefni Leví, var í fyrstu Tollheimtumaður en síðan var hann kjørinn og kallaður til Póstulégs embættis af sjálfum Herranum Kristó. Hann var sá fyrsti sem samanskrifað hefur Guðspjallegá histotíu, og það sama á Ebreskt túngumál. Hann upplýsti Pontum og Asíam með ljóma heilags Evangelii. Þaðann fór hann í Æthiopiam eður Blálaud, og gisti hjá géldíngi Drottníngarinnar Candaces, hvørn Philippus hafði skírt, og um er gétið í Postulanna-gjørníngum 8. Kapít. Þar kénndi hann Guðs orð í tuttugu ár. Kónginum Egyppó með hans Drottníng Ephemía og þeirra børnum sneri hann til Kristum, en eptir fráfall Kóngsins, af því hann mótféll Hirtacum sem Kóngsins dóttur vildi ekta, og ríkið hafði til sín hripsað, er sagt hann hafi líflátinn verið, Eusęb. Lib. 3. Cap. 24. 39.

## IX. S. JACOBUS Minor.

Þessi Jacóbus var Alphei son, auknefndur Justus, systur-sonur Maríu meyar, hvørs gétið verður Matth.

13. 27. Marc. 6. 15. Act. 15. Gal. 2. Eptir Uppstigníng Krísti til himna, var hann af Postulunum tilsettur Biskup í Jerúsalem. En sem Festus lands-dómari var dandur, tók Ananías kénnimadur sér hentugleika af stjórnarleysinu, kalladi saman rádid, og vildi þreingja Jacobó til ad neita því opinberlega, ad Krístur væri Guds són, hvad þá Jacobus vildi ecki gjøra, skipadi hann ad grýta hann, var honum svo fleigt nidur af Musteris-bustinni. Og sem hann var nú beinbrotinn og hálf-daudur, er sagt hann hafi fórnad höndunum til himins, og sagt: Drottinn Jesú fyrirgéf þeim, því þeir vita ei hvad þeir gjøra. Og jafnsnart var hann sleiginn í høfudid med þvotta-qvenna barefli, og sofnadi svo. **Hieronymus in Catalogo Scriptorum Ecclesiasticorum.**

## X. S. SIMON. Cananæus.

Símon Cananæus, ad vidurnefni Júdas, var sonur Cleóphæ (bródur Jósephs) og Maríu er kénnd var vid Cleóphaın, en bródir Jacobí Jústi (ad módurinni). Eptir adskilnad Postulanna prédikadi hann Evangelíum í Egyptalandi og Persía, en eptir andlát Jacobí bródur síns, seigja sumir, ad hann hafi ordid Biskup í Jerúsalem, í hvorju embætti hann hafi þénad meir enn fjørutíu ár. En allur aldur hans hafi verid vel 120 ár. Píslarvætti leid hann undir Trajanó Keisara, og var af Atticó, sem verid hafdi Borg-Meistari, margvíslega plágadur í marga daga, og sídast Krossfestur, var honum þad ad sök géfid, ad hann væri Krístinn, og kominn af Davíds kyni, Evséb. Lib. 3. Kap. 30.

## XI. S. JUDAS Thaddeus.

Júdas, Símon og Jacobus voru brædur. En eptir Himna-för Krists var Júdas Taddeus sendur til Abgarum Kóngs Edessenórum, hvørn hann læknadi af þúngri veiki er hann var afhaldinn, og uppfrædd hann kostgæfilega í sáluhjálplegri trú, sídan kénndi hann Guds ord í Mesópotamía og Ponto. Sendi-bref Abgarí Kóngs sem hann skrifadi Jesú Kristó til, bidjandi hann til sín ad koma, og sig ad lækna, sem og andsvar Kristí þar uppá má lesa í historja Ecclesiastica Evseb. Lib. 1. Kap. 15.

## XII. S. MATTHIAS.

Matthías einn af þeim sjotíu Lærisveinum Herrans Kristí, var sídan kjörinn til Postula í stadinn svikarans Júdæ Iscaríoths, hann var eptir sumra meiníng fæddur í Bethlehem á Gydínga-landi, og kénndi Evangelíum í Júdæa og Galílea, þá Gydíngar vildu þreyngja honum til ad afneita sannleikanum, hvørn hann stadfastlega játadi og medkéndi, út gaf Ananías Høfud-Prestur um hann þvílíka fordæmíngar álycktun: þinn munnur hefur talad í gégn sjálfum þér, þitt blód sé yfir þínu høfdi; sídan var hann útleiddur í þann stad Bethlaskila, þad útleggst hús þeirra í hel grýttu, hvar hann gjørdi sína innilega bæn til Guds, og var svo steinum grýttur, og sídan med exi høggvinn, eptir plagsid Rómverskra. Ste. Héróným us er þessu ecki samhljóda, heldur skrifar hann, ad Matthías hafi prédikad Evangelíum hjá bænda-fólki í lands-álfum Æthiopíæ, og hafi þar sofnad og jardadur verid.

## S. MARCUS Evangelista.

Marcús Guðspjallamaður var með píslarvætti kórónaður, Anno Kristí 64, á áttunda ári ríkis-stjórnar Nerónis. Móðir hans var María systir St. Péturs. Hún átti hús og heimili í Jerúsalem, sem jafnan var opið og til reiðu öllum Kristí Lærisveinum, þángað kóm St. Pétur, þegar hann á nætur-tíma frelsaðist af Eingli Guðs úr fángelsinu, og komst undan höndum Heródis, Act. 12. Hann skrifaði sitt Evangelíum eptir fyrirsögn og forlagi St. Péturs á dögum Tíberii, og prédikaði Guðs orð í Egyptalandi, Libya og allri Barbaría. Én sem hann í Alexándría frjálslega boðaði Kristum, lögðu skurðgoða-dýrkarar hendur á hann, bundu fætur hans með fjötrum, og drógu hann harðúðlega um borgina, létu hann síðan í myrkvastófu, og skömmu þar eptir tóku þeir hann þaðan aptur, og drógu hann sem fyrr, án allrar vægðar um stræti borgarinnar, þar til hann fól sinn anda í Guðs hönd, Nicephórus Lib. 2. Kap. 43. Evseb. Lib. 2. Kap. 16.

## S. LUCAS Evangelista.

Lúcas Guðspjallamaður var kominn úr Antiochía, sem er í Cælesyría, einn kostulegur læknari og málari, hann kóm til St. Páls í borg þeirri er Thebæ hét, hvör borg var sjó dýrud, þar sagði hann upp sínni forfeðra villu, gáf sig til Kristum, og varð svo af líkamlegum læknir, sálna-græðari. Sitt Evangelíum skrifaði hann eptir leiðarvísir St. Páls, sem og einninn Postulanna Gjörnínga-bók, hann

var í Róma-borg með St. Páli, og fór svo aptur þaðan í Grykkland, og leiddi þar marga menn á réttann sáluhjálpar-veg til sannrar trúar. En að síðustu var hann af nockrum Guðs orðs forackturum uppfestur af einni fríófgaðri olíuviðar-eyk, og fól svo Guði í hendur sína sál, þá hann var áttræður að aldri, Niceph. Lib. 2. Kap. 43.

NB. Doct. Martinus Chemnitius, sem samansekið hefur Harmoníam Evangelicam, skrifar eptir bókum þeirra gömlu sagna-Meistara, að fimm af Postulunum Herrans Krists hafi náttúrlegum dauða dáið, fyrir utan píslarvætti. 1) Jóhannis. 2) Philippus. 3) Thómas. 4) Júdas Jacobs bróðir. 5) Matthías. Og þrír af þeim hafi verið gvongaðir, og børn eptirlátið, nefnilega S. Pétur, Philippus og Júdas Jacobi. Vide Harm. Evang. Cap. 50.

## III.

# Um Foreydslu og Nidurbrot Borgarinnar Jerúsalem.

Eptir gamalli Bók sem á Íslendskt túngumál er útgeingin og prentud í Kaupmannahøfn af Hans Vingaard, Annó 1558, ad Forlagi (sem meinast) Herra Gísla Jónssonar, fordum Biskups Skálholts Stiptis (góđrar minníngar) því hún er í sama formi, á sama ári og í sama stad útgeingin, og Margarita Theologica, hvørja velnefndur Herra Gísli hefur útlagt.

---

Og er þessi Historía um Foreydslu Jerúsalem, nær ordrétt samhljóda þeirri er Herra Gudbrandur (sællrar minníngar) hefur prenta látid á Hólum, Annó 1617.

---

Øllum athugalausum og ydrunarlausum manneskjum (sem helst ofmargar finnast á þessum háskasømu sídustu tímum) til ydranar, uppvakníngar og skélfíngar, fyrir Guds réttferdugri hefndar-reidi.

En þá ed sá tími tók ad nálægjast, ad Gud himneskur vildi gánga láta yfir Jerúsalem og allt Gydínga fólk, sína eilíflega hefndar-reidi, eptir því

sem Spámennirnir og Herrann Kristur sjálfur hafði sagt þeim fyrir, og kunngjörði þeim slíka ógnan áður fyrir laungu; sje, þá hafa þessi eptirfylgjandi teiknin geingið undan áður framan til.

Á himninum sást, eitt heilt ár um kríng einn Cometa, jafngégnt Borginni, þann ed hvør maður mátti vel sjá, svo að líta sem eitt tvíeggjað sverð væri.

Item, skamt eitt fyrir þá sætu brauðs daga, á þeim áttunda deigi Aprílis mánaðar, nærri hinni níundu stund, um nóttina, hefur við þá altarið í Musterinu til Jerúsalem byrtst eitt þvílíkt, skjært, leyptranda, skínanda ljós, það hvør maður þeinkti að það væri bjartur dagur.

Item, ein stór mikil og sterk kopar-hurð inní Musterinu, þar ed tuttugu menn urðu á að taka, nær þeir vi du láta henni uppljúka, hvør ed bivørud var með sterkum lásum og stórum járn-goddum, hefur nærri hinni sjøttu stund um nóttina, af sjálfri sér til upplokist.

Item, þann 12ta dag Júníi, sáust í loptinu og skýunum í fjórum áttum á himninum, vagnar sveifa, og svo sem ein ofurmikil fylkíng, út af ríðandi hermønnum og stríðsfólki síga til samans í skýunum, og síðan slást með miklum gný og vopnabraki, ópi og kalli um nóttina.

Item, fyrir sjálfann Hvítasunnudag, þá ed Prestarnir hafa viljað tilreiða hið innra í Musterinu, það sem til hátíðardagsins heyrði, þá hafa þeir heyrt mikið skvaldur og ólæti, og þar eptirá eina raust, hvør ed svo hefur hrópað: látum oss fara í burt héðan. Þó að sumir seigi að þetta

hafi skéd á þeim tíma þá ed Kristur var píndur, í því ed tjaldid Musterisins í sundur rifnadi.

Item, þar hafdi og sá madur verid sem hét Jesús Anani, eins ótígins manns son, sá hinn sami; sem hann var nú kominn til Jerúsalem um tjaldbúdarhátídina, þá hefur hann út af einum séulegum næsta ákaflegum Anda, þanninn med háreysti æpt og kallad: ó! eitt kall úr austri, eitt kall úr vestri, eitt hrygdar-hljód úr fjórum áttum vindanna, eitt óp og kall yfir alla Jerúsalem, og yfir sjálft Musterid; eitt aumlegt óp bædi yfir brúdina og brúdgumann, eitt óp og eymdar-qveinan yfir allann lýd; og þetta sárgrætilegt eymdar-óp framdi hann einatt bædi daga og nætur, og hljóp svo sem annar sinnulaus madur um kríng í Borginni, og þótt ad nockrir, þeir ed ecki gjarnan heyrdu þessi ord svo sem eina vonda þýdíng yfir Borgina, refsudu honum fyrir þetta, og húdstrýktu hann med svipum og keyrum, þá lét hann þó ecki ad heldur af slíku. Og sem þeir høfdu nú þennann mann fyrir Landsdómarann, hvørn ed Rómverjar høfdu þar innsettann, sá hinn sami lét og einninn húdstrýkja hann, dusta og berja svoad blædt hefur. En med aungvu ordi þá hefur hann sér hvørki vægdar né líknar bedid. Og allt á medan þeir lømdu hann og bordu, þá grét hann hvørki né qveinadi, heldur kalladi hann í sífellu med hárri raust svo segjandi: vei, vei, ó vei sé þér, þú hin auma Jerúsalem. Og Albinus sá ed landsdómarinn var, hefur haldid hann fyrir einn skiptíng og sinnulausann mann. En þessi hinn sami madur hafdi sjø samfest ár, hvørt eptir annad, ei mikid sidblendi átt vid adra menn, heldur ráfadi og reikadi einsam-

ann, líka sem sá madur, sem eitt hvad sérlegt hefur í sinni, ellegar sá ed eitthvad nýtt vill uppdyckta. Og alla tíma hefur hann látid þessi ord af sér heyrast, vei, vei, vei sé þér, ó þú auma Jerúsalem. Og út af svoddan ópi og kalli vard hann ecki módur. Og þá ed borgin vard nú umkríngd af þeim Rómverjum, þá hefur hann med jafnadi ráfad um kríng, uppá múrveggjunum, og þanninn kallad, vei sé yfir borginni, vei sé yfir musterinu, vei yfir øllu Gydínga-fólki. Og ad sídustu, þá hefur hann einninn eitt sinn lagt þessi óvenjuleg ord þar til, vei sé einninn mér vesølum. Og í því hinu sama sinni sem hann taladi þessi ord, var hann óforvarandis hæfdur út af einu skeyti óvinanna. Þessi og ønnur stór bísn og furduleg undur, geingu ádur framan til, fyrr enn þad borgin Jerúsalem var nidurbrotin.

## Nú viljum vér út af sjálfri foreydslunni, og nidurbroti borgarinnar, seigja hid styttsta vér kunnum.

Þá ed Gydíngarnir høfdu nú (eptir því hinn heilagi Stephanus seigir) svo sem sannir svikarar og mordíngar, hinn réttláta og meinlausa Kristum Jesúm af lísi tekid, upp frá því er þeir svo gjørdu, þá hefur þad yfir allt Gydíngaland og Israelsríki, í allskyns sléttum einatt farid vestnandi. Biskuparnir sjálfir tóku til ad veita hinum ødrum Prestum allmikinn yfirgáng; og á millum þeirra hinna annara maktar manna, sem í Stadnum voru, var þar allskyns hatur og fjandskapur svo allir hlutir horfdust til sundurþyckju í Ríkisstjérninni. Og þad lét svo ásjást sem ad væri þar ein ógurleg umskipting

og foreydsla Ríkisins fyrir hondum. Utaf slíku sundurþycki og hatri valdsmannanna er þeir høfdu sín á millum, qveiktist upp flockadráttur og allskyns misgreiníngar, foreydslur og illþýdi. Einnin líka þá hófst þar upp allshàttud ógjæfa, bædi hid innra í borginni Jerúsalem, og svo líka utan Stadar, tókst upp mikid rán, manndráp og gripdeildir, og allir hlutir skickudu sér þar til, ad bædi sú hin andlega og veraldlega Ríkisstjórnan fólksins, ætti þá snarlega ad forgánga.

Hvar fyrir þad skédi svo einninn, ad Keisarinn Neró skickadi Cestum Florum inní Gydíngaland; og sem hann var nú mjøg bistur og næsta hardrádur, vid Gydínga í øllum hlutum fremjandi sinn mótþróa, óhlutvendni og ríkilæti, þar fyrir þá hafa Gydíngarnir svipt hann valdinu, og í burt jagad. Og sem hann bardist vid þá, misti hann vel fimm þúsundir manna, út af sínu lidi. Þanninn þá æddu nú og ólmudust Gydíngarnir fyrir Guds tilskickan, svó ad þeir settu sig einninn uppá móti Rómverjum og féllu frá þeim. En sem Keisarinn Neró fornam þad, skickadi hann Flavium Vespatianum med einum hans syni Tito inní Syriam.

Og þad var í þann tíma ordsleygt um alla Austurálfu (svo sem Tranqvillus hann skrifar) og eitt alménníngs ryckti, þad á þeim døgum mundi koma þeir nockrir útaf Júdea, sem næsta miklir og mjøg mektugir skyldu verda í øllum heimi. Og þó ad þetta sannadist nú á hinu andlega ríkinu Kristí, þann tíd ed nafn vors Herra Jesú Kristí (hvor ed fæddur er út af Gydínga kyni) vard nú fyrir prédikun heilags Evangelíí miklad og útbreidt

um allann heim, þá hafa þó sumir undirstadid þetta út af þeim tveimur, Vespatiano og hans syni Tito; en Gydíngarnir þýddu þetta Prognosticon, þad er tilteiknan uppá sig; og med því ad þeim luckadist vel nockrar orustur í móti sínum óvinum, urdu þeir vid þad dristugir og drambsamir, veljandi sér þrjá herskøfdíngja, þeir ed svo hétu, Nigrum Peraitam, Silam af Babýlónia, og Jóhannem Essium, og þeir herjudu med allri makt uppá þá borg sem nefndist Ascalon, svo ad þeir mistu þar í tveimur orustum tvo sína herskøfdíngja, og svo nær sem tuttugu þúsundir manna.

En eptir allt þetta, þá dró Vespatíanus út af Keisarans tilskickan inn í Galíleam, sem var eitt land fullt fólks, þad sama foreyddi hann og útarmadi, og þar vard nálega eingin endíng á manndrápum, ráni, gripdeildum og elds-brennum. Eitt sinn þá urdu þar í helslegnir ótal þúsundir Gydínga, fimm þúsundir úngra karla, ad auki konur og børn, og annad alþídufólk, hvad óteljanlegt var, svo ad stríds-fólkid hefur hvørki vægt þar úngum manni né gømlum, og ecki einninn þeim konum sem ólettar voru, og eigi heldur úng-børnum í vøggunni. Sex þúsundir úngra karla hefur Vespatíanus eitt sinn skickad í Achaía til Isthímó, svo sem fyrir adra vinnumenn, ad grafa þar upp vatns-grafir og dýki. Þrjátýgir þúsundir úngir stríds-menn af Gydíngum voru í þann tíma eitt sinn seldir fyrir eiginlega þræla, fimm þúsundir hlupu sjálfir út af ørvílnan ofan fyrir bjørg og drápu sig svo.

Í þann sama tíma var þar einn frábær madur, sem bædi var forsjáll, vitur, og vellærdur, med-

al Gydínganna kénnimanns stéttar, einn út af þeirra hers-høfdíngum, sá hinn sami hét Jósephus, og sem hann flýdi nú í þeirri hinni fyrstu atrídinni med fáeina Gydínga, burt í eitt dals mynni hjá þeirr borg í Galílea sem nefndist Jtapata; og þar vard hann høndum tekinn og hafdur burt til Vespatianum. Og sem hann sagdi því fyrir Vespatiano þad hann mundi verda Keisari þá vard hann vel tekinn af honum í kostulegu haldi. Og þessi hinn sami Jósephus hefur skrifad hvad vér vitum út af þessari Historíu.

En á medan þetta skédi nú í Galílea, þá tók sig til samans einn íllþýdis flockur margra ránsmanna, og kom sídan til Jerúsalem, en því hinu sama þá hefur einn af þeim stór-høfdíngum til vegar komid, sá ed Johannis hét, ad hann svo undir sig legdi fyrir þennann íllþýdis flock alla ríkis-stjórnina. Optsinnis skédu þar til Jerúsalem mørg heimugleg manndráp, rán og gripdeildir miklar, og allir hlutir skickudu sér þar til mikillrar ólucku, svo ad sú hin auma og vesæla borg hefur á alla vegu næsta mjøg plágud og þvíngud verid.

Á þeim tíma voru og nockrir Kénnimanna-høfdíngjar í helsleginir, og í sjálfu Musterinu vard optsinnis blódi úthellt. Jósephus hann skrifar, þad út af þeim hinum edalbornustu og ædstum Gydíngum, þá hafi í þessum ófridar stormi tólf þúsundir í hel verid slegnar, og þad þeirra góts, háfur, gardar, og ódøl væri stríds-mønnunum til bítis géfin.

Sumir meina þad hinir Rómversku hafi þessu med sinni slægvitsku og klókindum til vegar komid.

Þannin var nú Jerúsalem í þann tíma plág-ud, þá ed réttileg hefnd kom yfir hana, sem var med þrefaldri ólucku: fyrst med þeim ófridar-stormi af þeim Rómverjum, þar næst med upphlaupum, og alskyns grimdar-ædi innan borgar, og svo med þá víkínga og illmenni, hvörjir ad fyrir slægvitsku mis-gjörnínganna, settu sig upp hvør eptir ødrum og út-heltu svo herradæmisins vegna, margra manna blódi.

En í þann tíma þá ed þeir Gadarení tóku sig upp í móti Rómverjum, hlaut Vespatíanus ad hrada mjøg sinni ferd, burt úr vetrar-laginu, og med strídi ad vinna borgina Gadara, og fyrir Placid-um sinn hers-høfdíngja sló hann til dauds í flótt-anum, nær þrjátýgir þúsundir borgar-manna, tvær þúsundir tók hann til fánga, en hitt annad alþýdu fólkid, og fléstur allur fjøldinn flótta-mannanna steyptu sér sjálfir útí ána Jórdan, og þeirra daud-ir líkamir flutu ofan eptir ánni Jórdan, allt útí sjóinn Asphaltiten, hvørn ed vér køllum hid dauda sjáfar-hafid, og svo líka hinumeigin Jórdanar, allt til Macheren, voru Gydíngarnir alla vega af Róm-verjum þvíngadir, og næsta mjg skélfdir og yfirbug-adir.

En sem veturinn tók ad lída, og vorid var kom-id, þá heyrdi Vespatíanus þann kvitt í sínum her-búdum til Cæsarea, þad Neró væri daudur. Því flýtti hann mjøg sinni ferd. Og alla stadi bædi Gydínganna, og þeirra í Idumea, hafdi hann þá undir sig lagt, ad undanteknum fáum einum her-køstulum, hvørja ad nockrir framandi stríds-menn høfdu ad halda. Og allstadar þá setti hann inn í þessar borgir og kastala Rómverskt strídsa-

fólk, svo ad hann feingi þess andveldar borgina Jerúsalem yfirunnid, hvør ed þá var enn ei yfirunnin. Og í þad sama sinni vard Vespatíanus út af sínu sjálfs stríds-fólki til Keisara tekinn. En sídan eptir þad, þá dró hann inn í Egyptaland, og þadan vildi hann svo komast í Valland, bífalandi Tító á medan yfirsjón hernadarins vid Gydíngana. En sem Títus hafdi fyrir forvítnis sakir ridid hart nærri Jerúsalem, til ad forheyra hvørt þeir vildu beidast fridar, eda ei, þá lá honum sérlega vid ad komast ecki undan, þad hann yrdi ecki handtekinn af Gydíngunum. En eptir þad sama þá setti hann sínar herbúdir nærri þeim stad, sem kalladist Schopos, skamt eitt burt frá borginni, svo sem ad vera mundi ein stutt bæarleid, og í sundurskipti þar sínu stríds-fólki í margar fylkingar, til ad umsitja borgina meir enn í einum stad.

Jafnframt þessu þá var ossa margt fólk út af øllum stødum, og úr øllum áttum til samans komid midt í Jerúsalem, um Páska-Hátídina. Svo líka var þar og einnin í stadnum (eptir því sem ádur er sagt) marghattad illþýdis-fólk til samans komid, hvørt ed útdrifid var af Galílea, og voru svo í þremur hópum þar í stadnum, hvørjir ed samþyckid og Ríkis-stjórnina (eptir því sem þad vandi er til hvar svo er háttad) einatt meir og meir í sundurslitu og forhindrudu. Einn part út af þessu illþýdi hafdi Musterid inni ad halda, en þeirra flocks foríngi var Eleazarus sonur Símonis, med honum héldu þeir sem Zelóti kølludust, hvørjir ad voru vondir og illskufullir hræsnis-menn, þeir ed borgarmønnunum voru mjøg óhægir í vidskiptum.

Hinn nedra partinn borgarinnar hafdi Jóhannes inni ad halda, sá sem ad var einn uppháfs-madur allrar ólucku, út af hvørjum þad hér ádur fyrri sagt er; en þann hinn efsta partinn hafdi Símon med tuttugu þúsundir Idumeos inni ad halda, hvørjir ed þángad voru til þess kalladir, ad bívara borgar-lýdinn, fyrir offsa og yfirgángi þeirra Zelóti. En vid þá sømu gésti vildu þeir gjarnan hafa skildir verid, þó feingu þeir ecki vid þá qvittir ordid.

En sem Títus formerkti nú, þad borgin Jerúsalem var svo ofurhladin út af miklum mannfjølda, ruddist hann um fast, skipandi sínu herlidi til ad bíleggja borgina, og eitt hervirki kríngum hana ad setja, (eptir því sem þad Kristur sjálfur hafdi ádur fyrirsagt) á medan fólkid var þar svo margt til samans komid, uppá þad ad húngrid og sulturinn þvíngadi þad og qveldi þess hardara. Þá ed Gydíngarnir sáu nú þad, létu þeir í frammi allt hvad þeir formáttu, og leitudu vid ad forhindra og verja, og fyrirkoma slíkum hans ásetníngi. En þad var útgjørt um þeirra efni, svo ad þeir voru med øllu luckulausir; því ad Gud Drottinn vor vildi nú mýa þeim og nidrun veita, þar fyrir þá luckadist þeim eingin sín rádagjørd, né neinn þeirra ásetníngur, svo þar var ecki innbyrdis hjá þeim, utan ósamþycki og misgreiníngur. Og í þann sama tíma gjørdist mikid upphlaup innan stadar, svo þar vard einn ofurmikill mannfjøldi í hel sleiginn hjá Musterinu.

En med því ad borgin Jerúsalem var nú sterklega byggd, og mjøg vel umvøndud, helst þó þar, hvar þeir máttu ad borginni komast, því þar hafdi

hún þrjá múrveggi í kríngum sig. En það hið Rómverska stríðs-fólkið lagðist þar að, út af öllu kappi og megni, til að storma og stríða uppá borgina. Og eptir marga erfiðismuni framda, þá varð sá hinn tvøfaldi múrveggurinn niðurbrotinn og yfirunninn; líka þá hefur og einninn í þann tíma einn ótølulegur fólks fjøldi dáið niður út af húngri og sulti, eptir því sem Jósephus skrifar, svo það fyrir eins lítils munnbita sakir, hafa optsinnis hinir bestu vinir sleigist og stángist sín á milli. Opt og møргu sinnum þá hafa børnin af sínum foreldrum, bæði føður og móður, rifið og slitið matinn burt frá þeirra munni. Þá hefur og hvørki systir né bróðir, linkind veitt, eða í brjósti kennt hvørt um annað.

Einn mælir korns gyldti þar mørg gyllini. Sumir tóku myki og nauta-tað og átu fyrir húngurs sakir. Þeir voru og sumir, sem nøguðu ólar og þveingi, af skjøldum og søðlum, og annað skó-leður, og átu það.

Nockrir menn høfðu og hey sér í munni, og fundust svo dauðir. Sumir høfðu og farið í leinileg Ráðhús eða Privet, og leitað við að sløckva sitt húngur út af óþecktar-saurindum, og mannaþreck, og svoddann einn ótølulegur fólksfjøldi, hefur þar útaf húngri dáið, það Aninus Eleazarison flýði í þann sama tíma til Títum burt í hans herbúðir, og kunnugt gjørði honum, það hundrað þúsundir og fimmtán þúsundir dauðra manna líkamir hefði fundnir og greftraðir verið innan-staðar. Egesippus hann skrifar svo: það alleina út um eitt borgarhlið hafi bornar verið margar þúsundir dauðra

manna líkamir, og þad, ad svo nær sem sex hundrud þúsundir manna hafi í þessum sama ófridarstormi af húngri dáid.

Gydíngarnir høfdu enn nú kastalann Antoniam inni ad halda. Sá sami kastali var eitt cruggt hervirki; þeir hefdu þá og einnin Musterid inni ad halda. En burt úr því þá géck ein bryggja edur steinbogi, allt inní Borgina. Þessi slotin og hervirkin voru miklu torsóktari ad vinna, heldur enn oll ønnur vígi og hervirki Gydínganna. Því þó ad Títus hann væri í fullri vissu um þad, ad húngrid mundi eyda og afmá Gydíngana í borginni, þá þótti honum sem þad mundi allt for'eingi undandragast, og þar fyrir hvatti hann upp lidid, og eggjadi þad á, ad strída og storma sem hardlegast uppá kastalann. Og þó þad sama væri eigi allítil mann-hætta, þá vannst þó alla tíma þeim Rómverjum betur, svo þeir báru sigur í hvørri orustu, af því ad einginn sigursæld né nockurt lucku-lán var nú meir hjá Gydíngum. En þá ed hinir Rómversku høfdu nú kastalann yfirunnid og undirlagt, hafdi lúdurþeytarinn gefid þar eitt merki til þess med herlúdursblæstrinum, ad allir þeir Gydíngar sem kastalann høfdu haldid, skyldu í hel sleignir verda. Sumum køstudu þeir ofan fyrir múrinn, sumir stucku þar sjálfir ofan fyrir og drápu sig svo. Sumir komust á hardri rás undan um nóttina inn í borgina. Eptir þad, þá tók sig til samans þad stríds-fólkid, sem Musterid hafdi inni ad halda, og vardi sig svo þadann all dreingilega. Menn seigja og einninn þad Títus hafi þess sinnis verid, ad hann hafi viljad vægja Musterinu sjálfu (svo sem annari Religion.)

En þad var þá um þeirra efni med øllu útgjørt, Gud hann skickadi þad svo til, ad þar vard eingin líkn fundin leingur, né nein vægd þeim til handa. Og þá ed þeir høfdu nú harda adsókn veitt, og um lánga hríd barist med miklum erfidismunum, og þad Gydíngarnir urdu hvørki med hørdum heitíngum, né neinum ødrum áminníngum fortaldir, í því ad gefa upp svoddan øruggt hervirki, þá formérktu og einninn stríds-mennirnir þad Musterid mætti ecki yfirvinnast med odru móti, utan þeir væri sveltir þar út, (hvad hinir þeinktu ad oflángt frest mundi á verda) ellegar þad væri med eldi afbrendt. Og þar fyrir þá løgdu sumir stríds-mennirnir eld í Musterid, svo þad tók þá þegar til í einu báli ad brenna. Og med svoddan atferli þá vard í greindum tíma þessi hinn sama, svo ágjætlig, frábær og forkostuleg bygging, sem svo vídfræg og nafnkunnug var á þeim tímum, ad ostu uppbrennd nidur í grunn til kaldra kola. Þeir Gydíngarnir sem høfdu í Musterinu hid øruggasta vígi inni ad halda, nockrir út af þeim flýdu inn í borgina, en miklu fleiri voru þeir sem tortíndust í elds-brunanum. Prestarnir þeir beiddu og bádu, næsta audmjúklega sér lífs og grida, en þad fékst ecki med neinu móti, því þeim var þá øll nád afsøgd hjá Gudi og mønnum. Titus hafdi gefid (svo sem Egesippus skrifar) þad andsvar, fyrst ad Musterid og embættis þjónustan væri nú útgjørd, þá þyrftu menn og ecki leingur slíkra Prestanna vid.

En þessi hin sama foreydsla og nidurbrot Musterisins hefur skéd á hinum tíunda deigi Augustí mánadar, eins líka og þad hid fyrra Musterid sem á þeim sama deigi var forbrendt af Nabógodonosor Babylon-

ar Kóngi. Og sá sami dagur hefur Musterinu sérdeilis verid einn ógjæfusamlegur dagur. En í frá því hinu fyrra Musterinu, og þess uppbyggíngu, hvört ed Salómon lét uppbyggja, og til þess annars ársins ed Vespatíanus hann ríkti, þá ed þetta Musterid var vid velli nidurbrotid, voru þúsund átta og áttatígir ár. En í frá þeim tíma et þeir høfdu tiltekid ad uppbyggja aptur þetta hid annad Musterid, sem var á ønru ári Cyri, þad voru fimm hundrud átján ár og sjøtígi.

Þá Gydíngarnir urdu nú svo hræddir, þjádir og þvíngadir, þó þar væri eingin von ad þeim yrdi bjargad, svo ad mørg þúsund déu af þeim í húngri og sulti, þá heldu þó hinir adrir samt sínu fram. Jósephus skrifar, ad í þann tíma sem Musterid vard uppbrennt, nidurbrotid og eydilagt, ad þá hafi eitt svoddan ógnarlegt, hryggilegt og hersilegt málefni tilborid, þad valla mundi hjá þeim sem seinna kjæmi trúanlegt þykja, svo sem þetta: ad þar var ein heidursamleg qvinna, mjøg audug, og út af forkostulegu slekti, hvør ed búid hafdi hinumeigin Jórdanar, og flúid hafdi med ødru fólki til Jerúsalem fyrir hrædslu sakir, en þá ed borgarlýdurinn vard nú svo hrædilega þjádur, og aumlega þvíngadur í vesaldar húngri, hefur hún tekid sitt eigid barn úr vøggunni og drepid þad, med hvørri neyd og ángurtrega, er vel eptirhyggjandi, ad hún hafi þad gjørt, steikti sídan helftina af því í eldi og neytti sjálf, en adra helftina setti hún fram fyrir strídsmennina þá ed þeir ráfudu um kríng í borginni, leitandi sér ad vistum; en svoddan atburdur ógnadi mjøg strídsmønnunum, svo þeir vørkenntu þessari aumri konu, og álitu hennar ánaud.

Þetta hid sama kunngjørdu þeir og einninn yfirvalds-høfdíngjunum til Jerúsalem, svo ad þessi hryggi-legur tilburdur, hefur knúid þá til ad géfa sig upp á vald Títi og hans manna, ad þad mætti svo kom-ast til dag-þíngunar med þeim; en med því ad þessn hafdi ofleingi frestad verid, ad fridurinn, sátt og samþycki væri gjørd, og þad þeir beiddu sér þá hid fyrsta fridar og frelsis, sem þeir vóru med øllu út-húngradir, og í vesøld komnir, þar fyrir þá vard ecki neinnri dag-þíngan ákomid, og þó samt héldu þeir stadinn um nockra daga, med mikillri eymdar ánaud, en þess á milli þá flúdi ótølulegur fólks fjøldi, fyrir húngurs og ánaudar sakir úr borginni, burt í óvina hendur til herbúdanna, þá voru þeir og seldir med litlu verdi, en í þeim svifunum urdu strídsmenn-irnir óforvarandis þess áslynja, þad einn af Gyd-íngunum hefur tínt upp gull úr sjálfs síns eigin-legum saur, hvørt ed hann skyldi hafa ádur gleypt og nidur rent, svo ad þad væri ecki frá honum tekid, en jafusnart þá barst þetta út um allar herbúdirnar, á medal stríds-mannanna, þad þeir Gydíngarnir sem flúid høfdu úr borginni, skyldu hafa gleypt gullid í sig, (því ad þeir voru nockrir sem þad høfdu gjørt til einkis annars, enn fyrir smásmuglegs ransaks sak-ir, ad þeir feingi svo gullinu undankomid, og fyrir stríds-fólkinu bíhaldid) en þetta hid sama ryktid gaf efni til þess, þad nockrir út af strídsmønnunum þeinktu ad þeir mundu finna nóglegt gull hjá øllum Gydíngunum, og þar fyrir urdu meir enn tvær þús-undir Gydínga qvikir uppskornir á einnri nótt, og miklu fleiri hefdu þeir drepnir verid, ef ad Títus hefdi ei látid fyrirbjóda, þad ei skyldu fángarnir fleiri

drepnir verda. Á þeim sama tíma var og sjálf borgin Jerúsalem uppgéfin, og eingin vægd var þar veitt hvørki úngum manni né gömlum, en þó géck þad bod út, ad vægja skyldi öllum fárádum og verndarlausum þeim ed aungva vørn edur mótstødu formáttu ad veita. Med svoddan hætti vard nú öll Jerúsalem þanninn hæfilega rænt, ruplud og med eldi uppbrennd, og hennar hinn mesti partur svó foreyddur og nidurbrotinn, utan þad fáein hús stódu þar eptir, þó ecki fleiri enn svo sem Rómverska strídsfólkid mátti inní vera, svo líka voru þar og nockur eydi-hús, byggíngar og múrveggir eptir látnir, ecki utan til sýnis, ad þar hefdi fordum daga ein mektug borg verid. Og med þessu móti var nú Jerúsalem foreydd, og ad velli nidurbrotin, þann áttunda dag Septembris mánadar, í hinum fimmta mánudi eptir þad ed hún vard fyrst umkríngd ad Rómversku strídsfólki. Ut af þeim mikla ótølulega mann-fjølda, sem Títus lét fánga, sendi hann seytján þúsundir burt í Alexandríam, alltsaman únga og kaska kallmenn, seljandi þá þar í eilífann þrældóm, til ad bera grjót og steina, og til alls annars þúnga erfidis; margt úngfólk seldi hann sem annann bú-fénad, fyrir mjøg litla verdaura. Tveimur þúsúndum skiptu þeir út um allt Rómaríki, hér og hvar í ýmsar landsálfur, svo ad þeir voru hafdir til adhláturs og skémtunar, nær ed hóf og mannamót voru haldin og þeir létu ólma hunda, og ønnur villudýr þá suma til heljar rífa. En þeir Gydíngarnir, sem lífinu héldu, voru alls ad tølu níutígir þúsundir og sjø þúsundir, sem þar hafdi þó med fyrsta í stadnum verid þá

ed borgin var fyrst bíløgd og umkríngd, ſtíuſinn-
um hnndrad þúſundir manna, hinn meſti partur af
þeſsum fólks fjølda voru utan ſtadar menn, en
ecki innbyggjárar í borginni, þó ad þeir væri fleſt-
ir allir út af Gydínga kyni. En ſem Títus hafdi
nú þanninn med ſtrídi og ófridar-ſtormi Jerúſalem
yfirunnid, hana forbrendt og í eydilagt, þá ſetti hann
þar nidur í þeirri ſømu lands-álfu nockra ſtríds-
menn til landvarnar, meſt fyrir ſakir þeirra lands-
manna er þar bjuggu í nánd, og ſvo ſídan dró
hann í burt þadan allt inn til hins mikla vatnsins
Evphraten, því ſvo lángt útí heiminn tók þá í þann
tíma hid Rómverſka ríkid. En þá ſú maktar mikla,
nafnfræga og heilaga borg Jerúſalem, var nú þann-
inn foreydd og nidurbrotin, ſje, þá reiknadiſt frá
upphafi veraldarinnar, fjøgur þúſund eitt ár og
tuttugu; en í frá því er Rómaborg var uppbygd,
níu hundrud og fimm ár, á því hinu fertugaſta
ári, eptir þad Kriſtur var píndur af Gydíngunum.
Þanninn hefur nú Jerúſalem ſú hin nafnfrægaſta
borg í allri Auſturálfu, háft einn herfilegann og ſár-
grætilegann enda.

Med þeſsum hætti hefur Gud hefnt og ſtraff-
ad forſmán og ofſókn Evangelii, og ſvoddan eitt
hryggilegt eptirdæmi, øllum heiminum fyrir ſjónir
ſett, til einnrar vidvørunar, ad menn ſkyldu þeſs
heldur óttaſt Guds reidi, og hans hardann hefnd-
ar-dóm, og ſnúaſt til Guds og vors Herra Jeſú
Kriſti ſannrar kynníngar, þvíad fyrſt Gud Drottinn
hefur ecki vægt þeſsu fólki, hvørju hann hafdi þó
ádur ſvo mørg ágjætleg fyrirheit útgéfid, hvar ed
einninn ſvo margir frábærir heilagir Patriarchar,

og Próphetar voru með í bland; já! hvørt fólkið sjálfum Kristó tilheyrði blóðsins vegna. Hvørsu ógurlega mun hann þá hefna, og refsa ødru fólki, hvørju það Guðs Evangelíum er út af sérlegri náð að hlutskipti orðið, og eru samt óþakklátir, forsmáandi svo þá sanna Guðs þjónustu og rétta kynning af Kristó Jesú, og það sama með mikilli harðúð og ofurlegri offókn fyrirlítandi, svo að áður finnast valla dæmi til slíks, þar fyrir þá er það með øllu eflaust, að hefndin mun ecki leingi fjarlæg blífa, og það mun um þeirra efni svo fara, sem það hefur í Jerúsalem til geingið, en þetta hið sama skulum vér nú af allri athygli hugleiða og vel tractera, í vorum hjørtum, svo að vér forbetrum vorn lifnað, og snúum oss til sannrar Jesú Kristí kynningar, Amen.





# Ennfremur til upplýsíngar,

## I. Lítil Fráſøgn, um Abgarum Kóng, hvørs ádur hefur nockud gétid verid í þeſsari Bók, pag. 283.

*Abgarus* Kóngur ſtjórnadi loflega nockru fólki ſem bjó hinumeigin ſljótſins Evphratis, og ſát í þeirri borg, er Edeſsa nefndiſt; hann var þjádur af þúngum líkams veikleika, ſem ei kunni ad læknaſt af nockrum mannlegum mætti. Þegar hann ſpurdi med ſanníndum ryctid af Jeſú, og hans dáſemdar verkum, (hvørjum allir hróſudu) ſkrifadi hann honum til og bad ad lækna ſig af ſínum veikleika. Þetta Sendibréf úr Syríaniſku túngumáli útlagt, hljódar ſvo ſem á eptir fylgir:

### Abgarus Landſtjórnari Edessenorum, heilſar Jeſú þeim góda Grædara, ſem byrtſt hefur í Jórſala landi.

Þad hefur fyrir mig berid, ad þú og þínir kunnid heilſu ad géfa daudlegum mønnum, fyrir utan medal, graſa edur annara læknisdóma, því ſagt er þú gjørir blinda ſjáandi, hallta gángandi, ſpitelſka hreina, og ad þú útrekir óhreina anda, og læknir þá ſem af lángvaranlegum ſóttum hafa þjádir verid, líka einninn uppvekir dauda. Og ſem eg allt þetta um þig heyrdi, gjørdá eg mér í hugar-lund, ad annadhvørt mundir þú vera Gud af himnum kominn, edur Guds Sonur. Hvørs vegna eg bid

þig með þessu mínu bréfi, að þú viljir taka uppá þig það ómak, að koma híngað til mín, og lækna mig af minni veiki, því það hef eg og einninn heyrt, að Gyðíngar mögludu á móti þér, og leitudust við þér mein að gjöra. Eg á hér að sönnu litla Borg enn þó ærlega, hvör ockur kann báðum að nægja.

---

Andsvar Kristí sem hann skrifaði og sendi aptur til Abgarum Kóngs, með sama bréfberara Ananía.

Sæll ertu, Abgare! að þú trúðir á mig, þar þú hefur þó ei sjeð mig, því svo er um mig skrifað, að margir þeir sem sjá mig, munu ecki trúa, svo að þeir sem ecki sjá, trúi og lifi.

En það sem viðvíkur því sem þú mér tilskrifaðir, að koma til þín, þá skaltu vita að mér byrjar fyrst að fullkomna hér í þessum stað allt það sem fyrir mig hefur lagt verið, og eg var tilsendur, og sem eg hefi það fullgjört, þá strax að víkja aptur til þess sem mig sendi. En þegar eg er uppnuminn, þá skal eg senda einhvörn af mínum Lærisveinum sem lækni þinn sjúkdóm, og sýni þér og þeim sem með þér eru, þá réttu lífsins leið.

Eptir uppstigníngunna Kristi til himna, var Júdas Thaddæus sendur til Abgarum Kóngs, að lækna hann, og prédika honum og hans Evangelíum út af Kristó, sem áður er umgétið. Voru þessi sendi-bréf leingi geymd í bréfa hyrðslum þess Konúnglega staðar Edessæ, hvar um lesa má Evsebíum i fyrstu bókar 15. Cap.

---

## II. Um þrennslags Dóms úrskurd sem géck yfir Herranum Kristó ádur hann var Krossfestur.

Ur *Theatro Christiani Adricomi.*

Sá fyrsti frammfór í høll Caiphæ ædsta Kénnimanns, hvar allir Kénnimanna-Høfdíngjar, Skriftlærdir og Ødlúngar voru saman komnir, því, þá þeir gátu eckért áunnid med sínum fals-vottum, þá tók Biskupinn þad til ráds ad spyrja Jesúm ad, og særa hann vid Gud, til ad seigja hvørt hann væri Kristur Sonur Guds, hvad þá hann medkénndi og játadi, reif Kénnimanna-høfdínginn sín klædi, og qvad hann Gudlastad hafa, óskadi álits af Rádinu og Ødlúngunum (sem sagt er þar hafi þá verid sextíu og sex ad tølu) en þeir gáfu strax svofelda álycktun, **Hann er Daudans sekur.** Og strax þar eptir var hann af þénurunum spýttur í sitt heilaga andlit, og ad byrgdri ásjónu med høndum og knefum slèginn og med mørgum ødrum hádúngum svívirdtur, svo einginn kann nóglega ad íhuga hvad og hvílíkt Herrann Kristur hefur ordid ad lída þá nótt. Ad morgni færdu þeir hann bundinn fyrir Lands-dómarann Pontíum Pílatum, ad hann léti líflata hann.

Sú ønnur álycktan skédi í høllu Pílatí sem var eitt praktugt hús, med tuttugu og átta Marmara trøppum upp ad gánga, (sem sagt er) því þegar hann var þar áklagadur fyrir Pílató af Kénnimønnunum og Ødlúngunum, svo sem upphlaups madur sá ed

fráſnéri fólkinu, bannadi ad géfa Keiſaranum ſkatt, og ſegdi ſig vera kónginn Kriſtum, þá viſsi Pílatus ad ſonnu, ad ſlíkt var ósatt og lýgi, og ad Gydíngar hofdu af hatri og øfund ofurſelt hann, en þeinkti þeim þó nockra fullnægju ad gjøra, og koma Kriſtó þar med undan, hvørs vegna hann álýktadi, ad hann ſkyldi húdſtrýktur verda. Þeſsi álýktun var ſvo látandi ſem gamlir annálar greina:

Jeſúm af Nazareth, einn upphlaups mann og foraktara Móýſis Løgmáls, af Kénnimønnunum og Høfdíngjum ſíns fólks áklagadann, ſkulu þér afklæda, binda og húdſtrýkja. Þú bødull haf til reidu vendina.

Sídan var Herrann Kriſtur af Strídsmønnum Pílati leiddur í forſtofu þíng-húſsins, og fyrir ollu fólkinu afklæddur, vid einn ſtólpa reirdur, og vægdarlauſt ſleiginn og lemſtradur á øllum ſínum líkama þar eptir til hádúngar í Purpura-kápu færdur, þyrnikrýndur, hræktur, ſpottadur, ſleiginn og bardur ſvo ſem hiſtorían umgétur.

Þridji úrſkurdur yfir Herranum Kriſtó ſkédi á Dómſtólnum ſem var eitt hátt pláts, utan fyrir húſi Pílatí, þar þeir Rómverſku Lands-dómarar voru vanir ad útgéfa ſínar álýktanir og dóma, þad pláts var á Gríſku kallad Lithostrotos, edur þad Steinlagda, en á Ebreſku Gabbatha, þad er Hái-fløtur.

Þegar nú Pílatus þar ſat á Dómſtólnum, og ſá ſér eckért færi Kriſtó undan ad koma; heldur heyrdi ſér hótada Keiſarans reidi og óqunſt, þá dæmdi

hann Kristum til dauda, þvert á móti samvitsku sinni, med þvílíku dóms atqvædi sem finnst í gømlum annálum.

Jesúm af Nazareth fráfníandi fólkinu, forsmáandi Keisarann, Fals-Messíam, svo sem það er uppá hann bevísad af føríngjum hans fólks, skulu þér leida til almennilegs aftøku-stadar, og Krossfesta hann midt á milli tveggja ræníngja, hans Konúngs tign til hádúngar, far þú bødull og bú til krossana.

Eptir þennann dóms úrskurd færdu Strídsmennirnir Herrann Kristum í sín eigin klædi, svo hann skyldi því heldur þeckjast af fólkinu, þar hann var næsta óþeckjanlegur ordinn af þeirra vondri verkun og vidhøndlan.

# Krossgángan sjálf,

Svo sem skrifa þeir gømlu Lærifedur, og þeir adrir, sem vandlega hafa eptirleitad og rannsakad þá atburdi, sem skédu eptir þad Herrann Kristur var dæmdur til dauda.

Nú sem Jesús hafdi útstadid þvílíkar qvalir og hádúngar af stríds-mønnunum, sem sagt er, leiddu þeir hann út. En þá hann hafdi geingid frá þínghúsinu 65 fet, þá løgdu stríds-mennirnir Krossins tré uppá hans blódugar, sárar herdar og axlir, ad hann bæri þad svo sjálfur, øllum lýd ásjáandi, til aftøku-stadarins. Krossins tré var ad leingd 15 fóta, en ád breidd 8 fóta. Og seigja þá fornar bækur, ad hann hafi geingid undir Krossinum 200 fet, og þar hafi hann í fyrsta sinni fallid til jardar undir Krossins þúnga.

Þadan hefur hann þá geingid áleidis 153 fet, þar hefur honum mætt hans blessada módir, med Jóhanni, og þeim ødrum gudhræddum qvinnum, hverjar ad sídan hafa geingid á eptir, og fylgt hans blódugum fótsporum.

Þá hefur hann enn geingid 179 fet, þar mætti honum Símon af Cýrene, hvørjum þeir naudgudu

til, ad bera Krossinn med honum, þvíad þeir óttuduſt ad hann mundi undir Krossinum ſlockna, fyrr enn þad þeir gjæti hann Krossfeſt.

Símon bar þá Krossinn med Herranum Jesú 470 fet, allt þar til ad sú qvinnan mætti honum, sem hét Veronica, af hvørri ſkrifad er, ad Jesús hafi géfid henni sína andlits-mynd, útþryckta á lín-klædi, eda lín-dúk.

Þar eptir þá hefur enn Jesús geingid 842 fet, allt ad því borgar-hlidi ſtadarins, sem kalladiſt Porta Antiqva, og þar ſeigir ad Herrann Jesús hafi fallid undir Krossinum í annad ſinn til jardar.

Upp þadann var utan ſtadar ad gánga óſléttann veg, og nockud brattann, sem lá ad þeirri hæd Golgatha, sem var almennilegur aftøku-ſtadur allra illrædis-manna. Á þessum veigi, vid nockurt vegamót, hafa honum mætt qvinnurnar sem hørmudu og grétu yfir honum, og hafdi Herrann Jesús þá geingid frá borgar-hlidinu 872 fet.

Þadan hefur Jesús geingid enn þá 404 fet, allt undir hæd þá sem kallaſt Mons Calvariæ. Og þá Jesús var þar kominn, þá féll hann undir Krossinum í þridja ſinni til jardar.

Þadan hefur hann þá enn geingid 45 fet, uppá móti bréckunni, til þess ſtadar sem þeir affklæddu hann, og rifu upp þar med øll hans ſár, undir og benjar, og létu hann þar nakinn ſitja, í kulda og vindi, og gáfu honum ad drecka edik med galli blandad. Þar hefur Jesús ſetid á medan þeir bjuggu til, þad sem þurfti til Krossfeſtíngarinnar.

Þadan géck þá Jesús enn 30 fet, til þess ſtadad sem þeir negldu hann á Krossinn, liggjanda, ad

útþøndum høndum, og teigdum fótum, og ad hans lidum og limum teigdum og togudum, svo ad telja hefur mátt hvørt hans bein, svo sem heilagur Andi hafdi ádur mælt fyrir munn Davíds.

Þá þeir høfdu nú neglt hann á Krossinn, þá báru þeir hann med Krossinum enn 32 fet, ad einni bjarg-skoru, í hvørri ad þeir festu Krossinn, og Jesúm þar á hángandi.

Þad seigja og fornar frædi-bækur: ad þeir hafi látid Jesúm snúa bakinu vid Borginni, svo sem væri hann óverdugur ad sjá uppá þá heilögu Borg í sinni písl, og hefur því Herrann Jesús horft sinni blessadri ásjónu til Vesturs, því hann var krossfestur fyrir vestan Borgina, hvad ecki er skéd fyrir utan sérlegann Guds leyndardóm og vilja, ávísandi þar med, ad hann vildi snúa sér frá Gydíngum, en ad oss heidíngum í Vestur-álfunni. Svo sýnist og ad Jeremías Spámadur hafi hér um spád í 18. Kap. Eg vil (seigir Drottinn) snúa vid þeim bakinu en ecki andlitinu, þá ed þeir skulu fordjarfast. Davíd seigir, Psalm. 65. Hans augu álíta heidnar þjódir. Hér af er sá sidur uppkominn í hjá þeim kristnu, ad þeir snúa sér til Austurs, þá þeir gjøra sínar bænir edur ákalla og lofa Gud.

Þanninn var nú Sonur Guds, á Krossinn negldur, þar ed hann héck á milli tveggja ræníngja nakinn í þrjár heilar stundir, særdur og alblódugur, vafdur þyrnum um allt hans blessada høfud; og á medan hann héck þar svo, þá var hann hæddur, spottadur af Kénnimanna-høfdíngjum, Skriftlærdum, Øldúngum lýdsins, af Stridsmønnum, og jafnvel af Ræníngjunum sem gudspjalleg historía ávísar.

Þetta allt sem þýngra var ad lída enn krossfestínguna, bar Jesús med svoddan þolinmædi, ad hann bad fyrir þeim og sagdi: Fadir! fyrirgéf þeim, þeir vita ecki hvad þeir gjøra. Þar eptir þá annar Ræníngjanna beiddist miskunar, þá hét Jesús honum, ad hann skyldi þann dag vera med sér i Paradís. Og þá Jesús leit nú sína Módur og Lærisveininn þar hjá standanda, þá sagdi hann: qvinna, þar er sonur þinn. Þar eptir sagdi hann til Jóhannem: sjá! þar er þín módir.

Þá þetta nú gjørdist, byrgdi Sólin sína geisla, og gat ecki sjed uppá þau harmqvæli, sem hennar Skapari hafdi ad lída, svo þar vard myrkur frá hádeigi, þá Sólin var sem hædst, og skein sem heitast, allt til nóns.

Þá klagadi Jesús sig vera yfirgéfinn af Fødurnum seigjandi: minn Gud! minn Gud! því yfirgafstú mig?

Þá þad var skéd, svo ad allt uppfylltist þad um hann var fyrirspád, þá sagdi hann: mig þyrstir. Jafnsnart hljóp einn ad, og létst vilja veita honum þjónustu, tók svamp og fyllti hann med edik, lét hann framan á reyr staung, og rétti ad hans munni. Jesúm þyrsti ad sønnu eptir vorri sáluhjálp; en hjá Gydíngum gafst honum ecki annad enn gall og edik.

Þá Jesús hafdi nú smackad edikid, sagdi hann: þad er nú fullkomnad; meinandi ad hann hefdi nú eptir Fødursins vild og vilja fullkomnad sitt offur. Og jafnsnart kalladi hann upp med hárri

røddu, seigjardi: Fadir! í þínar hendur fel eg Andá minn; og ad hneigdu høfdi, gaf hann upp Andann. Þettad skédi á 25. dag Martii, á níundu stundu þess dags, þá hafdi Jesús ad aldri 33 ár og 3 Mánudi betur; en vilji nockur reikna frá því hann var gétinn í módur-lífi, þá eru þad alls, 34 ár full, því hann var og einninn 25. dag Martii gétinn.

Nú svo ad hvør madur meigi vita og reikna, hvad lángur þessi Krossins vegur hefur verid Herranum Kristó, þá er merkjandi ad fet (hvors hér verdur gétid) er hálf alin Norsk, þeirrar álnar er 2 fet gjøra eina alin vora og eru þá í mál-fadmi 7 fet edur hálf fjórda alin.

Svo ad ef þú vilt nú reikna allann Krossins veg frá dóm-stóli Pílatí, og allt til þess stadar sem hann var med Krossinum uppreistur, þá reiknast þad þrjátígi tvøhundrud feta tiræd, níutígi tvø fet betur.

En ad álna-tølu, sextán hundrud tíræd, fjørutígi og fjórar álnir.

Nú er í mál-fadmi hálf fjórda alin, ellegar fet 7. Þar fyrir reiknast allur Krossins vegur 400 fadmar tírædir, 70 fadmar og alin.

Þetta, svo sem þad er ad finna í frædi-bókum sannordum, hefur hér sett verid, úngdóminum til fródleiks, og þeim ødrum til umhugsunar, sem þad ecki misvirda.

Í sama máta hafa þeir enn fródu forfedur sundur talid og reiknad, þann veg sem Drottinn hefur geingid, frá því hann var gripinn og til þess hann var dæmdur til dauda.

Frá þeim stad þar Jesús var gripinn og fángadur, ómyskunsamlega reirdur og bundinn, og allt í hús Annæ, þá reiknast; 2330 fet. Þadan og í hús Caiphæ reiknast 330 fet. Frá húsi Caiphæ og til Dómshúss Pílatí, hafa verid 1000 fet. Þá frá Pílató, ad höllu Heródis 350 feta vegur. Og sá sami vegur aptur frá Heróde, og til Dóms-húss Pílatí.

Þad er í summa fimtan hundrud fadmar tírædir, 57 fadmar betur, og eitt fet, edur hálf alin.

En vilji madur reikna tólfræd hundrud, þá er þad alls og alls, nær þrír fadmar midur enn þrettán hundrud fadmar.



# OBSERVATIO,

hvad

## Eptir-Sabbatz-Dagur merki,

sem nefndur verdur fyrri, í þessarar Bókar Þridjá Parti, 8da Kap. pag. 51.

---

Hvad Eptir-Sabbatz-dagur sé, halda ei allir lærdir menn eitt um. Margrá meiníng er, ad það sé hinn sídasti dagur Páska-hátídarinnar. Josephus Scaliger Emend. Tempp. meinar það vera þann fyrsta Sabbatz edur Laugardag, eptir Annann í Páskum Gydínga, Conf. Levit XXIII. v. 10 — 15. hvørju og samsínna, sumir hálærdir menn. Chrysostomus Lærifadir seigir svo: hvad er Eptir-Sabbatz-Dagur? Hann er: þegar tvær helgar koma saman, nefnilega: Sabbatz-helgi, og annarar eptirfylgjandi Hátídar. Því Gydíngar kalla Sabbat hvørn helgann dag. Hér út af talar þannig hinn hálærdi Bengelius í Ordine Temporum: Þessi Eptir-Sabbatz-Dagur, var eiginlega Sabbatz edur Laugardagur. Því Matthæus og Markús kalla Sabbatz-Dag, á hvørjum þetta skédi, án nockurs vidurlags edur útleggíngar. Þetta skédi hálfum mánudi fyrir Páska. Því annar Sabbatz-Dagur kom þar eptir, á hvørjum Drott-

inn læknadi þann sem hafdi visna hønd, Lúk. 6ta Kap. v. 6. Og þar eptir braut hann 5 braud med 5000 mønnum, Matth. 14. Kap. v. 13. seqq. sem var fyrir sjálfa Páska-hátíd Gydínga, Jóh. 6ta Kap. v. 4 og 10. Pharisæi fundu þad ei til, ad ei væri enn þá offrad þad bindini hins fyrsta gróda, Levit. XXIII. v. 10. Því samt sem ádur var leyfilegt ád plocka Axen, Devt. XXIII. v. 25. Þessum tíma ber rétt saman, því þá voru Korn-steingurnar varnar, en kornskéra Gydínga byrjadist med Páskum; svo þessi Sabbatz-Dagur var hinn sídasti í mánudinum Adar. En túnglkomu-dagurinn þar nærstur eptir, hinn fyrsti Páska-mánadarins Nisan; og kunnu á þeim tíma, eingar adrar tvær helgar saman ad koma, enn Sabbatz-Dagur og túnglkomu-dagur. Á þessum Sabbatz-Deigi lásu Gydíngar í sínum Samkundu-húsum, þá Historíu um Davíd og Jónathan, 1 Sam. 20. Kap. hvar svo stendur: v. 5, sjá, á morgun er mánadarkoma; og v. 18, á morgun er Hátíd hins nýa mánadar, sem og framveigis, er hann kom til Kénnimannsins, og át hjá honum skodunar-braudin, 1 Sam. 21. med hvørju dæmi, Frelsarinn hér forsvarar sína Lærisveina.





# Þrefaldt
# Registur
# Þessarar Bókar.

## Pad Fyrsta.

### Innihald sérhvors Parts.

Fyrsti Partur er um gétnad óg fæding Jóhannis Skírara og hans Prédikun, sömuleidis: um gétnad og fæding Herrans Kristí, med ödru fleira sem Gud-spjallamennirnir skrifa, um hans úngdóm og uppvoxt, þar til hann hóf sitt Prédikunar-embætti. Pag. 1.

Þessi Partur hefir inni ad halda 12. Kapítula.

Annar Partur er um þá atburdi er skédu á fyrsta ári Prédikunar-embættisins vors Drottins Jesú Kristí. Pag. 20.

Kapítular þessa Parts 11.

Pridji Partur seigir frá því er vid borid hefur á ödru ári Prédikunar-embættisins Herrans Kristí. Pag. 38.

Kapítular 23.

Fjórdi Partur hljódar um þad er skédi á pridja ári Prédikunar-embættis Herrans Kristí. Pag. 91.

Kapítular 25.

Fimmti Partur hefur inni ad halda þá adburdi, er skédu á því sídasta missiri Prédikunar-embættis-

(21)

Hvad sérhvør Kapítuli hefur inni ad halda, er hægt ad sjá af sjálfri bókinni, og vísast þess vegna lesaranum þángad.

---

*NB. Doct. Mart. Chemnitius* i Formálanum fyrir framan *Harmoniam*, telur svo til, ad Skírnin Krísti (med i hverri hann uppbyrjadi sitt Prédikunar embætti) hafi innfallid, fyrst i December mánudi, edur sídast i Nóvember, eptir því sem næst verdur komist, og líklegast má sýnast af Gudspjallegri Historiu. Svo byrjast þá sérhvørt ár Prédikunar embættisins Herrans Kristi med inngaungu Decembris, og endast med útgaungu Nóvembris, um hvørn tíma Encænia edur Musteris-vígslan var haldin hjá Gydingum; verda þá árin Prédikunar-embættisins Kristi þrjú heil, og þad á fjórda árid sem er frá uppbafi Decembris til Páskanna. Hér umfram eru þeir 40 dagar, sem Lúkas vottar, ad Herrann Kristur hafdi téd sig Lærisveinunum lifandi eptir pínu sína, og látid þá sjá sig, talandi fyrir þeim af Guds ríki, Act. 1.

# Annad Registur.

## Er um sérlegasta efni og inntak þessarar Bókar, sem er einkum fimmslags.

1. Eru þad Historíur og Frásagnir.
2. Dæmi-søgur og Eptirlíkíngar.
3. Lærdómar og Kénníngar Herrans Krísti.
4. Hans Dásemdir og Krapta-verk.
5. Lækníngar á þeim veiku og vanfæru.

En svo þetta sé því auðveldara að upp leita og finna í Bókinni, þá setjum vér sérhvørt fyrir sig.

# I. Historíur og Frásagnir.

## Historía Jóhannis Skírara.



## Historía Herrans Kristí.

## EX APPENDICE.



## Stutt ágrip Lífs-Søgu Postulanna.

Pag.

## Jerúsalems Foreyding.



## II. Dæmisögur og Eptirlíkingar.

## III. Lærdómar og Kénníngar Herrans Kristí.

## IV. Kraptaverk og Dásemdir Kristí.



## V. Lækningar á þeim Veiku og Vanfæru.

## Þridja Registur Bókarinnar,

Er til ad finna þau Evangelía og Gudspjalls-texta, sem tilheyra sérhverjum Sunnudeigi, og helgum deigi, árid um kríng.

---

## Prentvillur:

Blf. 4 línu 9 hanu l. hann, sømu blf. l. 22 útilátist ordid og. Blf. 5. l. 29. herleidiugar l. herleidingar. Blf. 18. l. 32. hefnr l. hefur. Blf. 24. l. 10. stendnr l. stendur, sømu blf. l. 12. vg l. og. Blf. 25. l. 4. nocku ntíma l. nockurntíma. Blf. 29. l. 13. Judar l. Júdar. Blf. 31. l. 1. ef l. ef. Blf. 41. l. 29. útilátist =. Blf. 65. l. 28. nppbyggt l. uppbyggt. Blf. 67. l. 9. úngmeni l. úngmenni. Blf. 68. l. 1. blindnm l. blindum. Blf. 73. l. 5. búshlnt= l. búshlut=. Blf. 77. l. 19. sáir l. sáir. Blf. 82. l. 5. Skistlærdur l. Skristlærdur. Blf. 83. l. 10. framlidìdnna l. framlidinna. Blf. 84. l. 11. svíninu l. svínin. Blf. 94. l. 20. óttast l. óttist. Blf. 95. l. 16. leinga l. leingra. Blf. 102. l. 31. géfnr l. géfur. Blf. 105. l. 2. hasi l. hafi. Blf. 110. l. 15. sedjnm l. sedjum. Blf. 111. l. 28. útilátist ad. Blf. 114. l. 1. Sristlærdum l. Skristlærdum, sømu blf. l. 22. hórnnarsamri l. hórunarsamri. Blf. 124. l. 12. hin l. hinn. Blf. 128. l. 12. nndrist l.

undrist. Bls. 129. l. 2. af l. af. Bls. 133. l. 15. eliislega l. eilislega, somu bls. l. 27. udn l. udu. Bls. 137. l. 13. fig l. sig. Bls. 139. l. 18. ysirsterkari l. yfirsterkari. Bls. 140. l. 3. myltir l. myltir. Bls. 141. l. 17. skrist= somu bls. l. 18. ernd l. erud. Bls. 148. l. 3. heldnr l. heldur, l. 7. plantab l. plantad, l. 12. sadgi l. sagdi. Bls. 149. l. 25. nott=in l. nóttin. Bls. 160. l. 3. naugda l. naudga, l. 15. hefur l. hefur. Bls. 165. l. 18. Abrabam l. Abraham. Bls. 173. l. 14. l. og enn segi eg. Bls. 176. l. 10. vinar l. vinur. Bls. 179. l. 2. tollheintum: l. tollheimtum: Bls. 195. i enda linu 10. útilátist = Bls. 199. l. 3. epir l. eptir. l. 24. kénning l. kénning. Bls. 200. l. 19. hanu l. hann. Bls. 202. l. 32. vdur l. ydur. Bls. 204. l. 18. Gnds l. Guds. Bls. 210. l. 29. Eprir l. Eptir. Bls. 213. l. 10. suudur l. sundur. 214. l. 1. 8g l. og, l. 13. eilist l. eilift, l. 24. til=sogn l. tilsogn. Bls. 215. l. 1. sofnndust l. sofnudust, l. 14. gefa l. géfa. Bls. 217. l. 12. eg eg l. eg. Bls. 225. l. 24. ernd l. erud. Bls. 240. l. 20. aptnr. l. aptur. Bls. 256. l. 19. og i midri linu l. ad. Bls. 271. l. 18. tal=adl l. taladi. Bls. 287. l. 17. vi du l. vildu. Bls. 292. l. 5. þeirr l. þeirri. Bls. 298. l. 16. hinn l. hin. Bls. 301. l. 7. hæfilega l. herfilega.



